# Sögur

úr

# Þúsund og einni nótt

íslenzkaðar

af

Benedict Gröndal

cand. phil.

**Reykjavík**

prentaðar hjá E. Þórðarsyni, á kostnað Egils Jónssonar

1852.

# FORMÁLI.

Það er merkilegt, að sá skáldskapur, sem andinn sleppir sjer öldungis í, án tillits til mögulegleikans og verulegleikans, að þessi skáldskapur skuli einmitt vera upp kominn í þeim löndum, þar sem ótakmarkað veldi stjórnaranna ríkti með járnvarðinni veldisspíru sjálfræðisins, umkringt af ljómandi dýrð — ekki einungis af þeirri, sem slíkum drottnurum er samboðin, heldur og af því hinu ilmríka skrauti, sem jarðargróði hinna heitu landa leiðir af sjer fram. Slíkir stjórnarar voru (og eru enn) í austurálfu heimsins; — frá Rauðahafs-botni og austur að Kínaflóum voru þjóðirnar háðar þeim drottnum, sem ekki höfðu önnur lög, en egin vilja sinn. En einmitt í þessum löndum er og þessi skáldskapur upp runninn, sem nefndur er í byrjun formálans. Það þarf ekki annað, en lesa hann — menn hljóta strax að sjá, að hugmyndaaflið hefur verið þrungið og augað umkringt af þeim myndum, sem hvergi ega sjer stað, nema á austurlöndum. Þessar austurlenzku sögur hafa farið um alla norðurálfuna, vakið athyggli menntaðra manna, og skemmt öllum þeim, er þær hafa heyrt eða lesið.

Þúsund og ein nótt er þannig undir komin, að sagt er, að í fyrndinni hafi verið konungur á austurlöndum; sá hjet Schachriar; drottning hans ljet aðra menn glepja sig, en konungur reiddist svo af, að hann ljet drepa hana; síðan tók hann sjer konu á hverjum degi, og er hann hafði legið hjá henni eina nótt, þá ljet hann drepa hana. Fór svo fram um hríð. Ráðgjafi konungs átti dætur tvær; þær hjetu Dinarsade og Sheherasade. Sheherasade var vitur mjög og fróð í sögum; hún beiddist þess af föður sínum, að mega giptast konungi, og kvaðst vilja reyna, ef hún mætti koma huga hans til að snúast frá illvirkjum. Ljet ráðgjafinn það eptir nauðugur. Þá fór Sheherasade, og er hún var komin í rekkju með konungi, hóf hún frásögu, og var eigi búin, þá er daga tók. En konungi fannst svo mikið um, að hann ljet hana halda áfram sögunum, og gekk svo þúsund og eina nótt; en svo lauk, að Sheherasade snjeri konungi og reiði hans í mildi.

Ekki ber mönnum saman um, hvar sögusafn þetta sje ritað í fyrstu; sumir segja á Indlandi, sumir á Egiptalandi, sumir í Persíu. Ekki þykir heldur víst, að allar sögurnar sjeu jafngamlar, og það eru þær án efa ekki; en sagt er, að þeim hafi verið safnað á arabiska tungu á ríkisárum Al Mansúrs kalífa.

Flestar sögur í þúsund og einni nótt lýsa dæmalausu hugmyndaflugi og sjálfráðu ímyndunarafli, sem ekki hirðir um neinn tíma nje nokkurt rúm. Glaðværð og fyndni eru samanblandaðar og samanofnar við harm og sorg, og víða kemur þar fram djúpsær þekking og háleit skoðun á mannlífinu. Framsetningin er einföld, hversu mikil, sem hugmyndadýrðin kann að vera. Að venju Múhameðs-játenda er guð og trú opt nefnd í sögum þessum.

Harún Raskíð var abbasídiskur kalífi í Bagdað (í Mesópótamíu), frá 786 til 809 eptir Krists burð; hann var ágætur stjórnari, ríkti í friði og efldi heill þegna sinna. Kalífar (eiginlega á arabisku: Khalifet Resul Allah ɔ: sá, sem er í stað sendiboða drottins) kölluðust þeir, sem Múhameð fól á hendur stjórn á Arabíu, á meðan hann var sjálfur í leiðangri. þessu tignarnafni hjeldu síðan þeir, er fylgdu á eptir Múhameð í ríkisforráðum á Arabíu, og ríktu í Bagdað. Harún Raskíð er opt nefndur í þúsund og einni nótt.

þessi útlegging er gjörð eptir danskri bók, sem aptur er tekin úr þjóðverskri útleggingu eptir Hoffmann, en sem þó er nokkuð breytt. „Parisade“ er lögð orðrjett út eptir Weils þjóðversku útleggingu, sem er ein hin bezta og fullkomnasta þeirra, er til eru af þúsund og einni nótt; og mun þaðan verða tekið fleira, ef þessi bæklingur fær góðar viðtökur, sem vjer og vonum, þá mun jeg og leitast við, að lýsa betur skáldskap austurlanda, en hjer er gjört, því að hann er lítt kunnur hjer á landi.

Jeg þykist ekki þurfa að fara neinum orðum um það, hvort sögurnar í þúsund og einni nótt sjeu sannar, eða ekki. En hitt vildi jeg heldur drepa á, að skáldskapurinn ekki þarf að vera sannleikur, það er að skilja þannig, að hlutirnir, sem hann lýsir, hafi verið til eða geti verið til í því formi sem þeir eru fram settir í; heldur þurfa einungis hin skáldlegu efni að standa í vissu hlutfalli við það sem vjer þekkjum úr hinu verulega lífi, því þaðan tökum vjer, hvort sem er, öll dæmi og allar líkingar og allar þær hugmyndir, sem koma fram í skáldskapnum, hverjar sem þær eru.

Að endingu get jeg þess, að jeg nenni ekki að tala um málið á útleggingu þessari; og jeg nenni ekki að afsaka mig um það efni; og jeg nenni ekki að geta um prentvillur, sem inn hafa skotist; og jeg nenni ekki að biðja lesendurna fyrirgefningar á þeim.

Skrifað í Reykjavík, 1. ágúst 1852.

*B. Gröndal.*

---



# Borgin sokkna.

Það er mælt, að í fornöld hafi verið fiskimaður nokkur, er bjó í kofa einum, er hann átti, ekki langt frá borg einni mikilli, er lá við sjó fram. Var fiskimaðurinn kvæntur, og átti fjölda barna; en svo var hann fátækur, að hann opt og tíðum eigi vissi, á hvern hátt hann skyldi leita viðurværis sjer og sínum, og varð hann að hafa ofan af fyrir sjer með þeim hlutum, er hann fjekk fyrir vinnu sína á hverjum degi. En hann trúði á drottinn með öruggum hug, og treysti því, að sá hinn sami, er fæðir fugla himins, ekki mundi setja sig hjá; var fiskimaðurinn ráðvandur, og lifði í ótta drottins, en þótt hann væri öreigi.

Einhvern morgun klæddist hann hljóðlega, eins og vandi hans var til, svo að börnin ekki vöknuðu; tók hann net sitt, og gekk til sjávar; tunglsskin var bjart, og fyrsti morgunbjarminn farinn að sjást í austri. Las hann þá bæn sína, og fleygði út netinu; en það þyngðist brátt, og hjelt hann nú, sem von var, að fiskur væri í hverjum möskva. En sem hann dró netið á land, þá var það asnahræ, er flækzt

hafði í netinu. Gramdist manninum nú eigi alllítið þessi óheppni, og fleygði hann hræinu á sandinn, en greiddi úr netinu, og bætti það; síðan fleygði hann því út aptur. Varð það þá þungt mjög, en fiskimaðurinn varð feginn, og vonaðist nú eptir góðri veiði; en í netinu var þá körf ein mikil, og öll þakin leiri og leðju. Tók hann nú að verða óttasleginn, og minntist þess með sjer, að hann fyrrum hefði strengt þess heit, að fleygja neti sínu aldrei optar út, en fjórum sinnum á degi hverjum; en nú þótti honum eigi horfa fiskivænlega þenna dag. Tók hann nú körfina úr netinu, hreinsaði það, og fleygði því út í þriðja sinni; en þá þyngdist það svo mjög, að honum þótti, sem sá dráttur væri þyngri en báðir hinir fyrri til samans, og lá við sjálft, að hann eigi fengi dregið netið að landi. En í stað fiska var eirketill mikill í netinu, og datt honum þá í hug, að hann mundi þó að minnsta kosti geta selt hann í borginni, og að svo mætti vel verða, að hann hlyti meira fje fyrir þetta, en þótt hann hefði fiska dregið. Vafði hann nú net sitt saman, og ætlaði heim.

Meðan þessu fór fram, var dagur runninn á lopt, og varð þá fiskimaðurinn þess var, að ketillinn var innsiglaður með blýlás. Og er hann fór að reyna að lopta katlinum, þá var hann svo þungur, að hann örvænti um, að koma honum á burtu, langaði hann og til að fá að sjá, hvað í katlinum væri. Tók hann nú kníf, og losaði blýlásinn frá; en er ketillinn var opinn, velti maðurinn honum til og frá, en ekkert var að finna í honum, og virtist hann vera altómur. Furðaðist fiskimaðurinn yfir þessum hlut, og fjekk eigi skilning um slíkt; ljet hann ketilinn kyrrann, og

fór að hugsa um þenna atburð. En undrun hans jókst eigi alllítið, er hann sá, að gufu nokkura dimma lagði upp úr katlinum, og jókst sú gufa, og varð að þoku mikilli, er huldi haf sem land, og dró myrkva á sólu. Eptir að gufan var öll komin upp úr katlinum, tók þokan að dragast saman og þjettast, og varð loks að stórvaxinni mannsmynd, er var meiri að vexti, en hið mesta tröll. Sá hrópaði: mikli *Salómon,* eg hefi þegið nóga hegningu, fyrirgef mjer; eg mun hlýðnast boðum þínum. Undraðist fiskimaðinn þenna hlut, og lá við sjálft, að hann yrði hræddur við þokutröllið. En hann hugsaði með sjer, að þar eð hann hefði frelsað anda þenna af díblissunni, þá mundi hann eigi vinna sjer mein; mælti hann þá: mikla vera, hví hrópar þú á *Salómon,* sem fyrir löngu er dáinn, og kominn til feðra sinna, og sem hverki mun gjöra þjer gott nje illt? Leit andinn þá á fiskimanninn með drembilegum svip, og mælti — en rödd hans dundi, sem þrumugnýr —: mannskepna, sagði hann, hvað segir þú við mig? Óttastú mig, og mæl af bljúgum hug, því að eg er máttugur andi. Við þessa geysi-rödd skaut fiskimanninum skelk í bringu; en samt missti hann eigi hug sinn, heldur mælti hann djarflega: hvort sem þú ert andi, eða maður, þá muntu eigi vinna mjer mein; seg mjer, hvernig á þjer stendur. Andinn svaraði: maður, þú hlýtur að deyja, því að þann eið hefi eg svarið, að þú ekki skulir komast lífs af úr valdi mínu. En eg mun veita þjer þá náðargjöf, að velja þjer dauða á hvern þann hátt, er þú girnist. En til þess, að þú skiljir það, að eg má eigi öðru fram fara, þá heyr þú sögu mína. Sjá, eg er einn þeirra, er óhlýðnuðust

drottni, og eigi vildu kannast við herra sinn. En drottinn útbjó *Salómon*, svo að hann varð voldugri oss, og yfirsterkari. Sendi *Salómon* þjóna sína á móti mjer, og varð eg sigraður af *Assaf*, *Barakías* syni, en hann leiddi mig að fótskör hásætis þess, er *Salómon* sat á í veldi sínu og dýrð. Lofaði *Salomon* mjer fyrirgefningu á afbroti mínu, ef eg kannaðist við ríki drottins. En um þær mundir var hugarríki mitt svo ákaft og grimmt, að eg svaraði af mikilli reiði, og kvaðst engum mundi hlýðnast, nema sjálfum mjer. Var þá lokið þolinmæði *Salómons*, ljet hann sækja eirketil þenna, rak mig þar inn, og lokaði með hinu helga innsigli, er vjer eigi fáum leyst. Ljet hann síðan fleygja mjer í sjávardjúp; en eg vonaðist eigi eptir, að líta framar bjartan dag.

En sem eg var kominn niður á sjávarbotn, greip mig iðran mikil út af því, sem eg hafði gjört; en það var um seinan. Þá hjet eg því, að ef nokkur innan hundrað ára leysti mig úr díblissunni, þá skyldi eg veita þeim manni mikla nægt auðæfa, bæði hjer og annars heims; beið eg nú lausnar minnar. En öldin leið, og forlögin voru óraskanleg. Lofaði eg þá, fyrir næstu öld, að eg skyldi veita frelsara mínum allan auð jarðríkis; en sú öld leið, og ekkert breyttist um hagi mína. Í þriðja sinni lofaði eg því, að veita frelsara mínum konungs tign, og þar með þrjár óskir dag hvern, og vernda hann æfinlega; en hin þriðja öld leið, og enginn bjargaði mjer. Þá fylltist hjarta mitt gremju og reiði; og eg sór við herskara himinsins, og við konung andanna, að deyða sjer hvern þann, er yrði svo ógæfusamur, að leysa mig. Maður, þú hlýtur að deyja.

Þannig mælti hann; en fiskimaðurinn sá, að engrar hjálpar var að vænta, nema ef honum tækist, að gjöra andanum einhvern grikk. Hann hugsaði til konu sinnar og barna, sem án hans voru bjargarlaus, og datt honum nú ráð í hug, en þótt hann væri hræddur. Hann mælti við andann: þú hinn mikli og voldugi andi, örlögum sínum fær enginn breytt; en eg særi þig við drottinn, þann hinn alvalda, að þú segir mjer einn hlut, áður en eg dey. En er andinn heyrði nafn drottins, þá bliknaði hann og skelfdist; en hann mátti eigi standast þá særingu, og bauð hann fiskimanninum að tala. Hann mælti þá: því fæ eg aldrei trúað, að líkami þinn hafi verið í katli þessum, og hefir þú farið með ósannindi; eður er ekki svo? Nei, mælti andinn, eg hefi talað satt. En fiskimaðurinn ljezt eigi trúa honum, og kallaði í sífellu, að hann færi með lygar, þar til er andinn reiddist loksins, og drundi: fyrst að trúarleysi þitt er svo mikið, og þú enn efast um mátt minn, þá mun eg láta þig sjá, að eg kemst fyrir í katli þessum. En þetta var einmitt það, sem fiskimaður vildi, því hann var slóttugur vel, og hugsaði nú með sjálfum sjer, að nú skyldi hann ekki sleppa, andinn. Gjörðist andinn nú að þoku, og dreifðist út yfir sjóinn og landið; en loksins hvarf öll þokan hægt og hægt ofan um ketilsopið; en andinn kallaði út úr katlinum: trúir þú mjer nú, hinn trúarlausi? Já, sagði fiskimaðurinn, og ljet lokið sem skjótast yfir ketilinn, en setti innsigli *Salómons* fyrir; mælti hann þá af mikilli gleði: sjá þú, mannaeyðir, nú hefi eg snarað þig, og skaltu nú aptur í sjávardjúp; en eg mun segja öllum mönnum, hver þú sjert, svo

að enginn opni ketil þenna, og sleppi þjer út. Hló hann nú að andanum, og gladdist yfir því, hve laglega hann fjekk á hann leikið. En andinn gjörði allt sitt til að brjóta lokið af katlinum, en innsigli *Salómons* var sterkara enn svo, að það ljeti undan. Tók hann þá að fara bónarveg að fiskimanninum, og lofaði öllu fögru, ef hann leysti sig. Vildi fiskimaðurinn í fyrstu eigi heyra neitt um þann hlut, en ávítaði andann harðlega, og var ekki á því, að stofna sjer í hættu að nýju. Tók hann nú ketilinn, og ætlaði að fleygja honum í sjóinn, en þá mælti andinn: maður, eg særi þig við guð, sem er æðstur allra anda, að eg skal veita þjer mikið fje, og ekki vinna þjer mein, ef þú lætur mig lausan; þú veizt, að andarnir aldrei hafa rofið slíkan eið. En fiskimaðurinn hugsaði til konu sinnar og barna, og gekk að þessum kostum.

Hann setti ketilinn aptur niður, og kvaðst með þessum kostum mundi gefa honum lausn; því að það vissi hann, að andinn mátti eigi rjúfa þenna eið, nema hann hlyti æfinlega fyrirdæmingu af. Tók hann þá lásinn frá, en þokan gufaði út, og andinn kom fram, og þakkaði fiskimanninum lausn sína. Tók hann síðan ketilinn, er hafði ollað honum kvalræðis og eymda, og fleygði honum langt út á sjó, svo að hann sæist ekki framar.

Síðan bauð hann fiskimanninum að fylgja sjer eptir, og hirða net sitt; gengu þeir nú fram hjá borginni, og þá yfir fjall eitt mikið; þá fóru þeir um völlu nokkura, unz þeir loksins komu að vatni einu, er lá á milli fjögra hálsa; þar námu þeir staðar. Undraðist fiskimaðurinn stórlega, hve djúpt vatnið

var; en svo var það tært, að í botn mátti hvervetna sjá; en það furðaði hann enn framar, að á vatnsbotninum var borg mikil, og mátti vel sjá hús og stræti, turna, musteri og borgarveggina. Innanum byggingar þessar sveimaði ógrynni fiska, og sýndust þeir fara út og inn um glugga og dyr; var það að sjá, sem þeir reyndar ættu heima í borg þessari. Fiskimaðurinn tók eptir því, að fiskarnir áttu sjer fjóra liti: sumir voru snjóhvítir, sumir rauðir, sumir bláir, en aðrir voru gulir að lit.

Þegar hann var kominn til sjálfs sín, eptir undrun þá, sem yfir hann kom, mælti andinn við hann: hjer skaltú á hverjum degi fleygja út neti þínu; en ekki optar, en einu sinni á dag; ella verður það þín ógæfa. Á hverjum degi muntú draga fjóra fiska, sinn með hverjum lit; skaltu færa keisara þá, og mun hann gefa þjer meira fje, en þú á allri æfi þinni hefur sjeð. Að svo mæltu stje andinn á jörðuna, og sökk þar sem hann var kominn. Enn fiskimaðurinn lagði net sitt, og að vörmu spori komu fjórir fiskar í möskvana; dró hann upp netið, fór til borgarinnar og til keisarans, og mælti: herra keisari, eg færi yður fjóra fiska, sem eg aldrei hefi slíka sjeð, og skal enginn annar fá þá, en þjer, herra. Þótti keisara eigi alllítið koma til fiskanna, því að þeir voru bæði miklir og fagrir; ljet hann þegar sækja ráðgjafa sinn, og fjekk honum þá í hendur, og bauð, að fá þá eldamanni, að þeir yrðu matreiddir, svo sem bezt yrði. Ljet keisari síðan telja fiskimanninum fjögur hundruð gullpeninga, og bauð honum, að færa þangað alla þá fiska, er hann drægi. Varð fiskimaðurinn nú glaður mjög, og lá við sjálft, að honum fynndist

allur atburður þessi vera draumur einn, því þaðan í frá var honum borgið með fje. Sagði hann konu sinni frá öllu, er hann kom heim, og var nú gleði mikil í kotinu. En það er af fiskunum að segja, að ráðgjafinn fór með þá til matarsveinsins, og bauð honum, að búa til af þeim gómsætan rjett handa keisaranum. Tók matarsveinninn við fiskunum, hreinsaði þá, og lagði þá á steikarapönnu yfir glæður. Þegar þeir voru stiknaðir öðru megin, snjeri hann þeim við, svo að þeir yrðu eins báðu megin; en allt í einu klofnaði hússveggurinn í sundur, og kona gekk fram, og inn í eldhúsið; var hún fögur að sjá, og ríkulega búin að klæðum, og hjelt á sprota í hendi. Gaf hún sig ekki að matarsveininum, en gekk að eldstónni, snerti fiskana með sprotanum, og mælti hátt:

heyrið, fiskar úr mínum mar,
munið, hvað yður boðið var;
rísið þjer upp, og orðin mín
uppfyllið þjer, unz báran dvín.

En allir fiskarnir teygðu upp höfuðin, og sögðu í einu hljóði:

ekki vjer gleymum;
en allt af munum
skyldur vorar,
skjaldmeyjan fríða;

og síðan lögðu þeir höfuðin niður aptur. En konan tók steikarapönnuna, og velti öllu við, svo að fiskarnir fjellu niður í eldinn, en sjálf gekk hún út um vegginn, og var þegar horfin. Varð matarsveinninn frá sjer numinn, og skildi ekki þenna hlut; en sem hann ætlaði að taka fiskana af eldinum, þá voru þeir

brunnir að kolum, og orðnir óæti. Varð hann nú hræddur mjög, og óttaðist reiði keisara. Strax eptir þetta kom ráðgjafinn, og sagði matarsveinninn honum upp alla sögu; varð ráðgjafinn þá líka hissa, en huggaði sveininn, og kvaðst mundi fullnægja keisara. Sendi hann nú eptir fiskimanninum, og heimtaði af honum fjóra aðra fiska. En fiskimaður skoraðist undan; sagði hann, að langt væri til vatnsins, og bráðum tæki að dimma. Vildi hann eigi hlýða ráðgjafanum, því að orð andans voru ekki liðin honum úr minni, en hann lofaði, að koma með fjóra fiska daginn eptir; varð ráðgjafinn að láta sjer það líka. Efndi og fiskimaðurinn heit sitt, því að fyrir sólaruppkomu kom hann með fiskana, fjekk ráðgjafanum þá, og hlaut fjögur hundruð gullpeninga; fór hann við það heim, og var ánægður. En ráðgjafinn lokaði sig, ásamt matarsveininum, inni í eldahúsinu, og fór matarsveinninn með fiskana á sama hátt og fyr. En er þeir voru stiknaðir öðru megin, snjeri hann þeim við; þá klofnaði veggurinn, konan gekk inn, og mælti eins og fyr:

heyrið, fiskar úr mínum mar,
munið, hvað yður boðið var;
rísið þjer upp, og orðin mín
uppfyllið þjer, unz báran dvín.

En fiskarnir teygðu upp höfuðin, og sögðu í einu hljóði:

ekki vjer gleymum;
en allt af munum
skyldur vorar,
skjaldmeyjan fríða.

Snjeri konan þá öllu við, svo að fiskarnir fóru í eld-

inn, brunnu upp, og urðu þannig að engu. Hafði ráðgjafinn nú sjeð allt þetta sjálfur, og var hann lengi orðlaus af undrun. Loksins mælti hann: þenna hlut megum við eigi dylja fyrir keisaranum, því að atburður þessi er næsta merkilegur, og mun eg segja honum frá þessu; ella mun hann hegna báðum okkur með dauða. Gekk hann nú skjótlega til keisarans, og sagði honum, hvað gjörzt hefði. En keisari trúði eigi, og sagði ráðgjafann fara með ósannindi. En ráðgjafinn lagði höfuð sitt að veði fyrir því, að hann hefði satt að mæla, og trúði keisari honum þá; vildi hann nú sjálfur sjá atburð þenna.

Daginn eptir kom fiskimaðurinn með veiði sína; tók keisari nú sjálfur við, og gaf fiskimanni fjögur hundruð gullpeninga. Ljet hann nú búast fyrir í stofu einni, og gjöra eldstó; voru fiskarnir lagðir yfir glæðurnar, eins og matarsveinninn hafði áður gjört; síðan snjeri hann þeim við. Brast þá veggurinn í sundur með dynkjum og braki; en í það sinn kom ekki konan fagra, heldur maður nokkur mikill vexti og svartur á hörund, og illilegur ásýndum. Leit hann drembilega og reiðuglega til keisara, gekk að eldinum, og snerti fiskana með sprota þeim, er hann hjelt á, og mælti með ljótri röddu: fiskar, gjörið skyldu yðar. En fiskarnir teygðu upp höfuðin, og sögðu: vjer munum gjöra hana. Velti hinn illilegi maður þá öllu við, og fór á burtu, en fiskarnir brunnu.

Keisarinn var maður djarfur og hugprúður, og stjórnaði ríki sínu viturlega. Hann varð ekki stórlega frá sjer numinn af þessari sjón, en sagði við ráðgjafann: Þessi hlutur virðist mjer eigi vera með

náttúrlegu móti, og mun þetta standa í einhvurju sjerlegu sambandi við fiskimanninn; kallið hann fyrir mig. Gekk ráðgjafinn þegar á burtu, og kom vonum bráðara með fiskimanninn. Frjetti keisari hann nú um þenna hlut, og undraðist, er hann heyrði talað um vatn það, er enginn vissi af fyr. Bauð hann nú mörgum mönnum upp til ferðar nokkurrar, er hann kvaðst ætla að fara; en sjálfur vopnaðist hann, og stje á hest, en fiskimaðurinn fylgdi þeim. Lá vegurinn nú, eins og fyr, yfir fjallið mikla, og eptir völlunum; komu þeir loks að vatninu, og sá nú keisari staðinn undir vatninu niðri, og fiskana, er áttu sjer fjóra liti. Ljet hann nú reisa tjöld, og bauð mönnum sínum að búast við nokkurri dvöl; því að hann hafði fastlega með sjer ráðið, að hætta eigi við svo búið; heldur vildi hann leysa þær hinar myrku ráðgátur, er fyrir hann lögðust. Og á hvern hátt gat vatnið verið þangað komið, ekki lengra en tvær mílur frá borginni? Því áður var það þar ekki, og enginn hafði sjeð það, eður heyrt þess getið. Fór fiskimaðurinn heim til sín frá keisara, með stórgjöfum; og sá hann, að menn hlýddu boði keisarans, er reist voru mörg hundruð tjalda á vatnsbakkanum, með ljómandi litum og blaktandi fánum.

Þegar nótt var komin, kallaði keisarinn ráðgjafann fyrir sig, og mælti: ráðgjafi, eg hefi engan frið, fyr en eg fæ skilið þenna leyndardóm, er oss hefir birzt á undarlegan hátt. Vil eg því með dögun fara úr tjaldi mínu, og fara gangandi yfir einn þessara hinna fjögra hálsa, og kem eg eigi aptur, fyr en mjer er allt ljóst orðið; en það vil eg eigi, að menn mínir fái að vita af brottför minni; skulu þeir því

allir bíða, og ekki fara til borgar vorrar, eður úr tjaldstaðnum. Hver sá, er eigi hlýðnast þessu boði mínu, skal deyja. Skaltú segja þjónum mínum á morgun, að mjer sje óglatt, og muni eg eigi ganga úr tjaldi; og svo skal vera hvern þann dag, er eg eigi kem aptur. En ráðgjafinn fleygði sjer fyrir fætur keisarans, og grátbændi hann um, að stofna sjer ekki í slíka hættu, því að hann hafði ást mikla á herra sínum. En keisari ljet eigi af ætlan sinni; klæddist hann dularbúningi, gyrti sig sverði, og er dagur ljómaði, lagði hann á stað með öruggum og óhræddum hug. Gekk hann nú yfir einhvern hálsanna, er lágu umhverfis vatnslegið, og leit hann þá aptur völlu mikla. Þá gekk hann lengi eptir völlunum, unz hann að miðjum degi eygði höll mikla í fjarska, og hvatti hann þá sporið, því hann vonaðist eptir að geta hvílt sig þar, en þótt hann þar eigi mundi fá meiri skilning um þá hluti, er hann vildi vita. Og er hann var þangað kominn, leizt honum höll þessi hin fegursta bygging, er hann hefði sjeð. Voru veggirnir af svörtum marmarasteini, og skyggndir, en þakið var allt af silfri. Fann hann hurð eina á klofa, og barði að dyrum; því að það hjelt hann, að þjónn nokkur mundi koma, og leiða sig til eiganda þessarar hinnar dýrðlegu hallar. En höggin deyðu í fjarska, og var eigi komið til dyra; barði hann þá enn fastara, en það kom fyrir ekki. Tók keisara þá að detta í hug, hvort salurinn væri með öllu óbyggður, og hrópaði hann síðan með hárri röddu: er hjer enginn maður, sá er geti hresst móðan vegfaranda? Hann beið svars, en allt var hljótt, sem í gröfum dauðra manna. Leiddist honum loksins að bíða, og

dró hann sverðið úr slíðrunum, og gekk inn um dyrnar, og inn í höllina; en skóhljóðið dundi í hinum breiðu göngum, er hann gekk um; og gekk hann um allt, og sá engan mann. Opnaði hann hverjar dyr af öðrum, og sá dýrðleg og háreist herbergi, og sali fagra. Þá kom hann inn í sal einn mikinn, er var fegri en allir hinir; var í miðju hans vatnslaug, og í miðri lauginni fjögur ljón af eiri, er gusu fjórum vatnsbunum allt í salsrjáfrið upp, og mynduðu fagran vatnsstaf. En umhverfis voru legubekkir með ábreiðum af silki, dýrðlega ofnum með gulli og silfri. Hinir háu gluggar myrkvuðust af bylgjandi blæjum, og var salurinn svo fagur og svalur, að keisari lagðist á legubekk einn, til að njóta nokkurrar hvíldar.

Meðan hann var að furða sig á, hve fagurlega salir þessir væru skrýddir, en þótt engin lifandi vera ætti þar aðsetur, heyrði hann eitthvert kveinandi hljóð. Hlustaði hann nú eptir hljóðinu svo vel sem honum var unnt; og heyrði hann, að hljóðið kom úr einhverju af þeim herbergjum, er lágu fast við salinn; gekk hann nú á hljóðið, og fann leynidyr nokkrar. Hann opnaði, og kom inn í herbergi; er hann eigi hafði áður sjeð. Var í herberginu konungsstóll af svörtum marmarasteini, en á stólnum sat ungur maður, forkunnar fagur. Hafði hann á höfði sjer kórónu af gulli, og setta gimsteinum; á herðum hans var purpuraskikkja, en sprota hafði hann í hægri hendi. Kvaddi keisari hinn unga mann virðulega, en hann hneigði sig fyrir keisara, og reis ekki upp; sat hann kyrr á hásætinu, og mælti: ókunni maður, hver sem þú ert, undrastú eigi, þó að eg ekki rísi upp, til að kveðja þig; gakk hingað, og sjá! Að því mæltu

fletti hann skikkjunni frá sjer; en keisarinn varð óttasleginn, og undraðist, því að hinn ungi maður var eigi hold og blóð, sem aðrir menn, nema að mjöðmum niður; en þar fyrir neðan var líkami hans af svörtum marmarasteini, eins og úthöggvið líkneski. Og er keisarinn hafði litið þessa hina skelfilegu sjón, huldi hinn ungi maður ásjónu sína, og felldi harmsollin tár. Leið stund nokkur, áður keisarinn áttaði sig; en loksins gekk hann til hins unga manns, faðmaði hann og grjet, og beiddist, að hann segði sjer af ógæfu sinni; spyr eg þig ekki af forvitni, mælti hann, en eg er fús á, og búinn til, að ljetta hörmum þínum, ef að það má verða með mætti og sverði dauðlegs manns. En er hinn ungi ungi maður heyrði þetta, hætti hann að gráta, og bráði nokkuð af honum; hann mælti: ókunni maður, eg skal segja þjer frá öllu, jafnvel þó að það rifji upp harma mína, og rífi upp þau sár, sem ekki eru grædd, muntú fá að heyra undarlega hluti. Sagði hann þá keisara eptirfylgjandi sögu:

Faðir minn hjet *Mamúð*, og ríkti yfir ríki því, sem kallað er ríki hinna fjögra svörtu eyja. Ljet hann fræða mig í öllum þeim hlutum, er títt var, að menn kynnu, og hlaut eg að læra allt það, sem meistari minn kunni; en hann var vitrastur maður á mínu landi. Kom eg til ríkis eptir dauða föður míns, og unni þjóðin mjer hugástum, því að eg stjórnaði mildilega, og bældi niður grimmd og sjálfræði. Sú var og ósk mín, að enginn grimmur og illur harðstjóri skyldi koma til ríkis eptir mig, og eyða öllu hinu góða, er eg hafði gjört; gekk eg því að eiga eina af frændkonum mínum, er mjer ætíð hafði litist

vel á, og sem var góð og mild af hug. Með henni lifði eg farsællega í 5 ár, og hafði eigi ástæðu til að iðrast þess kvonfangs. En þá hlaut eg, til ógæfu minnar, að fara ferð, er eg þurfti hálft ár til.

Meðan eg var á burtu, kom gamall maður og virðulegur að sjá, til hallar minnar; ljet hann vísa sjer til drottningar, og kvaðst vera frændi hennar; sagðist hann vilja sækja hana heim í ríki hennar. Tók drottning honum vel, og leið eigi á löngu, áður hún unni honum mikils; því að hún hjelt hann vera góðan mann og ágætan, þar eð hann ljezt vera ljúfmenni hið mesta og fullkominn í dyggðum. En hann var raunar töframaður hinn versti, er vildi ráða mig frá ríkjum; enda hafði hann og notað tímann allkænlega, er eg var ekki heima, og gat því ekki að gjört. Bar þá svo við einhvern dag, að drottningu langaði til að vita, hvar eg væri, og hvort mjer gengi vel ferðin. Gekk töframaður þá á burtu, en kom aptur að vörmu spori, með töfraskuggsjá, er sýndi mönnum allt það, er menn vildu sjá; beiddi hann nú drottningu, að nefna það, er hún vildi sjá í skuggsjánni. En drottning hikaði sjer ekki, þar sem hana grunaði eigi hið minnsta; hlýddi skuggsjáin orðum hennar, og sýndi henni mig, þar sem eg hleypti á fríðum fáki um fagra völlu, og var glaður og ánægður að sjá. Varð drottning fegin mjög, og vildi sjá enn meira; og þar kom um síðir, að henni þótti svo mikið til skuggsjár þessarar koma, að hún vildi kaupa hana að töframanninum. En þannig hafði hann náð ætlan sinni, og mælti hann þá: drottning, skuggsjá þessa má eg eigi selja þjer, því þó að eg fargaði henni, þá mundi hún hverfa til mín aptur, enda þó þú læstir

hana niður, eður geymdir hana í lokuðu virki; en á því áttú ráð sjálf, hvort þú vilt búa til slíka skuggsjá, sem þessi er; skal eg kenna þjer þær listir, er til þess þurfa. Ljet drottning sjer þetta vel líka, og gjörðist töframaðurinn nú kennari hennar; lærði hann henni allskonar vjelar og töfra-listir, og veitti henni jafn mikinn mátt, og sjálfur hafði hann; en hitt leyndist drottningu, að upp frá þeirrí stundu virtust henni allir hlutir auðvirðilegir og viðbjóðslegir, nema þeir væri töfravjelar einar. Kom svo um síðir, að skap hennar breyttist; því hóglyndi hennar gjörðist frekja ein, og gæzka hennar varð að illsku; og þar sem hún hafði áður verið mild og ástrík kona, þá gjörðist hún nú ráðrík og harðúðug, sem flagð. Þegar eg var kominn heim, var allt um seinan, og leið ekki á löngu, áður eg sæi glögglega, að öll sú ást, er drottningin hafði áður til mín borið, var upprætt úr hjarta hennar; því að hún mátti eigi líta mig augum, nema með reiði og viðbjóði. Gramdist mjer þetta mjög, og sá eg það brátt, að töframaðurinn olli því öllu.

Einhvern dag ljet eg kalla drottningu fyrir mig, og kom hún þegar, og var þungbúin að sjá; en eg gekk á móti henni, og bað hana með mörgum fögrum orðum og innilegum, að hún ljeti hinn illa mann frá sjer fara, því að hann væri orsök til þess, að eg hefði misst ástar hennar. En orð mín komu fyrir ekki, og ljet hún ekkert á sjer festa, sá eg brátt, að eigi tjáði að fara bónarveg; fór eg þá að henni mörgum hörðum orðum, og hótaði henni dauða, ef hún eigi hlýðnaðist boði mínu. Var þá sem hún hræddist, og lofaði hún þá öllu fögru, og sýndist

verða auðsveip og hlýðin. Sá eg nú töframanninn ekki lengur, og þóttist eg hafa unnið sigur. Einhverju sinni, að álíðanda degi, lagðist eg á legubekk einn, til að blunda, og bauð tveim þjónum að halda flugunum frá mjer með veifum. Að stundu liðinni heyrði eg, að þjónarnir tóku til að ræða saman; því þeir hafa að líkindum haldið, að eg svæfi. Sagði þá annar hljóðlega: ef konungur vor vissi, hvernig drottning svíkur hann! á hverju kvöldi gefur hún honum svefndrykk, svo að hann ekki vaknar fyr, en morguninn eptir; en hún rís upp úr rekkjunni, og gengur að laufskála einum, þar sem hún hefir falið töframanninn, og lætur hún hann kenna sjer illar töfraveljar. Þá mælti hinn: já, satt segir þú, en hver heldur þú, að muni voga sjer til, að segja konungi frá slíku athæfi; þeim mundi drottning refsa harðlega. Þögnuðu þjónarnir síðan, en eg varð með öllu frá mjer numinn af ótta, út af þessari óvæntu fregn; en eg lá kyrr, og ljet, sem eg einkis hefði var orðið. Ljet eg síðan, að nokkurri stundu liðinni, sem eg vaknaði, og ljet þjónana ganga á burtu. Var eg þá í svo reiðu skapi, að eg ásetti mjer fastlega, að vega töframanninn, en setja drottningu í díblissu svo djúpa, að hún eigi framar sæi stjörnuljós eður sólarljóma.

Ljet eg nú ekkert bera á þessu áformi mínu, og beið eg, þar til er nótt var komin. Þá gekk eg inn í svefnherbergi mitt, til hvílu. Kom þá drottning, eins og vandi hennar var til, og færði mjer kvölddrykk minn; var hún hýr í bragði, og skoraði á mig að drekka. Tók eg við bikarnum, og setti á munn mjer, til þess að gabba hana; en reyndar

hellti eg drykknum niður hjá mjer; fjekk eg drottningu síðan bikarinn tóman, og lagðist út af, ljet eg, sem eg sofnaði þegar. Grunaði drottningu alls ekki, og leit hún á mig með hæðnissvip, og mælti: það vildi eg, að þú risir aldrei upp aptur. Með þessari ástríku bæn þokaðist hún út úr herberginu; en eg reis skjótlega upp, klæddist, tók sverð, og skundaði sem hraðast á eptir henni; náði eg henni brátt. Hún gekk í gegnum hallargarðinn; en allar hurðir opnuðust hljóðlega fyrir töfraorðum hennar. Gekk hún svo áfram, og leit ekki aptur; en eg fór á eptir henni, unz hún kom að laufskálanum. Barði hún þrjú högg á dyr, en hurðin laukst upp, og töframaðurinn gekk út á móti henni. En eg bærði enn ekki á mjer, því að eg vildi fyrst fá að vita, hvort þjónarnir hefðu haft satt að mæla. Gengu þau nú bæði að lundi einum; en eg gekk hinumegin við lundinn, og það svo nærri þeim, að eg heyrði hvert orð, er þau töluðu; en þau sáu mig ekki. Heyrði eg þá, að töframaðurinn fyrst kenndi drottningu ýmsar töfravjelar og leynda galdra; en síðan reyndi hann til, að fá hana til að drepa mig, en hefja sjálfan sig til ríkis; ljet drottning bráðlega undan, og lofaði því, er hann mæltist til. Mátti eg þá eigi lengur standast slíka óhæfu, heldur stökk eg fram, brá sverði, og klauf töframanninn í herðar niður. Þreif eg síðan til drottningar, og ætlaði að draga hana á burtu þaðan; valdi eg henni mörg hörð orð. En hún tautaði eitthvað fyrir munni sjer, og gjörði nokkur merki í lopti með staf nokkrum litlum, er hún hjelt á; — og allt í einu var borg mín horfin, og allir menn mínir; en þar, sem borgin áður stóð, ólgaði vatn eitt mikið, og

fólkið umbreyttist, og varð að fiskum, þannig, að dýrkendur *Mahómets* voru hvítir að lit, *Persar* rauðir, *Kristnir* menn bláir, en *Gyðingar* gulir. Og á samri stundu varð eg samgróinn þessum konungsstóli, og gat eigi flúið; því að frá mjöðmum niður breyttist líkami minn í svartan marmarastein. Var eg þó engu að síður hamslaus í huga, og gladdist þá enn yfir því, að eg hafði vegið töframanninn, þann er var orsök allra kvala minna. Mundi það og hafa riðið honum að fullu, ef að drottning ekki hefði snúið honum frá dauða með fjölkynngi sinni; er hann nú raknaður við, og lifir lífi því, er ekki er líf lifenda, eða dauði dauðra; liggur hann hreifingarlaus og máttlaus, og má eigi orð mæla; en blóð rennur í æðum hans, og anda dregur hann nokkurn; er það nokkurs konar gjörningalíf.

Á degi hverjum kemur drottning, með svipu, flettir mig klæðum, og hýðir mig svo hræðilega og grimmdarlega, að blóð rennur um allan líkam minn, og er allt bak mitt eitt flatsæri; kemst hún ekkert við af kveini mínu, því að hún lætur, sem hún heyri eigi; og er hún hefur kvalið mig, og glaðst yfir eymdum mínum, þá breiðir hún konunglega purpuraskikkju á herðar mjer, og setur kórónu á höfuð mjer, mjer til smánar; síðan fer hún aptur, til meistara síns, og eyðir tímanum á ýmsan hátt með hinum illa manni. Hefur hún með fjölkynngi sinni reist dýrðlega höll í aldinreitinum, og liggur töframaðurinn þar, mitt á milli lífs og dauða. En eg má eigi leystur verða, fyr en hann og drottningin eru af dögum ráðin.

Þannig lauk hinn ungi konungur frásögu sinni.

Hafði keisarinn tekið vel eptir öllu, og mælti: þú hinn ógæfusami konungur, líf mitt vil eg gefa til þess, að þú megir frelsaður verða; hefi eg þegar hugsað upp ráð nokkurt til þess. Þá er drottning kemur hingað, til þess að kvelja þig, mun eg fara út í aldinreitinn, og veita töframanninum bana að fullu. Að því búnu mun eg leggjast á hvíluna, og snúa að þili upp, svo að drottning eigi beri kennsl á mig, er hún kemur aptur, heldur trúi því, að eg sje töframaðururinn. Hygg eg, að hitt annað muni vel fara; og mun eg nota mjer allt, er eg sje, að byrjunin tekst vel. Gladdist konungur nú við þessi orð, og vonaðist eptir, að allt mundi vel takast, og að kvalir sínar mundu loks enda. Leið nú ekki á löngu, áður drottning heyrðist koma; greip þá keisarinn sverð sitt, flýtti sjer út í aldinreitinn, og heyrði hann álengdar kvein og hljóð konungsins; varð hann af því óttasleginn. Sá hann nú höll þá, er töframaðurinn var í, gekk keisarinn að honum, og rak hann þegar í gegn, svo að í beði stóð, og fjekk hinn illi maður þar bana. Tók keisarinn þá líkið úr hvílunni, og dró það að gröf nokkurri; þar dysjaði hann líkið, og huldi moldu. Lagðist hann þá sjálfur á hvíluna, og snjeri höfði að þili, svo að eigi mátti þekkja hann, og breiddi vel ofan á sig. Beið hann þannig drottningar, og hafði sverð sitt hjá sjer. Að stundu liðinni kom drottning, og gekk að hvílunni; átti hún ekki von á öðru, en að hitta meistara sinn, er þá hafði snúist við, svo að andlit hans vissi að þili upp. Frjetti hún hann harmþrungin, hvernig honum heilsaðist, og bjóst eigi við að fá svar. En keisarinn breytti röddu sinni, og mælti í hálfum hljóðum,

að sjer liði mjög illa, og mundi sjer eigi ljetta, fyr en það töfraafl væri á burtu numið, er sett hefði konung í álögur. Varð drottningin nú frá sjer numin af gleði, er hún heyrði að meistari hennar hafði fengið málið; hann, sem hún áleit, að væri hinn bezti vinur sinn; sagði hún þá: ástríki og innilegi meistari, kvein þess hins auma konungs skal ekki lengur trufla og hindra rósemi þína; skal eg þegar leysa hann úr álögunum. Skundaði hún síðan til konungsins, þar sem hann var í álögum, snerti hann með sprota sínum, og stökkti á hann vatni; hún mælti um leið: maður, sjertu fæddur með þeirri mynd, sem nú hefir þú, þá vertú eins og þú ert; en ef svo er eigi, þá vertú eins og þú varst. Þá leystist konungurinn úr álögunum, og marmaralíkneskið varð hold og blóð; kenndi hann sjer og einkis meins. En drottning bauð honum að fara úr höllinni, og snúa aldrei aptur. Konungur ljezt hlýða henni, en leyndist á meðal runna nokkurra í aldinreitinum, til að vita, hvernig keisaranum reiddi af. Snjeri drottning nú aptur til þess, er hún hjelt að væri meistari sinn, og mælti: ágæti meistari, nú er boð þitt framkvæmt, og konungurinn leystur, ertú nú ánægður? En keisarinn ljet sjer ekki nægja enn, og mælti hann við drottningu: drottning, eg kann þjer miklar þakkir fyrir þetta merki vináttu þinnar, og er mjer nú ljettara, en viljir þú sjá mig alheilan, þá hlýtur þú að leysa allt ríki hinna svörtu eyja úr álögunum, og setja alla hluti aptur í samt lag. Varð drottning nú glöð mjög, klappaði fæti sínum á jörðuna, og tautaði nokkur töfraorð; og sjá, að vörmu spori var vatnið með fjöllunum horfið, borgin stóð

þar, sem hún áður hafði verið, og náði út fyrir höllina, fiskarnir breyttust í þá menn, er heima áttu í borginni, og gengu þeir að störfum sínum, eins og ekkert hefði við borið. Tók keisarinn vel eptir öllu þessu, og er hann sá, að álögin voru á enda, greip hann sverð sitt, stökk upp úr hvílunni, og áður en drottning fjekk áttað sig, lá hún á jörðu, klofin í herðar niður. Gladdist keisarinn nú harla mjög, því að hann hafði bundið enda á heit sitt; hljóp hann með gleðiópi til konungs, og föðmuðust þeir innilega. Gengu þeir síðan til hallarinnar; en hún var full af þjónum, hermönnum og ýmsu fólki, eins og áður, og hjeldu menn áfram störfum sínum. Þá mælti keisarinn við konung: ágæti vinur, nú er mál komið, að eg snúi aptur heim á leið, því að menn mínir halda, að eg sje sjúkur, og munu þeir vera angurværir; mun eg koma til yðar aptur á morgun, og frjetta um hagi yðar og heilsu. En konungur hló, og mælti: keisari, hversu langt haldið þjer, að sje hjeðan, og heim í ríki yðvart? Kvaðst keisari halda, að það væru fimm eður sex mílur; en konungi setti hlátur enn meiri; sagði hann loksins keisara, að hann mundi varla komast heim á heilu ári. Því að stuttleiki vegarins hvarf með álögunum. Varð keisarinn við þetta angurvær, og mælti við konung, að hann væri hræddur um ráðgjafann og menn sína, er hann hafði skilið við á bökkum töfravatnsins. Þá mælti konungur: ef þjer hafið skilið við þá þar, þá hljóta þeir að vera fyrir utan borgina; sendi hann þá þjóna, er fundu ráðgjafann, og menn keisarans, í tjöldunum; komu nú allir inn í borgina. Varð nú fagnafundur mikill, er þeir hittu aptur keisarann, og

var þó ráðgjafinn einna fegnastur, því að hann var mjög hræddur orðinn. Ljet konungur nú stofna til veizlu mikillar, og bauð keisara, og öllum mönnum hans; var setið að veizlunni í heila viku, með mikilli gleði og skemmtan.

En er veizlunni var lokið, tjáði ekki lengur að tefja fyrir keisaranum. Ljet konungur þá búa út hundrað eyki, og klyfja með skíru gulli, silfri og gimsteinum; síðan ljet hann átta tigi þúsundir manna hertýgjast; og sem allt var til búið, mælti hann við keisarann: keisari, þjer hafi frelsað mig úr eymdum miklum og kvölum, og mun því eigi sæma, að þjer farið á brottu, án þess eg sýni yður lítinn vott þakklætis míns og ástar til yðar. Vil eg að þjer þiggið þessa tíu tigi eykja, og leyfið, að eg fylgi yður með mönnum mínum til ríkis yðvars.. Gladdist keisarinn mjög yfir þakklátsemi og vináttu konungsins, og tók við gjöfunum. Lögðu menn nú á stað, og liðu margir dagar, áður þeir næði ríki keisarans; kvaddi konungur keisarann á landamærum, og hjet honum, að hann skyldi heimsækja hann að fimm árum liðnum, og dvelja hjá honum árlangt. Skildust þeir með tárum. En konungur efndi heit sitt, og kom til keisarans að fimm árum liðnum, og dvaldi eitt ár hjá honum, í gleði og yfirlæti.

En sem keisari kom til borgar sinnar, komu allir á móti honum, og heilsuðu honum með gleði mikilli; ljet hann útbýta gjöfum til fátækra manna, og stjórnaði viturlega, og unni þjóðin honum hugástum, sem áður. En fiskimanninn fátæka ljet hann sækja, og veitti honum svo mikið fje, að hann varð stórauðugur maður; og lýkur svo þessari sögu.

# Parisade.

Konungur nokkur ríkti yfir *Persalandi*; sá hjet *Kosrú Sjak;* hann hafði einkar mikið gaman af, að ganga úti á kvöldum. Opt klæddist hann dularbúningi, og gekk ásamt með trúum þjóni um stræti borgar sinnar, og bar þá fyrir hann margt undarlegt á stundum.

Konungur þessi var nýkominn til ríkis, þegar saga þessi gjörðist; en faðir hans dáinn í elli sinni, ekki alls fyrir löngu. Þá bar svo við eitthvert kvöld, að konungur gekk í dularbúningi um borgarstrætin, ásamt með æðsta ráðgjafa sínum. Komu þeir að húsi einu, er lá í þeim hluta borgarinnar, er byggður var af óæðri mönnum; og heyrðu þeir, að hátt var talað í húsinu. Þeir gengu nær, gægðust inn um rifu, er á var hurðinni, og sáu borð í húsinu, og ljós á; en umhverfis borðið sátu þrjár systur, og töluðust við. Heyrðu þeir nú brátt, hvað þær ræddu um; en það voru óskir. Þá mælti hin elzta systirin: þess æski eg mjer, að bakari konungsins yrði bóndi minn; því að þá mundi eg allt af hafa nóg að eta af dýrindisbrauði; hafið þið betra, er þið megið æskja ykkur? Hin önnur mælti: þá æski eg mjer þess, að eg eignaðist æðsta eldamann konungsins, því að þá mundi eg eigi einungis fá allt hið bezta, er á borð verður borið fyrir konunginn, heldur og einnig brauðið þitt að auki. Hin yngsta systirin var for-

kunnar fögur stúlka, og meiri hinum í alla staði; hún mælti: fyrst eg á nú að óska mjer einshvers hlutar; þá nenni eg ekki að leggja eins lítið fyrir mig, og þið gjörið; því að eg vildi fá sjálfan konunginn fyrir minn bónda; mundi eg veita honum son, þann er hefði hár svo sem gull og silfur; og sem grjeti tárum, þeim er blikuðu, eins og ljómandi gimsteinar; og þegar hann hlær, þá mundu varir hans opnast, eins og fagurrauður rósknappur lykst upp á vordegi.

Þetta heyrði konungurinn; og fannst honum svo mikið um óskirnar, og þó einkum um ósk yngstu systurinnar, að hann ásetti sjer, að láta þeim öllum verða framgengt. Ekki sagði hann samt ráðgjafanum frá ætlan sinni; en hann bauð honum, að láta allar systurnar koma fyrir sig morguninn eptir.

Morguninn eptir fór ráðgjafinn til hússins, og sagði systrunum boð konungsins, og það svo skyndilega, að þær höfðu varla tíma til, að hafa fataskipti. Sagði hann þeim eigi annað, en að konungur vildi fá að sjá þær. Og er þær komu fyrir hásætið, þá mælti konungur: munið þjer eptir því, er þjer óskuðuð í gærkveldi? Segið mjer það.

En systrunum varð bilt við ræðu konungsins; þær þorðu eigi að líta upp; en yngsta systirin kafroðnaði, og varð þá svo fögur, að konungur þegar fjekk brennandi ást til hennar. Sem nú konungur sá, að þær eigi dirfðust að mæla orð fyrir feimni, þá leitaðist hann við, að hughreysta þær, og mælti: óttist eigi, því að eg hefi eigi látið sækja yður til þess, að vinna yður mein; má eg vel sjá það, að spurning mín hefur gert yður óttaslegnar, en eg veit, hverra

hluta þjer hafið óskað yður. Þú, er vildir verða drottning mín, þú skalt verða það, og þið hinar skuluð fá þá bændur, er þjer æsktuð eptir í gær.

Þegar konungurinn hafði mælt þessi orð, varpaði hin yngsta systirin sjer til jarðar,og þakkaði honum með mörgum fögrum orðum fyrir þá náð, er konungur veitti henni. Hún mælti: herra, þá ósk, er þú þegar þekkir, hefi eg að eins mælt af munni fram, til þess, að segja eitthvað, eins og hinar systur mínar; en eg er eigi makleg þess heiðurs, að vera drottning þín, og bið eg þig fyrirgefningar á dirfsku minni, er eg ljet mjer slíka ósk um munn fara. Hinar systurnar vildu og afsaka sig, en konungur tók þar fram í, og mælti: nei, nei, óskunum skal nú þegar framgengt verða.

Nú voru haldin brullaup, þrjú á sama degi, því að svo hafði konungurinn boðið; en brullaupin fóru fram á ólíkan hátt. Yngsta systirin giptist konunginum, *Kosrú Sjak;* og var þar við höfð öll dýrð og glaumur, og allt ágæti, það er konunglegri tign sæmdi. En brullaup beggja hinna systranna fóru fram á þann hátt, er samboðinn var stöðu bænda þeirra, og voru eigi dýrðleg.

Báðar hinar eldri systurnar fundu nú, hversu mikið djúp var staðfest á milli þeirra, og yngstu systurinnar; sveið þeim þetta sárara, en frá megi segja. Þessa vegna voru þær engan veginn ánægðar með þá gæfu, er þeim hafði hlotnast einmitt eptir ósk þeirra, án þess þær hefðu nokkurn hlut fyrir að ná henni; fylltust þær nú illrar öfundar, er eyddi ánægju þeirra; og hugsuðu þær ekki um neitt annað, en það, að koma yngstu systur sinni í ógæfu og

eymd. Höfðu þær eigi enn haft tíma til, að tala sig saman um þenna hlut, þar eð þær hlutu að búa sig undir brullaup sitt. En nokkrum dögum eptir hittust þær í laugarhúsi; þá mælti elzta systirin: hversu lízt þjer á, um yngstu systur okkar? Það er falleg drottning! Hin mælti: það hlýt eg að játa, að eg skil ekkert í þeim hlut, og má eg eigi sjá, hversu á því getur staðið, að konunginum þykir hún svo fögur, að hún með öllu blindar augu hans. Það getur þó varla verið, að konungur hafi tekið hana fram yfir þig fyrir það, að hún er dálítið yngri? Þú hefðir átt að komast í konungssængina; og svo rjettsýnn hefði konungur átt að vera, að taka þig sjer til drottningar. Það læt eg nú vera, mælti hin systirin; það hefði eg látið mjer vel líka, ef konungurinn hefði átt þig; en það fellur mjer illa, að hann skuli hafa kosið sjer slíkt skrípi, sem yngsta systir okkar er. En við skulum hefna okkar, og virðist mjer, að þig varða það jafn miklu, og mig. Eg bið þig, systir góð, vertú mjer samtaka; skulum við báðar gjöra allt, það er við megum, þar sem við erum sem einn maður í þessu máli; muntú því segja mjer allt það, er þjer dettur í hug, til þess að við megum gjöra henni nokkura smán; en eg mun einnig segja þjer frá því, er mjer dettur í hug, svo að ætlan okkar megi framgang fá.

Eptir þessa viðræðu hittust báðar systurnar optsinnis, og ræddu í hvert sinn um það, á hvorn hátt þær mundu fá hrundið eður eytt gæfu drottningarinnar, systur þeirra. Rjeðu þær margt af, en allt var annað hvort svo djarflegt, eður óhaganlegt, að þær aldrei máttu fá færi á, að koma því fram. Samt sem

áður heimsóttu þær systur sína, og ljetuzt vilja auðsýna henni vináttumerki á allan hátt, og þóttust harla glaðar yfir tign hennar. En drottningin var aptur á móti eins vingjarnleg og ástrík við þær, og þær gátu ætlast til af systur sinni, þeirri er eigi varð drambsöm af tign sinni, og sem unni þeim hugástum.

Nokkurum tíma eptir varð drottning þess vör, að hún fór eigi ein saman; varð konungur harla glaður yfir því, og spurðist nú fregn þessi þegar um alla höllina, og þaðan um alla höfuðborgina. Komu systurnar nú til drottningar, til þess, að láta gleði sína í ljósi, og beiddust þess, að þar sem hún nú þyrfti ljósmóður við, að hún þá vildi taka sig fyrir ljósmóður, þá er hún skyldi ljettari verða. Drottningin svaraði þeim, og mælti: Það megið þið skilja, að mjer muni vera þessi hlutur til mikillar gleði, ef eg mætti ein ráða. Kann eg ykkur miklar þakkir fyrir boð ykkart, en þessum hlut ræður konungurinn. En talið við menn ykkar, að þeir megi beiðast þessarar náðar af konunginum, og megið þið vera þess fullvissar, að eg æski einkis fremur, en að styðja mál ykkar, þá er konungur talar við mig um þetta.

Nú gengu báðir bændur systra þessara til hirðmanna þeirra, er þeim voru hliðhollir, og beiddust að þeir legði til við konunginn, að heiður sá, er konur þeirra sóttust eptir, mætti veitast þeim. Gengu hirðmennirnir nú svo öfluglega fram í máli þessu, að konungur hjet því, að taka bænir þeirra til nokkurrar greinar. Talaði hann og um þenna hlut við drottningu, og mælti, að sjer virtist, að báðar systur hennar ættu fremur að vera við á fæðingartímanum, en ókunn ljósmóðir; en beiddi hana samt

að ráða, svo sem hún vildi. Drottningin fann þá virðingu, er konungur sýndi henni svo fagurlega, hún mælti: herra, eg hafði ásett mjer, að hlýða boði yðru í þessu máli; en þar sem þjer nú veitið systrum mínum þá náð, að hugsa til þeirra, þá kann eg yður miklar þakkir fyrir það, og vil eg víst fremur, að þær sjeu hjá mjer, en nokkurar aðrar.

Svo fór um þetta mál, að konungur leyfði báðum systrunum, að sitja yfir drottningunni; og var þeim nú leyft, að ganga út og inn um konungshöllina, eins og þær vildu. Voru þær nú glaðari, en frá megi segja, er þeim bauðst þannig tækifæri til þess, að framkvæma hinn illa ásetning sinn.

Nú kom þar að, að drottningin varð ljettari, og ól hún sveinbarn; fagurt var það sem dagur ljómandi. En hinar harðúðgu systur ljetu hvorki fegurð þess nje veikleika á sig fá; heldur vöfðu þær það í dulur, lögðu það í körf eina, og ljetu út á á nokkura, er rann í gegnum höllina. En í stað barnsins tóku þær dauðan hvolp, og sögðu, að drottningin hefði alið hann. Varð konungur ákaflega reiður, og mundi það hafa komið hart niður á drottningu, ef að æðsti ráðgjafi konungs eigi hefði sýnt honum fram á það, að heimskulegt væri, að reiðast yfir leikbrögðum náttúrunnar.

En körfin flaut á ánni, og bar hana út um vindauga, er á var hallargarðinum, og var hún þegar horfin. Svo vildi til, að garðastjóri konungs, sá er var einn hinna æðstu embættismanna ríkisins, var að ganga sjer til skemmtunar í aldingarðinum, þar sem áin rann í gegnum. Varð hann var við körfina, er flaut á ánni, og mælti við þjón, er þar stóð, að hann skyldi ná körfinni. Þjónninn fór þegar á stað með stöng,

krakaði í körfina, og náði í hana. Undraðist garðastjórinn eigi alllítið, er hann sá barnið í körfinni, og það forkunnar fagurt, enda þó það væri nýlega alið. Var garðastjórinn giptur, en hafði engin börn getið, því að drottinn hafði eigi heyrt bænir hans. Hætti hann nú skemmtigöngunni, og bauð þjóninum að fylgja sjer eptir með körfina; gengu þeir nú inn í hús garðastjórans. Kona góð, mælti hann, okkur hefur hingað til eigi orðið barna auðið; nú gefur guð okkur eitt barn; eg fel það þjer á hendur, skaltu nú þegar fá því fóstru, og munum við hjeðan af álíta það okkar eign. Tók konan glaðlega við barninu, og þótti vænt um. Ekki vildi garðastjórinn grennslast eptir, hvaðan barnið væri; sje eg vel, að það kemur úr konungshöllinni, en um það ber mjer eigi að spyrja, hvað þar fari fram, er friður á að vera, en eigi ófriður; þannig fórust honum orð.

Ári eptir ól drottningin aptur sveinbarn, og fóru systurnar með það á sömu leið; þær ljetu það í körf, út á ána, og sögðu, að drottning hefði alið ketling. Það vildi aptur til, að garðastjórinn fann einnig þetta barn, og fór hann þegar með það til konu sinnar; bauð hann henni að annast það eigi síður, en hinn fyrra sveininn; en kona hans gjörði svo, bæði sjálfs sín vegna, og bónda síns.

Reiddist Persakonungur enn meira út af þessum burði, en hinum fyrra, og mundi hann eigi hafa sefað reiði sína, ef að æðsti ráðgjafi hans eigi hefði aptrað honum, eins og áður.

Loksins varð drottning ljettari í þriðja sinn, og ól hún þá meybarn. En barnunginn varð fyrir hinu sama, sem bræður hennar; því að báðar systur drottn-

ingarinnar höfðu fastlega ásett sjer, að hætta eigi fyr, en þær hefðu því til leiðar komið, að yngsta systir þeirra yrði á burtu rekin úr konungshöllinni, og smánuð á einhvern hátt. Settu þær nú meybarnið út á ána. En garðastjórinn frelsaði það af gæzku sinni og mannást; og ólust nú öll systkynin upp í húsi hans.

En báðar systurnar spunnu upp hraklega lygi; sögðu þær þá, að drottning hefði alið trjekubb nokkurn, er þær sýndu af mikilli ósvífni.

Nú mátti konungurinn, *Kosrú Sjak,* eigi lengur standast slíka óhæfu. Fylltist hugur hans grimmd og reiði, og hann hrópaði: ef eg ljeti þessa ófreskju lengur lifa, þá mundi hún fylla höll mína með skrímslum einum; en slíkt skal nú eigi við gangast; eg mun gjöra þá landhreinsun, að láta drepa kvennskratta þenna. Síðan dæmdi hann drottningu til dauða, og bauð æðsta ráðgjafa sínum, að láta þegar fullnægja dóminum.

En ráðgjafinn varpaði sjer fyrir fætur konunginum, og svo gjörðu allir þeir, er við voru staddir; grátbændu þeir hann allir um, að taka aptur dóminn. Ráðgjafinn mælti: herra, leyfa muntú þjóni þínum, að minna þig á það, að lög vor, þau er ákveða dauða- hegningu, eigi bjóða slíkt, nema fyrir glæpa sakir. En það, er fram er komið við drottningu, er eigi glæpur; hversu megum vjer kenna henni um slíkt? Hún er aumkunarverð, en eigi hegningarverð. Herra, heldur munuð þjer reka hana frá augliti yðru, en láta drepa hana; sú gremja, er hún hlýtur að finna, út af missi náðar yðvarrar og ástar, mun hegna henni nægilega.

Við þessi orð ráðgjafans hugsaði konungur sig um; sá hann og brátt, að það var eigi rjett, að dæma drottningu til dauða fyrir þessa sök; enda þó að það, er upp á hana var logið, hefði komið fram við hana í raun og veru. Konungurinn, er trúði lygunum, en var leyndur sannleikanum, mælti þá: lifi hún þá, en það segi eg, að hún skal lifa því lífi, er verra sje, en dauði; því að herbergi skal gjöra henni, við dyrnar á höfuðkyrkju borgarinnar; og skal þar allt af opinn gluggi vera, hversu sem viðrar; þar skal hún vera klædd hinum grófustu voðum, og sjerhver rjetttrúaður maður, sá er til bænar gengur, skal hrækja í andlit henni. Hver sá, er það gjörir eigi, skal hafa óvináttu mína, og sömu hegningu líða; og til þess, að boði mínu verði fullnægja gjörð, þá skaltú, ráðgjafi, setja þar varðmenn.

Hin reiðuglega rödd konungsins læsti munni ráðgjafans. Urðu nú systur drottningarinnar allfegnar, er byggður var klefi við kyrkjudyrnar, og drottningin látin þar inn í; stóð hún þar nú til háðungar og smánar. En hún bar ógæfu sína með svo miklu þoli og hugarró, að allir þeir undruðust, er vit höfðu á.

Leið nú svo um hríð, að báðir sveinarnir og mærin ólust upp hjá garðastjóranum, svo sem væru þau hans eigin börn. Og er þau eltust, þá fannst hjá þeim tign sú, er enginn mátti á móti standa; en fegurð mærinnar óx dag frá degi; öll voru þau námfús og harla skír, og eigi gáfu þau sig að leikfangi, svo sem börnum er tamt; og nokkuð var með þeim í framgöngu þeirra konunglegt og háleitt. Voru þeim nöfn gefin, og hjetu sveinarnir: *Baman* hinn eldri, en *Pervis* hinn yngri, mærin hjet *Parisade*;

voru öll nöfn þessi gömul konunganöfn og drottninganöfn, þeirra er Persalandi höfðu fyrrum ráðið.

Sem nú börnin voru stálpuð orðin, voru þeim fengnir meistarar, og tóku þau miklum framförum á skammri stundu í öllum listum og menntum; lærðu þau öll hið sama, og voru engin vísindi, er þau eigi fengi numið; undruðust meistararnir mikillega skarpleika barnanna, og skildu þeir, að þau mundu þegar yfirstíga sjálfa þá. Á stundum sat mærin við hljóðfæraslátt og söng. Og er sveinarnir riðu út á skóg, þá reið hún með þeim, og skaut af boga og sendi spjóti eigi síður en þeir; en á skeiði var hún optsinnis skjótari.

Garðastjóranum fjekk það stórmikillar gleði, er hann sá, hversu uppheldisbörnum sínum fór fram á allar lundir; ásetti hann sjer því, að verja enn meiru fje þeim til handa, en hann hafði þegar gjört. Enda þótt hann væri auðugur að fje, þá hafði hann allt af látið sjer nægja hús það, er hann átti í konungsgarðinum. En nú ljet hann rífa það, og keypti land mikið, með mörkum, skógum og engjum, þar ljet hann reisa dýrðlega höll, og var hún búin á skömmum tíma. Síðan ljet hann búa til fagran aldingarð, og var mörk fyrir utan; þar gátu sveinarnir og mærin farið á dýraveiðar, hvenær er þau vildu.

En er allt þetta var um garð gengið, þá gekk garðastjórinn fyrir konunginn, varpaði sjer fyrir fætur honum, og leiddi honum fyrir sjónir, hversu lengi hann hefði í hans þjónustu verið. Beiddi hann konung lausnar frá embætti sínu, og leyfis, að hann mætti lifa í ró og friði, það er hann ætti eptir æfinnar. Var konungurinn fús á, að veita honum bæn

hans, þar sem hann hafði þjónað dyggilega og vel embætti sínu; og að endingu spurði konungur, hvort hann hefði nokkura aðra bæn. Þá mælti garðastjórinn: herra, svo mikillega hefur þú og faðir þinn unnað mjer, og veitt mjer svo mikla náð, að eg veit engan þann hlut, er eg gæti mjer óskað, nema það, að njóta náðar þinnar og vináttu, þar til er augu mín lykjast aptur fyrir svefni dauðans. Síðan kvaddi hann *Kosrú Sjak* konung, og fór með *Baman*, *Pervis* og *Parisade* til nýja hússins. Var kona hans önduð fyrir nokkrum árum. En eptir að hjerum bil hálft ár var liðið, frá því er hann kom til hallar sinnar með börnunum, þá dó hann svo snögglega, að honum gafst eigi tími til, að segja þeim frá ætterni þeirra.

Börnin vissu ekki annað, en að garðastjórinn væri faðir sinn, og hörmuðu þau dauða hans eins sárlega, og börnum ber að harma andaðan föður. Þau voru ánægð með það, er hann hafði eptirlátið þeim, og lifðu þau í friði og samlyndi; fóru sveinarnir aldrei til hirðarinnar, enda þó þeim hefði verið hægt að ná æðstu metorðum, fyrir sakir menntunar þeirra og atgjörvis.

Einhvern dag bar svo við, þá er báðir bræðurnir voru á dýraveiðum, að gömul kona kom að hallardyrunum, og beiddist húsaskjóls, til þess að gjöra bæn sína; en þá var bænatími kominn. Var *Parisade* sagt frá bæn konunnar, og bauð mærin þegar, að vísa henni til bænahúss þess, er garðastjórinn hafði látið byggja við höllina, þar sem engin kyrkja var nokkursstaðar í nánd. Mærin bauð einnig, að sýna konunni allar byggingarnar og aldingarðinn, er hún hefði gjört bæn sína.

Gamla konan gekk nú inn í bænahúsið, og gjörði bæn sína, og er hún var búin, buðust tvær þjónustumeyjar *Parisades* til, að sýna henni garðinn og húsið; og er hún þekktist það, þá sýndu þær henni allt, bæði utan og innan, og þótti henni mikið til koma; sást það og, að hún hafði vel vit á slíkum hlutum. Einnig þótti henni harla mikið varið í aldingarðinn, og mælti hún, að sá mundi mikill meistari verið hafa, er þann garð hefði til búið. Loksins var hún leidd fyrir sjálfa *Parisade*, og var hún fegurst og dýrðlegust af öllu því, er þar var.

Þegar mærin sá konuna, þá mælti hún: kom þú hingað, gamla kona, og set þig hjá mjer; því að eg gleðst mikillega yfir því, að mjer einu sinni hlotnast að hitta svo guðrækna konu, sem þú ert, og sjá fyrir mjer dæmi hennar; því að í slíkra manna fótspor ætti allur heimurinn að feta. En konan vildi eigi setjast niður á sætið hjá mærinni, heldur settist hún á hornið á stólnum; en *Parisade* stóð upp, og knúði hana til þess, að setjast niður hjá sjer. Þá mælti konan: ágæta mær, svo mikinn heiður verðskulda eg eigi; og hlýði eg boði þínu, þar eð þú átt hjer húsum að ráða. Var nú sett fram lítið borð úr ebenviði og pödduskel, en á borðinu var skál, með gómsætum kökum á, og aðrar skálar í kring, með fögrum ávöxtum. Mærin tók eina af kökunum, og rjetti konunni, og mælti: neytið þjer þessa matar, kona góð, og smakkið á ávöxtunum, því að þjer þurfið fæðu eptir hinn langa veg, er þjer hafið gengið. Ágæta mær, svaraði konan, eg hefi eigi vanist slíkum rjettum, en eg vil nú neyta þeirra, af því þjer bjóðið svo, og eruð svo örlát og góð. — Á meðan konan

var að eta, talaði *Parisade* við hana um ýmsa hluti, og svaraði konan öllu með hógværð og greind. Meðal annars spurði mærin hana, hversu henni litist á bústað sinn, og hvort henni líkaði hann vel.

Þá mælti konan: ágæta mær, þá mundi mig mikið vit skorta, ef að eg finndi nokkuð að bústað þínum; því að hann er fagur og hýrlegur og dýrðlegur, og öllu vel fyrir komið; og finnst mjer engu áfátt um skraut og skart; hann liggur og í fögru landi, og engan garð hef eg sjeð, þann er megi jafnast saman við þinn aldinreit. En ef þjer eigi fellur það illa, að eg segi hreint út meiningu mína, þá virðist mjer, sem bústaður þinn yrði með öllu óviðjafnanlegur, ef að þrjá hluti væri enn í honum að finna. Hvað er það, móðir góð, mælti mærin; eg særi þig við nafn guðs hins hæsta, seg mjer þessa hluti, því að eg mun af öllu megni leitast við að ná þeim, ef þess á nokkurn hátt er unnt.

Þá mælti konan: ágæta mær, hinn fyrsti hlutur er talandi fugl, sá er heitir *Búlbúlhesar;* sá fugl hefir þá náttúru, að allir söngfuglar, þeir er í grend búa, safnast utan um hann, til þess að syngja með honum. Hinn annar hlutur er syngjandi eik; á því trje er sjerhvert laufblað tunga og barki í senn, og vekur það með margvíslega hljómandi röddum fagurlega samstilltan söng. En sá hinn þriðji hlutur er ljósgullið vatn; það hefir þá náttúru, að ef menn taka einn dropa þess, og láta í brunn, sem þar til er búinn, þá svellur sá dropi, svo að af honum verður fullur brunnurinn, en það vatn gýs í sífellu upp og niður, eins og vatnsstafur í hver, og rennur þó aldrei út fyrir brunnbarminn.

Þá hrópaði *Parisade;* æ, gamla kona, mikillega þakka eg þjer fyrir það, að þú hefir sagt mjer frá þessum hlutum; eru þeir að vísu undarlegir mjög; og hefi eg aldrei heyrt það, að svo furðulegir og undarlegir hlutir væru til í heimi; en eg vona þess, að þú nú af gæzku þinni nefnir mjer þann stað, er þetta er á að finna, því að þess er eg viss, að þú veizt hvar hann er. Þá mælti konan: ágæta mær, illa mundi eg launa yður gestrisni yðra, ef að eg færðist undan, að segja yður það, er þjer spyrjið mig að; þess vegna vil eg segja yður það, að allir þessir hlutir eru á einum stað; en sá staður er á landamærum, þar sem þetta ríki mætist og *Indíaland,* og liggur vegurinn fram hjá húsi yðru. Leið þessa má ríða á tuttugu dögum; en á tuttugasta degi hljóta menn að spyrjast fyrir, hvar sje að finna fuglinn talanda, eikina syngjandi, og vatnið gjósanda; mun hinn fyrsti, er menn þá hitta, geta leyst úr þeirri spurningu. Að svo mæltu reis konan upp, kvaddi mærina, og fór á burtu.

Svo mikillega hugsaði *Parisade* um það, er konan hafði sagt henni frá, að hún tók eigi eptir því, að hún var komin á burtu, fyr en hún sjálf ætlaði að spyrja konuna ítarlegar um nokkra hluti, er áttu við þetta mál. Því að henni virtist, að konan eigi hefði sagt sjer svo mikið, er hún í rauninni þurfti að vita, ef að henni ættu að geta hlotnast gersemar þessar. Eigi vildi hún samt senda á eptir konunni, heldur rifjaði hún upp fyrir sjer allt það, er hún hafði sagt henni. Og er hún þóttist viss um, að hún mundi muna það allt, þá hugsaði hún um, hversu mikillar gleði hún mundi njóta, er hún hefði fengið

þessa hina furðulegu gripi. En um leið skelfdist hún út af þeim hættum, er menn mundu þurfa að ganga í; og óttaðist, að það mundi eigi takast. Var hún mjög hugsandi, er bræður hennar komu aptur af dýraveiðum; þeir gengu inn í salinn, og undruðust, er systir þeirra var óglöð, og eigi kát og blíð, eins og vant var; því að hún leit eigi upp, heldur horfði í gaupnir sjer, og varð eigi vör við þá.

Þá mælti *Baman,* eldri bróðirinn: systir góð, hví ertú eigi nú sem fyr? hvar er gleði þín og ánægja, er þjer hefur allt af fylgt? ertú sjúk? eður hefur nokkuð íllt komið fram við þig? Seg okkur það, til þess að við megum taka þátt í áhyggju þinni, og fullnægja þjer, eður og hefna fyrir þig, ef nokkur hefur gjört þjer óskunda; þjer, er ber heiður og lotning.

En mærin sat kyr, og svaraði engu; þangað til hún loksins leit upp, og sá bræður sína; en hún hneigði þegar aptur höfuðið, og svaraði þeim, að það væri markleysa ein.

Þá mælti *Baman:* það sje eg, að þú leynir okkur sannleikanum, og þegir yfir nokkuru merkilegu. Það mun eigi vera, að þú hafir orðið hugsandi, og fyllst áhyggju, út af engu, á meðan við höfum á burtu verið, því að það er skammur tími; muntú eigi reiðast, þó að okkur virðist svar þitt ónógt. Viljum við ekki, að þú leynir oss þessum hlut, því að annars hljótum við að trúa því, að þú viljir slíta þeirri vináttu og samlyndi, er hefur sameinað oss, og ríkt með oss, frá því er vjer fyrst munum til.

En mærin vildi með engu móti, að nein þykkja kæmi upp á milli sín og bræðranna; hún mælti þá:

þar sem eg sagði ykkur, að það væri markleysa ein, þá meinti eg það til ykkar, en eigi til mín, því að mál þetta er þó eigi með öllu ómerkilegt. Eg vil segja ykkur frá öllu, sökum þeirra vebanda, er sameina oss öll. Þið haldið, og eg hjelt það og áður, að bústaður vor sje fullkominn á allan hátt, og vanti eigi hið minnsta; en í dag var mjer sagt, að þrjá hluti vantaði, til þess, að hús vort yrði með öllu óviðjafnanlegt. Þessir hlutir eru: talandi fugl, syngjandi eik, og gjósanda vatn. Síðan sagði mærin þeim frá eðli þessara hluta, og mælti: kona nokkur kom hingað, og sagði mjer frá þessu; hún vísaði mjer og á þann stað, er allt þetta hefur að geyma, og sagði mjer leið þangað. Vera má, að ykkur virðist óþarfi einn, að útvega hluti þessa, til þess, að prýða með hús vort, og að bústaður vor sje fagur allt að einu, þó að þá vanti. En mjer lízt allt öðruvísi; því að eg held, að oss varði það miklu, að fá hluti þessa, og fæ eg eigi frið, fyr en eg hefi fengið þá. Vil eg nú heyra ráð ykkar um þetta mál.

Þá mælti *Baman:* ekki er sá hlutur, er þig varðar, en okkur eigi. Því að vísu er það skylda okkar, að útvega þjer þessa hluti, þar sem þú á annað borð girnist þá. Er eg þess fullviss, að bróðir minn vill þetta einnig; og munum vjer nú týgja oss til, svo að vjer hljótum gripina; því að þetta er allt mjög merkilegt. Mun eg takast á hendur förina, en þú seg mjer leiðina, og þann stað, er gripina hefur að geyma; því að þegar á morgun mun eg fara.

Bróðir minn góður, mælti *Pervis,* yngri bróðirinn, það virðist mjer eigi ráðlegt, að þú, sem ert vitrastur og styrkastur vor systkyna, verðir svo lengi á

burtu; eg mun biðja systur mína, að hún leggist á eitt með mjer, til þess að fá þig ofan af áformi þínu. Leyf þú mjer, að eg fari för þessa; mun mjer takast jafn vel og þjer; og það er rjettara, að eg fari, heldur en þú.

*Baman* svaraði honum, og mælti: það efast eg eigi um, að þú munir vera jafn fær til farar þessarar, og sjálfur eg; en nú hefi eg ásett mjer að fara, og muntú eigi aptra mjer. Vertú eptir hjá systur okkar. — Bjó hann sig nú til ferðarinnar, og ljet systur sína segja sjer allt það, er konan hafði henni sagt. Snemma í býti daginn eptir stje *Baman* á hest sinn; en *Pervis* og *Parisade*, er fylgdu honum á leið, föðmuðu hann að skilnaði. En sem *Parisade* faðmaði hann, þá datt henni nokkuð í hug, og mælti hún: bróðir, eg hefi alls ekki hugsað um þær hættur, er fyrir þig munu leggjast á þessari leið. Hver veit, hvert eg nokkuru sinni muni sjá þig aptur? Heldur vil eg fara á mis við gripina, en missa þig.

Þá hló *Baman;* því að mærin varð svo undarlega hrædd í einu vetfangi; hann mælti: ferð mín er nú fastráðin, og muntú eigi aptra mjer hjeðan af. Hættur þær, er þú talar um, leggjast fyrir ógæfusama menn; og vel má vera, að eg sje einn þeirra manna; en það er fullt eins líklegt, að eg sje gæfumaður, því að tala slíkra manna er miklu meiri, en hinna. En fyrir þá sök, að vjer eigi vitum þetta, og að vel má vera, að eg týnist á þessari leið, þá taktú við kníf þessum; skaltu skoða hann á degi hverjum; á meðan hann er fagur og skær, þá mun eg vera alheill; en er þjer sýnist hann blóði drifinn, þá merkir

það, að eg sje dauður; og bið þú þá fyrir sálu minni. Fjekk *Baman* henni þá knífinn.

Síðan kvaddi hann þau, og hjelt á stað. Hann reið í nítján daga, og fór allt af þann veg, er beint lá að *Indíalandi;* en á tuttugasta degi hitti hann kot eitt; var þar karl nokkur gamall og hræðilegur ásýndum. Hann var snjóhvítur fyrir hærum; og náðu augabrár hans allt fram á nefbroddinn; varaskegg huldi munn hans; en kampurinn og hárið náði honum að fótum niður. Neglur hans voru langar sem klær; á höfði hafði hann hatt, furðulega barðastóran. Karl þessi var múnkur, er dvaldi langt frá mannabyggðum, og helgaði guði aldur sinn.

*Baman* nam þegar staðar, er hann sá múnkinn; en það var hinn fyrsti maður, er mætti honum; stje hann nú af baki, til þess að breyta eins, og fyrir hann hafði verið lagt. Hann teymdi hest sinn til múnksins, og mælti: gamli maður, drottinn veiti þjer langa lífdaga, og allar óskir þínar. En hinn gamli maður tók heilsan *Bamans,* og mælti svo ógreinilega, að hann eigi skildi nokkurt orð. Sá hann strax, að hið ógurlega skegg flæktist fyrir vörum múnksins, svo að hann eigi mátti mæla; en hann vildi eigi fara á burtu, fyr en hann hefði spurt sig fyrir um það, er hann vildi vita; hann tók upp skæri, batt hest sinn við eik eina, og mælti: múnkur minn, eg þarf að tala við þig, en eg má eigi skilja mál þitt, fyrir sakir skeggs þess, er þú hefur; leyf mjer að klippa skegg þitt og hár, því að þú ert líkari bjarndýri, en manni, eins og þú nú ert.

Ljet múnkurinn sjer þetta vel líka; og klippti *Baman* nú hár hans; varð múnkurinn þá miklu ung-

legri og fegri að sjá, en áður hafði hann verið; þá mælti *Baman:* ef eg nú hefði spegil, þá mundi eg geta sýnt þjer, að þú ert orðinn unglegur að sjá, þar sem enginn mundi fyr hafa þekkt, að þú varst maður.

Múnkurinn brosti, og mælti: herra, hver sem þú ert, þá kann eg þjer miklar þakkir fyrir þann velgjörning, er þú hefur mjer auðsýnt; og vil eg gjöra fyrir þig allt það, er eg má. Muntú eigi koma erindislaus; seg mjer, hvað þú vilt, og mun eg veita þjer lið, ef mjer er unnt. *Baman* svaraði: eg kem langar leiðir, til þess að sækja hinn talanda fugl, hina syngjandi eik, og hið gullna, gjósanda vatn. Eg veit, að þessir hlutir eru skammt hjeðan, en eg er hjer ókunnugur. Ef að þú þekkir þann stað, er þeir eru á, þá seg mjer hann, svo að eg eigi þurfi að snúa aptur við svo búið.

Á meðan *Baman* var að mæla þessi orð, tók hann eptir því, að múnkurinn varð mjög alvörugefinn; og þagði hann lengi, eptir að sveinninn var búinn að enda ræðu sína. Hann mælti því aptur: gamli maður, eg vona það, að þú hafir skilið mig; seg mjer nú það er þú veizt um þá hluti, er eg leita að; eður og, hvort þú vitir nokkuð um þá, eður ekki, svo að eg eigi missi tíma við dvöl mína.

Loksins mælti múnkurinn: herra, kunnug er mjer sú leið, er þú spyr að; en svo mikla velþókknun hefi eg fengið á þjer, að eg eigi veit, hvort eg á að segja þjer það, er þú vilt vita, eður eigi. Því eigi, mælti *Baman;* hverjir torveldleikar aptra þjer frá því? Það mun eg segja þjer, mælti múnkurinn; hættur þær, er fyrir þig munu leggjast, eru miklu

meiri, en þú heldur. Margir menn, er voru jafnir þjer að hreysti og hugrekki, hafa komið hingað, og spurt að þessum hlutum; eg hefi leitast við á allar lundir, að koma þeim til að láta af áformi sínu, en þeir trúðu eigi orðum mínum, heldur knúðu þeir mig með áköfum bænum, að vísa sjer veginn; en nú eru þeir allir horfnir, og engan hefi eg sjeð aptur snúa. Ef að þú vilt lifa, þá fylg ráðum mínum, og snú þú aptur heim.

En *Baman* ljet alls ekki af áformi sínu; hann mælti við múnkinn: það efa eg eigi, að þú vilt mjer vel, og kann eg þjer þakkir fyrir góðvilja þinn. En engin hætta mun aptra mjer frá ferð minni; eg hefi ágæt vopn, og mun eg eigi mæta neinum óvin, sem hraustari er, en eg. Þá mælti múnkurinn: en hvernig mundi fara, ef að þú ættir að berjast við þá óvini, er þú eigi mátt sjá? Það er hið sama, mælti *Baman*, þú munt aldrei fá mig til þess, að hætta við ásetning minn; eg bið þig, vísa þú mjer veginn.

Þegar múnkurinn sá, að fortölur hans dugðu eigi, þá fór hann í poka, er hann hafði hjá sjer, tók upp úr honum knött einn lítinn, fjekk *Baman* hann, og mælti: fyrst að eg eigi má koma því til leiðar, að þú snúir aptur, og fylgir mínum ráðum, þá taktú við knetti þessum; og er þú ert kominn á hest þinn, þá skaltú varpa honum á jörðu, og fylgja honum að fjalli einu; þar mun hann standa kyrr; en þú far af baki, og mun hestur þinn eigi fara úr sporunum, á meðan þú ert á burtu. Síðan skaltú ganga upp fjallið, og muntú sjá til beggja handa mikinn fjölda svartra steina, og heyra hávaða mikinn og óp allt í kring um þig; og muntu verða ávarpaður með alls

konar smánaryrðum, og ógnunum, til þess að aptra þjer uppgöngunnar. En þess skaltú vel gæta, að þú eigi æðrist, og eigi skaltú líta aptur; því að þá muntú í einu vetfangi verða að steini, svo sem þeir eru, er umhverfis þig liggja. Því að steinar þessir eru eigi annað en menn, er ætluðu sjer upp á fjallið, en litu aptur, og urðu að steinum. Ef að nú svo fer, að þjer takist ferðin vel, og þú komist upp á fjallið, þá muntu finna þar fuglabúr; og í því búri er sá fugl, er þú leitar að. Sá fugl mælir manns máli, og mun hann segja þjer, hvar hina syngjandi eik og hið gjósanda vatn sje að finna. Fleira þarf eg eigi að segja þjer, því að nú hefur þú heyrt, hvað þú egir að gjöra og varast; en fylg nú ráðum mínum, og far þú eigi för þessa.

*Baman* tók við knettinum, og mælti: eg kann þjer miklar þakkir fyrir ráð þín, en eigi mun eg aptur snúa; vona eg og, að þú brátt munir sjá mig aptur með hluti þá, er eg leita að. Múnkurinn svaraði, að það mundi fá sjer mikillar gleði, ef hann kæmi aptur. Síðan stje *Baman* á bak, og skildust þeir.

*Baman* varpaði knettinum á undan sjer, en hann rann þegar áfram óðfluga, svo að *Baman* varð að ríða hart mjög, til þess að sjá, hvern veg knötturinn rynni. Hann nam staðar við fjallsræturnar, en *Baman* stje þegar af baki, og ljet hestinn standa kyrran. Sá hann nú steinana svörtu, er múnkurinn hafði frá sagt; og naumast var hann kominn tvo faðma upp á fjallið: þá heyrði hann ýmsar raddir, en sá engan mann. Sumar raddirnar sögðu: hvort ætlar heimskinginn? Hvað vill hann? Látið hann eigi komast upp? Sum-

ar hrópuðu: takið hann! drepið hann! Sumar grenjuðu með þrumurödd: þjófur, morðingi, mannfýla! Sumar hæddu hann, og sögðu: gjörið greyinu ekkert illt, látið drengkornið staulast áfram; líklega á hann að fá fuglinn.

Engu að síður klifraði *Baman* upp eptir fjallinu um hríð, og herti upp hugann, enda þó raddirnar væru mjög ógurlegar; en brátt urðu ólætin og háreystið meira, og heyrðist honum nú ópin allt umhverfis; greip hann þá hræðsla mikil og hugarangist. Fætur hans tóku til að skjálfa, og þróttur hans minnkaði; þá gleymdi hann orðum múnksins, og snjeri sjer við, því að hann ætlaði að snúa aptur; en hann breyttist þegar í svartan stein, eins og hinir aðrir fyrirrennarar hans; hestur hans varð og að steini.

Nú er að segja frá *Parisade*, að síðan *Baman* fór, þá tók hún upp knífinn á degi hverjum, þann er *Baman* hafði fengið henni, og skoðaði hann optsinnis. Á þeim degi, er *Baman* varð að steini, sagði *Perris:* systir mín, eg bið þig, skoða þú knífinn, svo að við sjáum, hversu bróður okkar gengur. Þá tók mærin upp knífinn, og sjá, hann var allur blóði drifinn. *Parisade* skelfdist, varpaði knífnum frá sjer, og hrópaði: bróðir minn góður, eg hefi þá misst þig, og mjer er það að kenna; aldrei mun eg þig aptur sjá! Æ mig ógæfusama! Því sagði eg þjer frá hinum talanda fugli, hinni syngjandi eik, og hinu gjósanda vatni? Hverju varðaði mig, hvort hinni gömlu konu þótti bústaður vor fagur, eða ljótur? Guð gæfi, hún hefði hjer aldrei komið! Hræsnisfulla kvendi, launar þú þannig góðar viðtökur? Því hef-

ur þú sagt mjer frá fugli, eik og vatni, er án efa hvergi eru, nema í ímyndun heimskra manna.

*Pervis* var eins harmandi út af láti bróður síns, og *Parisade;* en er hann þóttist skilja, á ræðum systur sinnar, að hana langaði allt af til þess, að eignast þessa þrjá hluti, þá ásetti hann sjer, að eyða eigi tímanum lengi til ónýtis. Hann mælti: systir mín góð, það er ekki til neins, að gráta gengna tíð; við munum aldrei ná bróður okkar aptur með tárum einum. Við hljótum að breyta eptir vilja drottins, og gjöra það, sem hann býður; hví efast þú nú um orð konunnar, er þú trúðir svo vel í fyrstu? Heldur þú, að hún mundi hafa sagt þjer frá hlutum þessum, ef að þeir væru ekki til, þar sem þú ekkert mein hefur gjört henni, og hún þess vegna eigi þurfti að sýna þjer neina sviksemi. Líklega hefur bróðir okkar týnst af einhverri óforsjálni eður óheppni; en fyrir þessa sök munum við eigi hætta við svo búið, heldur mun eg nú fara á stað, og það á morgun þegar.

*Parisade* leitaðist á allar lundir við, að aptra *Pervis,* hún beiddi hann og grátbændi með mörgum fögrum orðum. Áður hann lagði af stað, fjekk hann henni talnaband, og mælti svo fyrir, að á meðan allar tölurnar ljeki liðugt á snúrunni, þá mundi hann vera alheill; en ef að tölurnar stæðu fastar, og mættu eigi hreifast, þá táknaði það dauða hans.

Nú hjelt *Pervis* á stað; og á tuttugasta degi hitti hann múnkinn, á sama stað, og *Baman* hafði hitt hann; reið hann til múnksins, og frjetti hann um hinn talanda fugl, hina syngjandi eik og hið gjósanda vatn. Mælti múnkurinn við hann hinum sömu orðum, og við *Baman,* og bætti við, að fyrir stuttu

hefði ungur maður, mjög svipaður *Pervis*, spurt að hinu sama, og knúð sig til með áköfum bænum, að vísa sjer veginn, og hefði hann gefið honum nokkurs konar leiðtoga, og sagt honum, hversu hann skyldi að fara.

Þá mælti *Pervis:* eg veit vel, hver sá er, það mun hafa verið eldri bróðir minn; skil eg, að hann muni dauður vera, þó að eg eigi viti, á hvern hátt hann hefur týnst. Múnkurinn mælti: það má eg segja þjer; hann er nú orðinn að svörtum steini; og mun eins fara fyrir þjer, ef að þú eigi fylgir mínum ráðum, eður lætur af ætlan þinni, sem mjer raunar virðist ráðlegast.

*Pervis* mælti: múnkur sæll, eg kann þjer þakkir fyrir það, er þú tekur þátt í áformi mínu, þó að eg sje þjer ókunnur. En eigi mun eg aptur snúa heim að óreyndu; vil eg því biðja þig, að þú leggir mjer ráð, eins og þú gjörðir við bróður minn fyr.

Múnkurinn svaraði: fyrst að mjer eigi tekst, að buga þig, þá skaltú nú ráða; ef að eg mætti upp standa fyrir sakir elli og hrörleika, þá mundi eg rjetta þjer knött þenna; hann mun vísa þjer leiðina. Stje *Pervis* þegar af baki, og tók við knettinum; sagði múnkurinn honum síðan allt það, er hann hafði *Baman* áður sagt, og varaði hann við því, að líta aptur, og við hinu óttalega háreysti.

*Pervis* þakkaði múnkinum fyrir ráðin, stje á bak, og reið á eptir knettinum; en hann stöðvaðist við fjallsræturnar. Síðan rifjaði hann upp fyrir sjer allt það, er múnkurinn hafði sagt honum, og tók til að ganga upp eptir fjallinu. Og er hann var kominn nokkura faðma, þá heyrði hann rödd að baki sjer;

sú hrópaði: stattú við, þrælmennið, eg skal hegna þjer fyrir ósvífni þína! Þá gleymdi *Pervis* ráðum múnksins, þreif sverð sitt úr sliðrum, og vildi hefna sín; en naumast hafði hann litið við, þá breyttist hann í svartan stein; sama varð og úr hesti hans.

Á meðan *Pervis* var á burtu, ljet *Parisade* tölurnar á bandinu optsinnis renna í greip sjer á hverjum morgni, og á hverju kvöldi. En á þeim degi, er *Pervis* varð að steini, þá stóðu allar tölurnar fastar á snúrunni. Þá skildi hún, að hann mundi dauður vera. Eigi ljet hún neinn harm á sjer sjá, heldur bjóst hún þegar til ferðar, og klæddist karlmannsbúningi. Kvaðst hún mundi koma aptur að nokkrum dögum liðnum; síðan stje hún á hest, og reið sama veg, og bræður hennar.

Það er áður sagt, að *Parisade* hafi vanist riddara íþróttum og dýraveiðum; kom það henni nú að góðu haldi; því að hún fór jafnlanga áfanga, og bræður hennar; kom hún á tuttugasta degi til múnksins. Þá stje hún af baki, og teymdi hestinn til hans; hún kvaddi hann, og mælti: gamli maður, leyf mjer að hvílast hjer stundarkorn, og seg mjer, hvar fólginn sje hinn talandi fugl, hin syngjandi eik, og hið gjósanda vatn. Múnkurinn svaraði: það heyri eg á röddu þinni, og það má eg sjá á ásjónu þinni, að þú ert mær; sjertú velkomin hingað, og seg mjer, hví spyr þú mig að þessum hlutum? Þá mælti *Parisade:* svo hefi eg mikið heyrt af hlutum þessum sagt, að eg girnist að eiga þá. Ágæta mær, mælti múnkurinn, satt mun þjer hafa sagt verið; en miklu eru þessir hlutir furðulegri og undarlegri, en heyrt hefur þú. En frá hinu sagði þjer víst engi, hverjir sjeu

torveldleikar þeir, er megi aptra mönnum frá, að ná gripum þessum. Ef að þú vissir það, þá mundir þú aldrei hafa farið för þessa. Fylg þú mínum ráðum, og láttu af ásetningi þínum.

Þá mælti *Parisade:* eg er komin úr fjarlægu landi, og mun eg eigi aptur snúa að óreyndu. Þú talar um torveldleika og hættur, en segir mjer eigi hversu slíku sje varið. Vil eg nú biðja þig, að þú fræðir mig um það.

Þá sagði múnkurinn mærinni frá því hinu sama, er hann hafði fyr sagt sveinunum, og þó enn meira frá hættunum, er á fjallinu voru. Sagði hann, að fyrst skyldi hún ná fuglinum, og mundi hann fræða hana um eikina og vatnið. Þá lýsti hann fyrir henni háreystinu, og hinum ógurlegu dunum og röddum, er á fjallinu voru, þar sem engan mann væri að sjá; og hinum svörtu steinum, er væru töfraðir menn, fyrir þá sök, að þeir hefðu aptur litið, og vildu fæla þann, er upp gengi.

En er múnkurinn hafði út talað, sagði mærin: það skilst mjer, að vandinn muni eigi vera annar en sá, að komast að fuglinum, og líta aldrei aptur, og hræðast eigi ógnanir nje dunur raddanna, þeirra er frá bjarginu heyrast. Skil eg það vel, að slík ólæti mega hræða margan, enda þó hugaður sje; en þess vil eg spyrja þig, hvort eigi sje leyft, að neyta nokkurra bragða? Hversu þá, sagði múnkurinn. Svo virðist mjer, sagði mærin, að ef eg treð viðarull upp í eyru mjer, þá muni eg síður heyra til hljóðanna, og naumast hræðast svo mikillega, að eg missi vald á sjálfri mjer.

Þá svaraði múnkurinn: ágæta mær, það veit eg

eigi, hvort nokkurir hafi þetta reynt, þeirra er þenna veg hafa farið; en enginn hefur minnst á það við mig, og enginn hefur aptur komið. En víst er það, að óhætt er þjer að reyna þetta bragð; og fer þá vel, ef það tekst; en eg ræð þjer samt, að halda aptur heim.

Þá mælti *Parisade:* ekki mun eg aptur snúa, því að hugur minn segir mjer, að allt muni vel fara; seg mjer nú leiðina, gamli maður. Þá tók múnkurinn knött úr poka sínum, og fjekk mærinni hann með sömu ummælum, og áður hafði hann haft við *Baman* og *Pervis;* en hún þakkaði honum fyrir, stje á bak, og fleygði knettinum á stað; en hann rann á undan henni, og stöðvaðist við fjallsræturnar.

Þá stje mærin af baki; tróð viðarull upp í eyru sjer, og byrjaði leið sína upp á fjallið. Hún heyrði reyndar dunurnar og óhljóðin, en viðarullin tók allmikið úr, og deyfði háreystið. Eptir því, sem hún komst hærra, gjörðust ópin og köllin meiri og ógurlegri; en eigi æðraðist mærin. Hún heyrði ymsar hæðilegar ræður og smánaryrði, en hún fyrirleit slíkt, og hló að því; hún sagði við sjálfa sig: hæðið þjer mig, eins og þjer viljið; en miklu verra megið þjer segja, ef það á að fá á mig; skuluð þjer alls ekki hindra leið mína. Komst hún loksins svo hátt upp á fjallið, að hún sá fuglinn í búrinu. Þá dundu ótal raddir á móti henni, og fuglinn hrópaði, eins og þruma riði: á burtu, á burtu, kom þú eigi nær.

En mærin hvatti sporið, er hún sá það, er hún vildi ná; komst hún upp á fjallstindinn, og greip búrið; þá mælti hún: fuglinn minn, nú ertú á mínu valdi, og skalt eigi undan komast; hættú að skekja

þig. Síðan tók hún ullina úr eyrum sjer; en fuglinn mælti: þú hin hugaða mær, reiðstú mjer eigi, þó að eg reyndi til að hræða þig. Jafn vel þó eg sje lokaður inni, þá hefi eg verið ánægður með örlög mín; en þar sem eg nú einu sinni er þrældómi háður, þá vil eg heldur hafa þig fyrir drottningu, en nokkurn annan mann; og sver eg þjer nú trú og hollustu hjeðan af. Eg veit hver þú ert, og það segi eg þjer, að þú veizt eigi sjálf, hver þú ert; en sá dagur mun koma, er eg mun geta veitt þjer mikinn unað, og muntú þakka mjer fyrir það. Seg mjer nú, hvers þú óskar, en eg mun hlýðnast boðum þínum.

Nú þarf eigi frá því að segja, hvort mærin var fegin, eður ei, þar sem hún hafði keypt slíkan grip með dauða bræðra sinna, og miklum þrautum. Hún sá og nú, að hætturnar voru miklu meiri, en hún í raun og veru hjelt, á meðan hún hlustaði á orð múnksins. Þá mælti hún við fuglinn: fugl, eg ætlaði að segja þjer, hvers eg vildi óska mjer, en nú er eg fegin, er þú hefur orðið fyrri til, að spyrja um ósk mína. Það hefi eg heyrt, að hjer sje á nokkurum stað gulllegt vatn, það er hafi furðulegt eðli; seg mjer nú, hvar það sje að finna. En fuglinn vísaði henni á vatnið, og gekk hún þangað, og fyllti silfurflösku, er hún hafði á sjer. Síðan fór hún aptur til fuglsins, og mælti: meira óska eg mjer, fugl, því að nú vantar mig hina syngjandi eik. Fuglinn svaraði: þar að baki þjer er skógur; þar er eikin. Mærin gekk inn í skóginn, og fann bráðum eikina, því að hún hljómaði skært og unaðlega. En eikin var afarhá og furðulega digur; mærin gekk þá til fuglsins, og sagði: fugl, eikina hefi eg fundið, en eg get

eigi haft á burtu með mjer svo mikið trje. Þess þarftú eigi, svaraði fuglinn; þú skalt taka kvist einn lítinn af eikinni, og er þú setur hann í aldingarð þinn, þá mun hann skjótlega vaxa, og verða að eins mikilli eik, og þessi er.

Nú var mærin búin að ná því, er hún vildi; þá mælti hún við fuglinn: fugl, mikið hefur þú nú gjört, en meira hlýtur þú að gjöra. Þjer er það að kenna, að bræður mínir eru dauðir, og eru þeir nú að steinum orðnir; vil eg nú, að þeir fari heim með mjer.

Það var eins og fuglinum þætti fyrir, er mærin sagði þetta, og taldi hann torfærur á því. En mærin sagði: fugl, minnstú þess, er þú kannaðist við, að þú værir á mínu valdi; og það veiztú, að eg á ráð á lífi þínu. Það er satt, sagði fuglinn, og mun eg láta að bæn þinni, enda þó torveldara sje að uppfylla hana, en hinar fyrri. Líttú í kringum þig, ef þú mátt sjá krukku nokkura. Þarna stendur krukka, svaraði mærin. Taktú hana, mælti fuglinn, og er þú ferð ofan af fjallinu, þá austú á steinana svörtu, og muntu finna aptur bræður þína.

*Parisade* tók krukkuna, fuglinn, kvistinn og vatnið gullna í flöskunni, og gekk ofan af fjallinu. Á leiðinni jós hún vatni úr krukkunni á sjerhvern stein, er á fjallinu lá, en þeir urðu allir að mönnum. Þannig komu aptur fram bræður hennar, *Baman* og *Pervis*, og urðu nú fagnafundir með þeim systkynum. Þá spurði mærin: bræður mínir, hvað eruð þið að hafast hjer að? En þeir svöruðu: við sváfum. Þá mælti mærin: því trúi eg, en án mín munduð þið hafa sofið allt að dóms degi; munið þið eigi, að þið fóruð að sækja hinn talanda fugl, hina syngjandi eik,

og hið gullna vatn, og að þið sáuð hjer undrafjölda svartra steina? Nú eru þeir allir horfnir, því að menn þessir, er þið sjáið hjer, og sjálfir þið líka, voruð allir steinar, og sömuleiðis hestar yðar, er nú bíða yðar. Þjer eruð allir umbreyttir orðnir fyrir krapt vatns þess, sem er í krukku þessari, því að eg hefi skvett því á steinana; fuglinn vísaði mjer á hina syngjandi eik, og á hið gullna vatn; og eg knúði hann til þess, að kenna mjer að leysa ykkur úr álögunum.

Þá vissu sveinarnir, og með þeim allur hinn mikli mannfjöldi, er *Parisade* hafði frelsað, hversu mikið þeir áttu henni að þakka. Þeir sögðu allir í einu hljóði, að svo væri langt frá, að þeir eigi innilega samfögnuðu henni, þar sem hún hefði öðlast hina þrjá hluti, að þeir miklu framar byðu henni sína þjónustu, sem þakklæti fyrir lífgjöfina.

Þá sagði mærin: eigi á eg neinar þakkir skilið af yður, því að eg hefi frelsað yður, einungis í því skyni, að frelsa bræður mína. Þakkir yðar álít eg kurteisi við mig, og þakka eg yður fyrir það sjálfum; eruð þjer og frjálsir nú, eins og fyr voruð þjer, og eigi skyldir mjer að þjóna. En nú munum vjer öll halda á burtu hjeðan, og fara, hver heim til sín.

Síðan tók *Parisade* hest sinn, og stóð hann kyrr, þar sem hún hafði skilið hann eptir. Beiddist *Baman* þess þá, að hann mætti bera fuglinn, en mærin svaraði honum: bróðir minn, fuglinn er minn þræll, og mun eg bera hann sjálf; en mjer er jafn kært, að þú haldir á hinni syngjandi eik. Haltú á búrinu, á meðan eg fer á bak, og fá þú mjer það aptur síð-

an. *Baman* gjörði svo; síðan fjekk mærin *Pervis* silfurflöskuna til varðveizlu.

Þegar allir voru komnir á bak, þá beið *Parisade* eptir því, að einhver þeirra færi á undan. Vildu *Baman* og *Pervis* af kurteisi láta hina ókunnu menn ríða á undan, en þeir vildu láta mærina fara á undan. Þá baðst hún þess, að einhver þeirra færi á stað; en þeir sögðust vonast eptir því, að hún mundi fara fremst, og leyfa þeim að fylgja henni, í heiðurs skyni. Þá reið *Parisade* á stað, og allur hópurinn á eptir.

Nú vildu þau kveðja múnkinn, er þau voru kominn að kotinu; en hann var andaður, og vita menn eigi, hvort hann hefur af elli dáið, eður af því, að hans þurfti eigi lengur við, til að vísa mönnum leið upp á fjallið.

Síðan hjeldu þeir áfram og minnkaði hópurinn smám saman, því að sjerhver fór heim til sín, til fjarlægra landa. En *Parisade* fór heim til sín, ásamt með bræðrum sínum.

Þá setti mærin búrið í glugga, er snjeri út að aldingarðinum, og er fuglinn hóf upp rödd sína, þá komu allir söngfuglar, þeir er voru í nálægum eikum, og tóku undir með honum. Kvistinn gróðursetti hún á ilmanda engi, fyrir framan húsið; en hann festi rætur, og varð að mikilli eik; en sú eik hljómaði og glumdi með margvíslegum og fagurlega samstilltum röddum, á sama hátt, og sú eik, er á fjallinu var. Mærin ljet búa til fagra vatnslaug úr marmarasteini, í miðjum aldingarðinum, og hellti þar í vatninu úr silfurflöskunni, en það svall þegar, svo að marmaraskálin fylltist á barma, og

gaus vatnið marga faðma í lopt upp, og gjörði ljómanda og gullinn vatnsstaf, er sje niður síðan, og hófst upp á víxl, en rann þó aldrei út úr skálinni.

Frjettist nú þetta um allt nágrennið, og kom ógrynni fólks að úr öllum áttum, til að sjá þessa hina furðulegu hluti; enda stóð og garðshliðið allt af opið, og var engum inngöngu meinað.

Nú hvíldust systkynin um hríð, en síðan lifðu þau á sama hátt og fyr. Bar nú svo að einhvern dag, að *Baman* og *Pervis* voru á dýraveiðum, og fóru þeir lengra, en þeir voru vanir. Þá mættu þeir *Kosrú Sjak*, Persakonungi, er einnig var á dýraveiðum. En með konunginum voru margir riddarar og sveinar, og var svo þröngur vegurinn, þar sem þeir mættust, að *Baman* og *Pervis* með naumindum fengu komist af baki, til þess að varpa sjer til jarðar fyrir konunginum. En er konungur sá sveinana, fagurlega búna að vopnum og klæðum, sem væru þeir hirðmenn sjálfs hans, þá undraðist hann, og bauð þeim að standa upp.

Þá stóðu sveinarnir upp; en konungur undraðist tign þeirra og fegurð; hann spurði þá, hverjir þeir væru, og hvar þeir ættu heima. *Baman* mælti: herra, við erum synir garðastjóra þíns, sem nú er andaður; búum við hjer í húsi einu, er hann ljet byggja handa okkur, þangað til við værum orðnir færir um að þjóna þjer.

Það sje eg, sagði konungur, að þið eruð veiðimenn miklir. Herra, mælti *Baman*, það er skemmtan okkar, að fara á dýraveiðar, og það gjöra og allir þeir, er vilja ganga í hernað fyrir herra sinn, þá er á liggur. Þótti konungi vænt um þetta hið vit-

urlega svar, og mælti, að þeir skyldu láta sig sjá fimleik þeirra.

Þá stigu sveinarnir á bak, og fylgdust með konunginum; sáu þeir nú innan skamms mörg dýr. *Baman* kaus sjer ljón, en *Pervis* bjarndýr. Hleyptu þeir hestunum svo djarflega að dýrunum, að konungur undraðist mikillega; síðan felldu þeir dýrin hartnær báðir í senn; þá rjeðust þeir aptur á önnur dýr, og fór á sömu leið. Vildi konungur þá eigi, að þeir elltu fleiri dýr, og mælti: bráðum munduð þið eyða mörk mína, ef að þið mættuð ráða; en nú vil eg, að þið hlífið ykkur, því að hreysti ykkar mun einhvern tíma gagna mjer eins mikið, og hún gladdi mig nú. Bauð hann nú sveinunum, að fylgja sjer, og gjörast sínir menn. En *Baman* varð fyrir svörunum, og mælti: herra, við erum ekki maklegir slíks heiðurs; leyf okkur, að við dveljum þar, er við áður höfum búið.

Konungur skildi eigi, hví sveininum færist þannig orð, og spurði hann, hverju slíkt sætti. Þá mælti *Baman:* herra: við eigum systur eina, sem yngri er en við; hjá henni búum við í svo miklum friði og eindrægni, að við eigi gjörum neitt, fyr en við höfum leitað ráða hjá henni; og hið sama gjörir hún okkur. Slíkt líkar mjer vel, mælti konungur, gjörið svo, og mætið mjer á morgun aptur.

Skildu þeir nú, og riðu sveinarnir heim til sín, en mundu eigi eptir, eður hugsuðu eigi um, að þeir höfðu mætt konunginum, og sögðu þeir því systur sinni eigi frá því, er gjörst hafði..

Morguninn eptir mættu þeir konungi aptur á veiðum; hann mælti: hafið þið ráðgast um við syst-

ur ykkar? En sveinarnir litu hvor á annan, og roðnuðu. Þá mælti *Baman:* herra, fyrirgef þú okkur, við gleymdum því. Munið þá eptir því í næsta sinn, mælti konungur.

Morguninn eptir mættu þeir konungi aptur, en allt fór á sömu leið, því að þeir gleymdu loforði sínu. En konungur reiddist þeim eigi, heldur tók hann upp úr vasa sínum þrjá smáknetti gullna, fjekk *Baman* þá, og mælti: þessir gullknettir skulu minna þig á loforð þitt, svo að þið eigi gleymið því í þriðja sinn.

Nú fóru sveinarnir heim, og er *Baman* leysti af sjer belti sitt, þá er hann vildi ganga til rekkju, þá fjellu knettirnir á gólfið. Þá fyrst minntist hann konungsins, og fór þegar til bróður síns, en síðan gengu þeir báðir til *Parisade,* sem ekki var háttuð. Þeir beiddu hana fyrirgefningar, er þeir kæmu svo seint inn í svefnherbergi hennar, og kváðust hafa merkilegt mál að segja henni. Síðan sögðu þeir henni frá öllu, er gjörst hafði með þeim og konunginum.

Þá mælti mærin: það er heiður mikill fyrir ykkur, að þið hafið hitt konunginn þannig, og getur, ef til vill, orðið ykkur til mikillar sæmdar seinna meir; en fyrir mig er þessi atburður til lítillar gleði. Það skil eg, að mín vegna munuð þið hafa færst undan við konunginn, og kann eg ykkur þakkir fyrir það. Því að eg sje á því, hversu mikið þjer unnið mjer. Þið hafið sjeð það, að ef að þið gengjuð í konungs þjónustu, þá munduð þið hljóta að skiljast við mig; og munduð þið heldur hafa tekið á ykkur óvild konungs, með því að neita boði hans, en viljað trufla á nokkurn hátt þann frið og kærleika, sem

allt af hefur með oss ríkt. En hvort haldið þið, að þið getið með hægu móti færst undan beiðni konungs, þar sem hann girntist ykkar þjónustu svo mikillega? Óskir og beiðni konunganna eru skipanir og boð, sem hættulegt er móti að standa. Ef að eg nú rjeði ykkur til, að neita konunginum, þá munduð þið verða fyrir reiði hans, og vjer mundum öll tjón af því hljóta. En nú mun eg spyrja hinn talanda fugl að, hvað úr skuli ráða.

Síðan ljet mærin sækja fuglinn, og spurði hann ráða, en fuglinn sagði: bræður þínir skulu hlýðnast boði konungs, og bjóða honum aptur heim til sín.

Þá sagði mærin: fugl, vjer systkyni elskum hvort annað, svo að ekkert má af öðru sjá; hversu má slíkt verða. Þá mun elska yðar verða enn meiri, mælti fuglinn. En þá mun konungurinn líka sjá mig, mælti mærin. Þá sagði fuglinn: það hlýtur og að verða, ef að allt á vel að fara.

Morguninn eptir fóru sveinarnir á veiðar, og mættu konunginum. En er hann sá þá, hrópaði hann til þeirra álengdar, og spurði, hversu farið hefði. *Baman* reið til hans, og mælti: herra, þínir menn erum við, og skulum hlýðnast þjer, systir okkar varð gröm út af því, að við færðustum undan, og vildum leita ráða hjá henni, í stað þess, að hlýðnast þegar boði þínu. Fyrirgef okkur, ef að okkur hefur á orðið. Konungur mælti: eigi reiðist eg ykkur, fær mjer það mikillar gleði, að þið elskið systur ykkar svo mikið, enda þó að eg sje eigi riðinn við vináttu yðar. Þá hneigðu sveinarnir sig djúpt niður að jörðu, í virðingar skyni við konunginn, en mæltu ekki; því að góðsemi hans truflaði þá.

Voru þeir nú á veiðum með konungi um daginn, og eigi lengi; því að þegar konungur fann, að andlegt atgjörvi þeirra var eigi minna, en líkamsfimleiki þeirra, þá hjelt hann heim á leið, fyr en hann var vanur. Ljet hann þá ríða sinn til hvorrar hliðar sjer, en þann heiður hlutu engir, nema hin mestu stórmenni ríkisins; og öfunduðust hirðmenn konungsins, og ráðgiafar hans, er sveinarnir riðu á undan þeim.

En er þeir riðu um stræti borgarinnar, þá varð öllum mönnum starsýnt á sveinana, og vissu menn eigi, hvað manna það væru. Margir sögðu: guð gæfi, að konungur ætti slíka syni, sem þessir menn eru!

Þegar þeir voru komnir til hallarinnar, sýndi konungur þeim um allt, og lofuðu þeir dýrð þá, er þeir sáu, eigi um of, og þó eigi of lítið. Síðan hlutu þeir að setjast til borðs með konungi, enda þó þeir færðust undan, og segðu, að það sambyði sjer eigi, að neyta matar ásamt með honum.

Konungur var harla menntaður maður og vitur, og var honum vel kunnugt um sögur og háttu annara þjóða; sá hann það, er sveinarnir þögðu yfir borðum, að þeir vildu eigi mæla að fyrra bragði, fyrir sakir kurteisi. Hann yrti því á þá, og gjörði svo, meðan þeir sátu yfir borðum; en þeir svöruðu af svo mikilli vizku og skarpleika, að konungur varð gagntekinn af undrun. Hann hugsaði með sjálfum sjer, að þó að þeir væru sínir eigin synir, þá mundu þeir eigi geta verið betur að sjer um alla hluti. Eptir það gengu þeir í annað herbergi, og töluðu lengi um ýmsa hluti. Loksins mælti konungur: því mundi eg aldrei hafa trúað, að í mínu

ríki væru svo vitrir og ágætir æskumenn, sem þið eruð, og hefi eg enga fundið, er hafi veitt mjer slíka ánægju, sem þið. Nú munum vjer gleðja oss með sönglist og hörpuslætti, því að ekkert er inndælla og ágætara, er menn geta haft til tilbreytingar við alvarleg störf og vitrar ræður, en fagrir söngvar.

Þá komu margir söngmenn og söngmeyjar, og hófu fagra söngva, og aðrir ljeku undir á ýmiss hljóðfæri. Gömnuðu þeir sjer nú þannig um hríð við dansleik og söng.

En er degi tók að halla, þá vörpuðu sveinarnir sjer fyrir fætur konungsins, og þökkuðu honum með mörgum fögrum orðum allan þann heiður og gæzku, er hann hafði þeim auðsýnt; og beiddust heimfararleyfis; en konungur mælti: farið þið í friði; en minnist þess, að nú hefi eg eigi annað gjört, en að vísa ykkur leiðina til hallar minnar, svo að þið hjeðan af komið sjálfkrafa; skuluð þið ætíð vera mjer velkomnir, og mjer til gleði og ánægju.

Áður en þeir kvöddu konunginn, mælti *Baman:* herra, leyf okkur, að biðja þig þess, að þú veitir okkur og systur okkar þá ánægju og náð, að hvíla þig í húsi voru, þá er þú í næsta sinn ferð á dýraveiðar; það sambýður raunar eigi dýrð þinni og veldi, en stundum hafa konungar hvílst í lágum kofa. Þá mælti konungur: bústaður þeirra manna, er slíkir eru sem þið, hlýtur að vera fagur og þeim samboðinn; mun eg koma að öðrum morgni hjeðan frá; mun og systir ykkar eigi verða mjer síður kær, en sjálfir þið.

Síðan kvöddu sveinarnir konunginn, og riðu heim til sín. Sögðu þeir systur sinni frá öllu, sem gjörst

hafði, og að þeir hefðu boðið konungi heim þangað, eins og til var ætlast, og mundi hann koma að öðrum morgni.

Þá mælti *Parisade*: þá hljótum vjer að veita konungi vel, og munum vjer spyrja fuglinn að, hverja rjetti megi setja fyrir konung; því að fuglinn mun vita það. Síðan spurði hún fuglinn að því, en hann mælti: drottning mín góð, allir rjettir þínir eru hinir ágætustu, en nú muntu gæða konungi á perlugraut, og skaltú láta það vera fyrsta rjettinn.

Hvað þá, hrópaði mærin, perlugraut! Þú ert frá þjer, fugl; því að það borðar enginn maður; konungur mun undrast perlurnar; en hann veit og, að menn setjast að borði til þess, að neyta matar, en eigi til þess, að dást að perlum og gimsteinum. Þar að auki á eg eigi svo mikið til af perlum, sem til þessa þarf. Þá mælti fuglinn: gjör þú svo sem eg segi þjer; því að gott eitt mun af því leiða. Á morgun í býti skaltú fara út í aldingarðinn, og láta grafa undir fyrstu eik til hægri handar, þar er nóg af perlum.

*Parisade* gjörði svo sem fuglinn sagði fyrir; hún fór í býti út í aldingarðinn, og ljet grafa undir eikinni; þá fannst þar undir gullstokkur. Mærin tók hann, og opnaði, var hann fullur af perlum, og var hver annari lík. Síðan gekk hún með stokkinn heim að húsinu.

Sveinarnir höfðu sjeð til *Parisade,* þegar hún fór út í garðinn, og mættu henni nú. Þá mælti *Baman:* systir góð, þú fórst ekki með neitt út, en kemur nú aptur með gullstokk. Eg skal sýna ykkur í hann, mælti hún.

Hún opnaði stokkinn, og undruðust sveinarnir

harla mikið, er þeir sáu perlurnar, svo margar og fagrar, þó að þær væru eigi stórar; og allar eins. Þeir spurðu að, hvernig hún hefði fundið stokkinn; en hún mælti: ef þið þurfið ekki annað að gjöra, þá skal eg segja ykkur það. *Pervis* mælti: við ætluðum einungis á móti þjer, og þurfum ekki annað að gjöra, en að hlusta á þig.

Þau gengu nú heim til hússins, og sagði mærin þeim frá öllu því, er fuglinn hafði fyrir mælt, og að hann hefði vísað sjer á perlustokkinn. Töluðu þau nú ýmislegt um það, hvað fuglinn mundi ætla sjer með þessu, en skildu það eigi; sáu þau, að ekki var annað ráð, en að gjöra svo sem fuglinn bauð.

Þegar þau voru komin heim, ljet *Parisade* sækja eldamann, og sagði honum fyrir, hversu rjettunum skyldi haga handa konunginum; og að hinn fyrsti rjettur skyldi vera perlugrautur; fjekk hún honum stokkinn, og sagði, að þaðan skyldi hann taka perlurnar.

Eldamaðurinn, er aldrei hafði heyrt getið um slíkan rjett, hörfaði aptur á bak af undrun. Mærin gat sjer til, hversu honum mundi vera innanbrjósts, og mælti: það sje eg, að þú heldur, að eg sje eigi með öllum mjalla, er eg bið þig, að búa til rjett, þann er eigi hefur fyr verið á borð borinn. En nú býð eg þjer, að gjöra svo sem eg hefi fyrir þig lagt, og skaltú skila mjer aptur því, er af gengur perlunum. Eldamaðurinn tók þegjandi við stokkinum; en mærin gekk inn, og ljet raða öllu niður í húsinu.

Morguninn eptir fóru sveinarnir á veiðar, og mættu konungi; en er sól tók að hækka á lopti, og miðdegishitinn lúði þá, þá hættu þeir. Varð *Baman*

eptir hjá konunginum, en *Pervis* reið heim, til þess að láta *Parisade* vita af, að hann kæmi. Var hún þegar búin að frjetta það, því að hún hafði sent marga menn út, til þess að gæta að, hvenær konungur kæmi.

En er konungur kom, og var stiginn af baki, þá gekk *Parisade* fram, og varpaði sjer fyrir fætur honum; sagði *Baman* og *Pervis* honum, að þetta væri systir sín, og beiddu konunginn, að taka heilsan hennar. Beygði konungur sig, og reisti upp meyna, og er hún stóð rjett, þá undraðist hann, hversu hún var fögur að líta, en það sá hann og, að eitthvað hefði hún undarlegt við sig, og með nokkuru móti tignarlegt. Þá mælti konungur: bræður þessir verðskulda, að eiga þig fyrir systir, og þú átt skilið, að eiga slíka bræður, undrast eg nú eigi, þó að þeir leiti ráða hjá þjer í öllum hlutum. Þá sagði mærin: herra, bústaður vor er engi konungshöll, og sæmir oss eigi, að búa eins og konungar. Konungur mælti: hús yðar vil eg sjá, og mun eg þá sjá, hvort mjer líkar, eður eigi.

Sýndi mærin nú konunginum um allt húsið, en konungur undraðist, og mælti: mær, kallar þú þetta eigi konungum sæma? Nú furðar mig eigi lengur á, þó að þú eigi hirðir um, að vera í borginni; sýn mjer nú aldingarðinn.

Þá opnaði mærin dyrnar, og sá konungur þegar hið gullna vatn, er gaus með dýrðlegum ljóma upp að himinskýjunum. Stóð hann grafkyrr af undrun, og mælti: hvaðan kemur vatn þetta, er svo er furðulegt og unaðlegt? Hvar er uppspretta þess, og hvílík er sú list, er slíkt hefur framkvæmt? Eg vil ganga nær og skoða það betur. Þá gekk mærin með honum,

en á leiðinni komu þau í nánd við hina syngjandi eik; heyrði konungurinn hina fögru hljóma, er hann aldrei fyr hafði slíka heyrt; en eigi sá hann neinn mann. Og er hann heyrði rjett hjá sjer þenna hinn unaðlega söng, er eigi var vakinn af mannlegum krapti, og eigi stilltur af manna tungum, þá undraðist hann, og mælti: mær, hvar eru þeir, er leika svo fagurlega? Eru þeir undir jörðunni niðri, eður svífa þeir hátt í lopti uppi? Mærin svaraði: herra, engi maður vekur þessi hljóð, heldur koma þau frá eik þeirri, er hjá þjer stendur. Varð konungurinn svo gagntekinn af hinum fagra söng, að hann gleymdi sjer, og stóð lengi þegjandi. Loksins minntist hann þess, að hann ætlaði að skoða vatnið gullna, og mælti: mær, eg bið þig, seg mjer, hefur þjer verið gefin þessi eik, eður hefur hún sprottið sjálfkrafa í garði þínum, eður hefur þú fengið hana úr fjarlægu landi? Hversu heitir þessi eik?

Mærin svaraði: eigi heitir hún annað, en hin syngjandi eik; hún er eigi upp runnin í þessu landi; en of langt væri nú, að segja yður, herra, hversu á henni stendur. Á hún sjer sömu sögu, og hið gullna vatn, og hinn talandi fugl, er þú nú bráðum munt sjá. Ef að þú skipar, herra, þá mun eg segja þjer frá öllum þessum hlutum, þá er þú hvílir þig eptir göngu þessa í miðdegishitanum.

Konungur mælti: fagra mey, eigi þreytist eg, þótt heitt sje, er eg má líta svo mikilfenga og furðulega hluti; mun eg nú skoða hið gullna vatn, og síðan hinn talanda fugl.

Komu þau nú að brunninum, þar sem vatnið gaus í lopt upp, og sje aptur niður, á víxl; var það

harla fögur sjón. Þá mælti konungur: mær, þú segir mjer, að vatn þetta eigi sjer enga uppsprettu, og sje eigi leitt hingað með neinum rennum; skil eg því ekkert annað, en að það muni vera komið úr fjarlægum landsálfum, eins og hin syngjandi eik.

Þá mælti mærin: svo er sem þjer segið, herra, vatnið hefur eigi uppsprettu, heldur er marmaraskál þessi heil, og eigi gat eður rifa á; en eg hefi látið lítinn dropa vatns þessa í skálina, og sá dropi svall og óx; því að sú er náttúra vatns þessa.

Konungur mælti: nú er nóg komið; því að eg mun aptur koma hingað; fylg mjer nú til hins talanda fugls.

Gengu þau nú að salnum, og tók konungur þá eptir óteljandi fuglagrúa, er sátu á greinum trjánna, og svifu um í loptinu; voru þeir allir að syngja, hver eptir sínu eðli. Konungur spurði, hverju slíkt sætti, að hvergi sæist fugl í garðinum, nema hjer. Mærin svaraði: það kemur til af því, að allir fuglar fljúga hingað, til þess að taka undir með hinum talanda fugli; en hann sjálfur er í búri því, er í salarglugganum hangir. Söngur hans er fegurri, en nokkurs annars fugls, og næturgalinn sjálfur syngur eigi nærri eins vel, og hann.

Konungurinn gekk inn í salinn, en fuglinn söng í sífellu. Þá mælti mærin við fuglinn: heyr þú, hjer er konungur kominn, heilsa þú honum. En fuglinn hætti að syngja, og svo gjörðu allir hinir fuglarnir. Þá mælti fuglinn: heill sjertú, konungur, drottinn veiti þjer blessun og náð, og gefi þjer farsælan og langan aldur. Borð eitt stóð nálægt glugganum; þar voru rjettirnir búnir, og er konungurinn gekk að

borðinu, mælti hann: fugl, eg þakka þjer fyrir kveðjuna, og gleðst eg af því, að sjá þig, sem ert sannkallaður konungur allra fugla.

Síðan ætlaði konungur að taka til matar, og var grautur fyrstur rjettur, sem til var ætlast; en er hann sá, að það voru perlur, þá mælti hann: þetta er undarlegt mjög, aldrei hjelt eg, að menn mundu perlur borða. Hann leit hissa á sveinana og á meyna; en fuglinn mælti: herra, hví undrast þú, er þú sjerð mat, sem búinn er til úr perlum; en þó undraðist þú eigi, er drottning þín fæddi hvolp, ketling, og trjekubb; og trúðir þú sögum illra manna, en þó varstu eigi sjálfur við, er hún varð ljettari. Þá mælti konungur: eg trúði því, af því ljósmæðurnar sögðu það. Fuglinn mælti: ljósmæður þessar voru systur drottningarinnar, og öfunduðust yfir þeirri dýrð, er þú veittir henni, þar sem þú gafst henni konunglega tign; þær notuðu sjer trúgirni þína, konungur; og munu þær nú bráðum kannast við glæp sinn. Sveinar þessir og mær eru konungborin, eins og þú, konungur Persalands, því að þau eru þín börn, og garðastjóri þinn ól þau upp, og setti þau til mennta.

Svo mælti fuglinn, en þokublæju dró frá augum konungsins. Hann hrópaði: fugl, það segir mjer hugur minn, að þú hafir rjett að mæla; því að óljós tilfinning sagði mjer, að eg væri þeim nákominn; en nú gjörir þú það ljóst og bjart, er áður var óljóst og dimmt. Komið, börn mín, eg vil faðma yður og heilsa. Þá stóðu þau öll upp, og kysstust og föðmuðust. Slíkri gleði má engi tunga lýsa.

Síðan stje konungur á hest sinn, og reið til borgarinnar. Ljet hann þegar höfða mál á móti systrum

drottningarinnar, og leið eigi á löngu, áður þær gengist við glæpum þeim, er þær höfðu drýgt; voru þær hálshöggnar þegar.

Meðan á þessu máli stóð, gekk *Kosrú Sjak*, konungur, til höfuðkyrkjunnar, þar sem drottning hans hafði verið í mörg ár, og þolað hörmungar og kvalræði. Fylgdi konunginum allt stórmenni ríkisins, og ógrynni fólks. En er konungurinn sá, að drottningin var orðin föl og mögur, og tekin af gráti og langri eymd, þá faðmaði hann hana, og grjet. Hann mælti: drottning, eg kem til þess, að biðja þig fyrirgefningar, því að þú ert saklaus. Nú líða þær hegningu, er ollað hafa ógæfu þinni; en þú fær þá gleði, að heyra, að þú ert móðir tveggja ágætra sona, og einnar fagurrar dóttur. Kom þú, og sezt aptur í þá tign og dýrð, sem þjer ber.

Þetta heyrði allur lýðurinn, og varð nú gleði mikil um alla borgina. En morguninn eptir fóru konungur og drottning, sem nú hafði lagt af hörmungaklæði sín, ásamt hirðinni til systkynanna. Þá leiddi konungur drottninguna fyrir þau, og mælti: hjer eru börn þín, drottning, faðma þú þau, eins og eg hefi þegar gjört. En drottningin faðmaði þau, og grjet fögrum tárum, er hún hafði þolað miklar hörmungar fyrir þeirra sakir.

Var nú dýrðleg veizla búin konunginum og drottningunni; en síðan gengu þau öll upp í aldingarðinn, og skemmtu sjer við hið gullna, gjósanda vatn, hina syngjandi eik og við hinn talanda fugl.

Síðan hjeldu þau heim til borgarinnar, og reið *Baman* til hægri handar konungi, en *Pervis* til vinstri handar; þá kom drottning og *Parisade;* þá hirðmenn

og ráðgjafar og önnur stórmenni, eptir stjett sinni. Þyrptist múgur manna að úr öllum áttum, og varð mönnum eigi síður starsýnt á konungssynina og konungsdótturina, en á konunginn sjálfan og drottningu. *Parisade* hjelt á fuglinum, og flugu allir fuglar í kringum hann, því að þeir vildu syngja með honum; gekk svo ferðin allt til hallarinnar; en um kvöldið var öll borgin ljósum prýdd, og var lengi mikil gleði; því að börn konungsins, *Kosrú Sjaks,* voru aptur fundin, og drottningin leyst úr kvölum sínum og hörmungum. Lýkur hjer svo þessari sögu.

# Hassan kaðlari.

Meðan *Harún* kalífi rjeði ríkjum, bjó í *Bagdað* kaðlari nokkur fátækur, að nafni *Hassan,* með konu sinni og fimm börnum, er hann ól upp í eymd og bágindum. Með mestu fyrirhöfn eg erviði gat hann varla unnið sjer svo mikið fje, að hann hefði nóg að leggja fyrir sig og fjölskyldu sína. Á hverjum morgni fór hann á fætur fyrir sólaruppkomu, og vann fram á nótt. Fór hann þá þreyttur heim úr smiðju sinni, fjekk konu sinni það lítilræði, er hann hafði hlotið fyrir dagsverk sitt, og neytti kvöldverðar. En hann var glaður og ánægður í fátækt sinni, og lifði með hugarrósemi. Á kvöldin, er hann hafði matast, komu öll börnin til hans, hlupu upp um háls honum; og hættu eigi fyr að biðja hann, en hann sagði þeim eitthvert æfintýri eður sögu; hlustuðu þau þá á hann, og voru kyr og eptirtektasöm; en móðir þeirra sat hjá, og þótti gaman að.

Um sama mund voru í *Bagdað* vinir tveir; hjet annar *Sadí,* og var svo auðugur, að hann vissi eigi aura sinna tal; en hinn *Alí,* og átti hann reyndar minna, en var þó ekki fátækur. Þeir unnu hvor öðrum harla mikið, og var það ekki nema einn hlutur, er þá greindi á um. *Sadí* var fastur á því, að menn ekki gætu hugsað sjer neitt farsællegt líf á jörðunni,

nema því að eins, að menn hefðu nóg af fje og auðæfum, til þess að menn gætu haft nóga ánægju, og átt gott. En *Ali* sagði, að það væri eigi svo; hjelt hann, að rósöm samvizka yrði að vera sameinuð auði; því að öðrum kosti væri allt gull og silfur ekki meira, en moldar virði, og ekki þess vert, að menn rjettu út höndina, til að ná því.

Þannig kittu þeir einhvern dag fram og aptur um þenna hlut, og komust þeir, meðan þeir voru að tala um það, út úr hinu eginlega umræðuefni, og fóru að ræða um þau meðöl og tiltæki, er gætu hjálpað mönnum til þess, að ná miklum auði. Hjelt *Sadí* sínu fram, og sagði, að fátæklingarnir væru fátækir vegna þess, að þeir fæddust í fátækt, eða eyddu auði sínum viljandi, og notuðu hann illa í heimsku sinni. Hjer er kaðlari einn, mælti hann, og benti á *Hassan,* því að þeir voru komnir í nánd við verksmiðju hans. Þessi maður virðist mjer vera í bágum kringumstæðum, sagði hann, og vinnur hann þó kappsamlega, í hvert sinn, er eg sje hann. Mundi hann án efa öðlast auðæfi og fjármuni, ef hann hefði nóg fje til að kaupa fyrir, og gæti haldið nóg fólk til að vinna. *Ali* brosti, og mælti: þú ert maður ríkur, gefðú honum fje; muntu þá sjá, hvert þú hefur rjett að mæla; eg held miklu fremur, að gæfan þurfi einungis að brosa við fátæklingunum, svo að þeir verði ríkir, og komist í álit; því opt stoðar óvænt tilviljun meira, en auður heimsins. *Sadí* var þegar fús á, að gjöra það, sem *Ali* stakk upp á; og gengu þeir nú til *Hassans,* er var að verki sínu í óða kappi, og tók ekki eptir þeim. *Sadí* klappaði á öxl honum, og mælti: heyrðu, vinur góður, hættu að vinna, og

taktu eptir því, er eg ætla að segja við þig. Snjerist *Hassan* þá við; og er hann sá báða hina vel klæddu ókunnu menn, hætti hann að vinna, og kvaddi þá kurteislega. Frjetti *Sadí* hann eptir, hvernig á högum hans stæði; sagði *Hassan* honum þá hreint og beint frá stöðu sinni, og urðu hinir ókunnu menn þess brátt vísari, að hann var maður rjettvís og góður drengur.

Þá mælti *Sadí:* Ekki var það forvitni ein, er kom okkur til þess, að trufla þig í starfa þínum; því að við ætlum að gjöra þjer gott. Hvort heldur þú, að þjer muni takast, að bæta úr kjörum þínum, ef að góður vinur þinn gæfi þjer tvö hundruð gullpeninga; og ætli þú mundir geta grætt svo mikið með þeim peningum, að þú yrðir eins auðugur, og hver annar ríkur kaðlari í *Bagdað? Hassan* varð hissa, er *Sadí* ávarpaði hann á þenna hátt, en það skildi hann, að talað mundi vera af alvöru; varð hann því glaður mjög, og sagði: herra, að ári liðnu held eg, að mjer mundi takast, að verða auðugari, en hinn auðugasti kaðlari hjer borginni. Fór *Sadí* þá í vasa sinn, og dró upp pyngju, fulla af gulli; hann fjekk *Hassan* pyngjuna, og mælti: þá er vel, við trúum þjer; vil eg að þú þiggir pyngju þessa; það eru tvö hundruð gullpeningar; njóttu þeirra vel, og sjertu heppinn, þá mun eg ekki sjá eptir gjöf minni. Munum við koma til þín eptir nokkra stund, til að vita, hversu farið hefur. Gengu þeir síðan á burtu, og heyrði *Sadí* eigi þau gleði- og fagnaðarorð, er *Hassan* ljet fylgja þeim.

Var hann nú frá sjer numinn af kæti. Hann lokaði verksmiðju sinni, því að svo var hann sæll,

að hann fjekk sig eigi til að vinna; gekk hann nú út, og hugsaði um, hversu hann bezt fengi varið fje sínu. Loksins ásetti hann sjer, að taka tíu gullpeninga frá, og kaupa hamp fyrir þá. En hina hundrað og níutigi gullpeninga, sem eptir urðu, geymdi hann, svo vel sem unnt var, í höfuðdjásni sínu, svo að þeir eigi skyldu týnast. Síðan snjeri hann aptur til borgarinnar, tók með sjer fjóra menn, og keypti svo mikið af hampi, að bæði þeir og sjálfur hann varla fengu borið. Fór hann nú með hampinn heim til sín, og hugsaði með sjálfum sjer, að nú skyldi hann einu sinni halda veizlu heima hjá sjer; gekk hann því út á torgið, keypti stórt kjötstykki, og ætlaði að færa konu sinni, því að nú átti að sjóða og steikja, og lifa betur, en soldán í dýrð sinni. Meðan hann var að hugsa þetta með sjer, kom allt í einu stór gammur fljúgandi í loptinu, renndi sjer að *Hassan*, læsti klónum í kjötstykkið, og ætlaði á burtu með það. En *Hassan* hjelt fast, og sleppti ekki kjötinu. Þá fjell til allrar ógæfu höfuðdjásnið ofan af höfði honum, en þá sleppti gammurinn allt í einu kjötstykkinu, og áður en *Hassan* gat snúið við, náði gammurinn höfuðdjásninu með klónum, og flaug á burtu með það, og alla gullpeningana. Þá hljóðaði vesalings kaðlarinn upp yfir sig; fólkið á torginu öskraði með, og ætlaði að hræða gamminn til að sleppa húfunni. En gammurinn gaf sig ekki að ópinu, flaug áfram og hvarf. *Hassan* formældi forlögum sínum, og sagði mönnum frá, að hann hefði átt mikið fje fólgið í höfuðdjásninu, og vildi láta þá kenna í brjósti um sig. En margir trúðu honum ekki; sumir hæddust að honum, og hlóu að því, að

hann eigi skyldi hafa geymt fjár síns betur, en þetta. Fór *Hassan* þá heim, keypti sjer nýtt höfuðfat fyrir það, er hann átti eptir, og átti nú, í stað hinna tveggja hundraða gullpeninga, ekkert annað, en hampinn, kjötið og höfuðfatið. Þar að auki var hann smeikur við *Sadí*, að hann mundi reiðast, og kalla sig svikara og lygara. Var hann mjög hnugginn, þá er hann kom heim, og sagði konu sinni frá öllum óförum sínum. Konan grjet, og gjörði hann enn hryggari. En að stundu liðinni hresstust þau við aptur; varð *Hassan* aptur kátur, fór í verksmiðju, eins og áður, og gekk að vinnu frá morgni til kvölds.

Leið nú svo nokkur tími, og hugsaði nú hvorki *Sadí* nje *Alí* um *Hassan*, og hin tvö hundruð gullpeninga, sem hann hafði fengið hjá þeim. Bar þá svo við einhvern dag, að þeir gengu fram hjá kaðlasmiðjunni, og langaði *Sadí* nú mjög til að vita, hvað orðið væri af fjenu, og hvernig *Hassan* hefði varið því. Gengu þeir *Alí* þá inn í verksmiðjuna, og bjuggust þeir nú við, að öðruvísi mundi standa á fyrir kaðlaranum, en áður. En það brást þeim, því að *Hassan* var hinn sami, nema að því leyti, að hann hafði nýja húfu. Þá brosti *Alí*, og mælti: *Sadí*, nú máttu sjá, að eg hafði rjett að mæla, og hefur fje þitt eigi komið að neinu haldi. En *Sadí* varð reiður mjög, og spurði *Hassan* með ákefð mikilli, hvað hann hefði gjört við fjeð. Varð *Hassan* hræddur, er hann sá menn þessa koma inn í hús sitt, en samvizka hans var góð, og því sagði hann þeim satt og rjett frá öllu, er gjörst hafði. Ekki trúði *Sadí* honum samt, en mælti: eg vil eigi annað, en að þú kannist við það, að þú ljúgir öllu því, er þú nú hefur

sagt; því þess er eg viss, að þú hefur eytt fjenu til sællífis og munaðar, meðan það entist; því að þess hefi eg aldrei heyrt getið, að gammar ræntu höfuðfötum manna. Seg okkur nú satt frá öllu. En það gilti einu, hvað *Hassan* sagði; *Sadí* trúði honum eigi. Loksins tók *Alí* fram í ræðuna, og hjelt uppi svörum fyrir *Hassan*, og sagði frá nokkrum gammasögum, er hann þóttist sjálfur hafa lifað, og sem sefuðu *Sadí* nokkuð, en þótt undarlegar væru; en *Sadí* fyrirvarð sig fyrir *Alí*, og vildi eigi kalla aptur orð sín; heldur vildi hann voga annari pyngjunni til. Sagði hann því við *Alí*: vinur minn, atburður þessi sannar eigi hið minnsta, þó að það dæmi, er þú kemur með, sje á móti skoðun minni. Sjá þú, eg gef *Hassan* enn tvö hundruð gullpeninga; vonar mig, að honum takist betur í þetta sinn. Snjerist hann að *Hassan*, og mælti: taktu við þessu, en farðu vel með fjeð; og neyttu skynsemi þinnar, því hjálpi þjer ekki þetta, þá get eg eigi veitt þjer lið optar. Því að sjerhver hlutur hefur takmörk sín, og eins gjafmildi mín. Varð *Hassan* nú glaður mjög, og lofaði öllu góðu; enda hafði hann og hinn bezta vilja til að halda það; kvöddu þeir hann þá, og fóru leiðar sinnar.

Nú hugsaði *Hassan* vel um það, hvernig hann ætti að fara með fje sitt í þetta sinn; þótti honum nú eigi ráðlegt að geyma það í húfu sinni; hugsaði hann nú á marga vegu, en ekkert ráð líkaði honum. Þá er dimmt var orðið, lokaði hann smiðju sinni, ljet fjeð í vasa sinn, og fór heim til sín. Sá hann í stofu sinni gamla steinkrukku í skoti einu, er var full af moldarrusli, og heyi, og hafði staðið þar í mörg ár. Hugkvæmdist honum þá, að þar mundi

mega varðveita fjeð, því engum mundi detta í hug að hreifa við steinkrukkunni. Helti hann nú í mesta flýti, áður en konan og börnin komu inn, heyruslinu úr krukkunni, og ljet fjeð þar aptur niður í; síðan huldi hann það með ruslinu aptur, svo að ekki bar á neinu. Tók hann tíu gullpeninga frá, en talaði ekkert um þetta við nokkurn mann, og jafnvel ekki við konu sína, því að hann var hræddur um, að hún mundi segja frá því. Að því búnu fór hann að hátta.

Morguninn eptir fór hann snemma á fætur, tók hina tíu gullpeninga, er hann hafði tekið frá, leigði burðarmenn, og keypti svo mikið af hampi og hör, sem hann fjekk fyrir fjeð; ljet hann síðan bera allt heim. Meðan hann var á burtu, hafði konan eigi verið aðgjörðalaus á heimilinu. Hún heyrði, að kallað var úti á strætinu: sápa, kaupið sápu! datt henni þá í hug, að hún væri með öllu sápulaus, og þyrfti því að kaupa sápu. Nú vantaði hana fje, og meðan hún var að hugsa um, hvernig hún ætti að fá sjer nokkra skildinga, tók hún eptir steinkrukkunni, er stóð í skotinu; datt henni nú í hug, að láta hana fyrir nokkuð af sápunni. Hún tók krukkuna, fór með hana fram í dyrnar, og kallaði á eptir sölumanninum, er þegar var fús á að skipta; en konuna grunaði eigi, að hún hefði borgað hundrað og níutigi gullpeninga fyrir nokkuð af ódýrri sápu; var hún vel ánægð með kaupin.

Þegar *Hassan* kom heim, og var búinn að láta allt, er hann hafði keypt, á vísan stað, gekk hann fyrst og fremst þangað, sem steinkrukkan átti að vera; en af skelfingu var hann nær því hniginn til jarðar, er hann sá skotið autt, og að krukkan var horfin. Kallaði hann í skyndi á konu sína, og spurði

hana, hvað af krukkunni væri orðið. Varð konan mjög hýrleit við, og sagði honum, hversu heppin hún hefði verið, þá er hún skipti á krukkunni fyrir töluvert af sápu. En þá varð *Hassan* sem örvita, reif í skegg sitt og hár, og hrópaði: æ, mig ógæfusaman og auman mann. Tók hann höndum um höfuð sjer, barði konu sína, og sagði henni frá þeirri ógæfu, sem hann nú í annað sinn hlaut að þola, og kveinaði hástöfum. Konan varð dauðhrædd, og barmaði sjer líka út af þessari ógæfu; en hún kenndi manni sínum um það allt, og setti honum fyrir sjónir, að hann hefði átt að trúa henni betur, og þar að auki eigi að vera svo fávís, að láta svo mikið fje á slíkan stað. Þrættust þau út af þessu um hríð, og kenndi hvort öðru; en þar kom þó um síðir, að þau urðu að láta sjer þetta lynda; gullpeningarnir voru horfnir, og komu eigi aptur fyrir harmatölur einar. Það, sem kemur allt í einu, það fer og allt í einu. Var *Hassan* hinn sami fátæki kaðlari, og hann hafði áður verið.

Hryggur og sorgbitinn hugsaði hann nú um *Sadí* og *Alí*, og leið ekki langur tími, áður þeir komu einhverju sinni þar að verksmiðjunni. Ætlaði *Hassan* þá í fyrstu að skjótast undan, er hann sá þá, en það var um seinan, því þeir voru þegar búnir að koma auga á hann, og bar þá nú skjótt að. Varð *Sadí* fár við, er hann sá, að ástand kaðlarans eigi hafði umbreyzt, og ljet hann segja sjer frá, hvernig fjeð hefði glatast; en sagði, að *Hassan* ætti allt þetta skilið, og kvaðst hann nú eigi geta varið meiru fje til slíkra tilrauna; og hefðirðu átt að varðveita fje þitt betur, bætti hann við. *Hassan* mælti: herra, eg

á enga hirzlu í húsi mínu, er eg geti geymt fje í, og læst verði; en allt er opið hjá mjer, og gildir það einu; því að þar, sem ekkert er, þar verður engu stolið, og engu miðlað. Steinkrukka þessi hafði staðið afar lengi þarna í skotinu, og hafði engum dottið í hug, að fleygja henni eður farga. En varla var eg búinn að láta fjeð í hana, fyr en fjandinn hljóp í konuna mína, og sendi hana í sápukaup. Til fátæktar er eg fæddur, herra, og verður eigi úr því bætt.

Á meðan *Hassan* var að mæla þetta, varð *Alí* litið niður fyrir sig, og fann hann dálítið blýstykki; tók hann það upp, fjekk *Hassan* það, og mælti: vinur góður, nú mun eg reyna ofur lítið við þig, og gefa þjer blý þetta, er hjer hefur legið hirðingarlaust á jörðunni; má vel vera, að það færi þjer meiri heill, en gullpeningar þeir, er *Sadí* vinur minn gaf þjer fyr. *Hassan* brosti, en tók samt við blýinu, og ljet það í vasa sinn. En *Sadí* aptur á móti sagði í gremju sinni við *Alí:* Það er kynlegt, að þú skulir treysta svo auðvirðilegum hlutum, sem blý þetta er, þar sem tvö hundruð peninga ekki duga. *Alí* svaraði eigi, en hugsaði með sjer, að allt mundi vel fara. Gengu nú vinirnir á burtu. Í þetta skipti rjeðu þeir samt ekkert af um það, hvort þeir skyldu koma aptur, eður eigi, en þótt *Alí* fastlega rjeði með sjálfum sjer, að koma aptur eptir nokkra stund, og vita, hvernig gengi; því að honum fannst, sem ógæfa *Hassans* væri horfin, og gæfan mundi láta birtu sína bera yfir lífsferil hans.

Gekk kaðlarinn nú að verki sínu, sem ekki hefði í orðið, þar til er kvöld var komið; þá gekk hann

heim, og sagði konu sinni frá því, er gjörst hafði. Ekki hugsaði hann um blýið. Þá er hann hafði matast, komu börnin, eins og vant var, og knúðu á hann, að hann segði þeim sögu; varð hann að láta það eptir þeim.

Fiskimaður nokkur bjó þar í nágrenninu; datt manni þessum það kvöld í hug, að fara, og veiða í *Tígrisánni*. Sótti hann veiðarfæri sín, og gætti að, hvort þeim væri í nokkru áfátt; voru netin öll væn og sterk; en á eitt þeirra vantaði blýsökku, og þurfti hana þó eigi stóra. En hefði hann ekki hana, þá gat hann ekki lagt netið. Leitaði hann nú um allt hús sitt, en fann alls ekkert blý. Feginn vildi hann kaupa blý, en það var búið að loka öllum sölubúðum, og hjelt hann, að sjer mundi eigi takast, að vekja kaupmenn upp úr rúmum þeirra fyrir slíka smámuni; en morguninn eptir hlaut hann að vera kominn ofan að ánni, fyrir sólaruppkomu, því annars mundi hann eigi draga eina kind. Hann sagði því við konu sína: farðu til nágranna okkar, og reyndu, hvort þeir ekki geti hjálpað mjer. Fór konan nú til allra, en enginn gat hjálpað henni um neitt blý, enda þó þeir hefðu viljað; fór hún við það heim, og var eigi í góðu skapi. Ekki lá þá betur á manni hennar, og spurði hann hana, hvort hún hefði leitað fyrir hjá *Hassan* kaðlara. Kvaðst hún þá ekki hafa farið þangað, því að hún hefði eigi getað gjört sjer í hugarlund, að slíkur fátæklingur, er ekkert ætti sjálfur, mundi geta veitt þeim lið, og sagðist hún nú eigi mundi optar fara. En fiskimaðurinn reiddist, og rak hana á stað með harðri hendi. Fór konan nú til *Hassans*, og barði á dyr, þangað til upp var lokið.

Sagði hún nú frá erindi sínu, og ætlaði kona *Hassans* að láta hana fara við svo búið; en *Hassan* stökk sjálfur upp úr rúminu, fjekk konunni blýið, og þótti vænt um, að geta gjört nábúa sínum greiða. Kona fiskimannsins var líka glöð út af þessu, og lofaði *Hassan*, að hún skyldi senda honum alla þá fiska, er kæmu í fyrsta drætti. Síðan flýtti hún sjer heim, og þótti manni hennar vænt um, var hann og þegar fús á að efna heit konu sinnar.

Um morguninn fór hann ofan að ánni, og fjekk í fyrsta drætti einn fisk fagran og feitan, álnar langan. Festi hann nú í huga sjer, að þann fisk skyldi *Hassan* fá, og ljet hann niður í vatnskerið; en fiskurinn synti í kring, og buslaði. Var sem undarlegt töframagn hvíldi yfir neti fiskimannsins á þeim degi, því að í heilt missiri hafði hann ekki dregið svo marga fiska í net sitt; var hann því glaður mjög, og að enduðu verki sínu fór hann heim, og fjekk konu sinni þann fisk, er hann fyrst hafði veitt, en hún fór með hann til *Hassans*.

Hjer kem eg með fyrsta dráttinn mannsins míns, sagði hún við konu *Hassans*. Það er reyndar ekki nema einn karfi, en hann er feitur og stór, og væntir mig, hann muni verða gómsætur. Eg átti að skila hjartans þakklæti frá manni mínni mínum fyrir blýið; það hefur hjálpað okkur mikið í dag; og ef að þið skylduð þurfa einhvers við, vina mín góð, þá komið til okkar, því að' gjarnan viljum við launa góðvilja ykkar. Gekk hún síðan á burtu; en kona *Hassans* tók fiskinn, skar hann í sundur, og ætlaði að gæða manni sínum með honum, þá er hann kæmi heim frá vinnu sinni; því að hann hafði gengið til

smiðju snemma um morguninn. Þegar hún skar upp vömb fiskjarins, sá hún, að glitti í eitthvað, þá tók hún það innan úr fiskinum, og þvoði; hjelt hún að þetta væri fallegt glerstykki, en reyndar var það stór og dýrmætur rúbínsteinn; en hún hafði ekki vit á því. Ætlaði hún þá að fleygja steininum, en hugsaði sig um, að börnunum mundi þykja gaman að leika sjer að honum; fór hún inn í stofu, og fjekk þeim steininn. Ljeku börnin sjer að steininum, og hentu mikið gaman að honum, þangað til er dimmt var orðið; þá kom faðir þeirra heim, og móðir þeirra kveikti ljós. Tók þá eitt barnanna eptir því, að í hvort sinn, er steininum var haldið þar, er skugga bar á, þá lýsti af honum; og fengu nú hin börnin að vita þetta. Urðu þau nú ólm eptir að gjöra þessar ljósatilraunir með steininn, og hripsaði hann hvað af öðru; vildu smábörnin og hin lítilsigldari ekki þola slíkt, en þau æptu hátt upp yfir sig, svo að *Hassan* varð að skipa þeim að þegja. Þau þögnuðu um stund, og hvísluðu og hlóu hvað í eyrun á öðru, svo að faðir þeirra eigi skyldi heyra það; en bráðum hófust aptur óp, köll og háreysti, svo að *Hassan* varð fokreiður, og spurði börnin, hvað þau væru að hafast að. Gekk þá elzta barnið fram, og sagði upp alla sögu. *Hassan* varð forvitinn, og tók við steininum, og hjelt á honum í lófa sjer, lýsti af honum, svo sem af ljósi. Var nú kallað á móðirina, og þótti henni gaman að, þangað til faðirinn kallaði: nú er nóg komið, allir í rúmið! En börnin hlýddu boði hans, afklæddust, og fóru að sofa, öll fimm í einu rúmi; gátu þau samt ekki sofnað, því að steinninn stóð þeim allt af fyrir hugskotssjónum.

Faðir þeirra tók nú steininn, og ljet hann upp á hillu eina; sagði móðirin þá frá, á hvern hátt hún væri að honum komin; furðaði *Hassan* sig reyndar á því, en hjelt þó, að steinninn væri ekki annað en gler; því að hvorki hann nje kona hans höfðu vit á eðli gimsteina. Slökkti hann nú ljósið, en steinninn ljómaði svo skært af hillunni, að albjart varð í stofunni, og var sem ljós logaði. Og sem börnin litu þetta, varð engu tauti við þau komið; þau ruku upp úr rúminu, og dönsuðu um gólfið með slíku háreysti og ópi, að ekkert heyrðist til föður þeirra, þó hann kallaði af öllu megni, til að banna þeim. Loksins þreif hann hvað af öðru, og fleygði þeim í rúmið, og skipaði þeim af alvöru, að liggja kyrrum, svo að þau eigi hjeldu vöku fyrir fólki, er bjó í nálægum húsum. Þetta dugði, börnin sofnuðu, og *Hassan* mælti nú við konu sína: líttu á, blýið hans *Alís* hefur þó veitt okkur tvo hluti, nefnilega fagran fisk, og ljós um vetrartímann; því meðan við eigum stein þenna, þurfum við ekki annað ljós.

Rjett við hliðina á *Hassan* bjó gyðingur nokkur auðugur að fje, og átti feikn af gulli og silfri; sá verzlaði með gull og gimsteina. Svefnherbergi hans var þannig háttað, að milli þess og stofu *Hassans* var einungis örþunnt þil. Nú vaknaði gyðingurinn um nóttina, við hávaðann í börnunum, og vakti hann konu sína, og mælti: heyrir þú ekki hávaðann og dansleikinn inni hjá honum nágranna okkar; það fer ekki hjá því, að eitthvað nýrra hefur við borið; skaltu nú fara þangað snemma á morgun, og vita, hvað um

er að vera; lofaði konan nú þessu; bráðum varð allt hljótt, og ekkert heyrðist.

Morguninn eptir gekk *Hassan* snemma til smiðju; og eptir að hann var kominn að heiman, kom kona gyðingsins til konu *Hassans*, og fór að skrafa um sitt hvað; en loksins spurði hún, hvað láta það hefði verið hjá þeim um nóttina. Kona *Hassans* mælti: eg fann skrítinn hlut í fiski einum, og hafa börnin hann fyrir leikfang; það er eins og gler, en samt lýsir af því myrkri svo skært, að við ekki þurfum neins ljóss við. Um leið og hún sagði þetta, tók hún steininn ofan af hillunni, og sýndi konunni hann. En er hún leit hann, þá sá hún þegar, að þetta var hinn fegursti rúbínsteinn, sem hún á allri æfi sinni hafði sjeð; en hún var eigi öll þar sem hún var sjeð, og talaði því ekkert um ágæti steinsins; heldur hló hún að þessum atburði, og spurði, hvort steinninn ekki fengist keyptur. Hann er reyndar einskis virði, sagði hún, en eg á annan öldungis eins, og ætla eg að láta smíða mjer eyrnagull, ef eg fæ þenna stein keyptan. Bauð hún konunni eitthvað lítilsháttar fyrir steininn, og ljezt ekki hirða, hvort hún fengi hann, eður eigi. Kona *Hassans* ætlaði og að fara að fá henni steininn; en börnin tóku að skrækja og hljóða, og urðu ær; hvíslaði hún þá skjótt til gyðingakonunnar, að hún skyldi heldur koma seinna, og fá steininn. Sá nú kona gyðingsins, að hún ekki mundi fá steininn í það sinn; en hún lagði ríkt á við konu *Hassans*, að sýna engum steininn, eður selja hann; fór hún nú heim til sín, og sagði manni sínum upp alla sögu. Hann svaraði: kona góð, þenna stein hljótum við að kaupa, hversu dýr sem

hann verður; því sje hann eins, og þú lýsir honum, þá á hann sjer engan líka á jarðríki, og allur auður heimsins hrekkur ekki til, eigi menn að borga fyrir hann eins mikið, og hann er verður. Samt verðum við að reyna til að fá hann fyrir lítið; skaltu þess vegna fara í kvöld til *Hassans*, og bjóða fyrst lítilræði fyrir hann, til þess, að hjónin ekki fari að reigja sig; því að þau eru fátæk, og má vel vera, að þau láti steininn við lítilræði einu; en renni þau ekki strax á agnið, þá hlýtur þú að bjóða þeim meira, og kaupa steininn, hvað sem hann kostar. Um kvöldið fór gyðingskonan aptur inn til konu *Hassans*, og sagði við konu hans: vina mín góð, eg hefi sagt manni mínum frá steininum, og vill hann gjarnan eiga steininn, sjer til skemmtunar; viljið þjer selja hann? En kona *Hassans* vildi ekki, því að hún hugsaði, að maður hennar mundi reiðast, ef hún seldi steininn án hans vitundar. Þá varð kona gyðingsins smeik, og sagði: vinkona góð, eg skal gefa yður tuttugu gullpeninga fyrir steininn. En kona *Hassans* var ekki heldur heimsk, og fór hana að gruna eitthvað, en hún sagði rólega: eg sel ekki steininn, fyr en maðurinn minn kemur heim; þá bauð gyðingskonan henni fimmtigi gullpeninga, og sextigi bauð hún henni, og sjötigi, og áttatigi, og níutigi, og hundrað. Þá kom *Hassan*. Kona hans fór á móti honum, og mælti: maður minn, nábúakona okkar vill gjarnan kaupa stein okkar, og hefur þegar boðið hundrað gullpeninga fyrir hann; en eg vildi eigi selja hann, fyr en þú kæmir; getur þú nú sjálfur selt hann, ef að þú vilt svo. *Hassan* furðaði með sjálfum sjer á slíkum boðum, og grunaði hann nú,

að þetta mundi ekki vera gler eingöngu, og sagði við gyðingskonuna: stein þenna sel eg eigi, nema við miklu verði. Varð gyðingskonan nú hreint frá sjer, og bauð þúsund gullpeninga, því næst tvær þúsundir, og allt að fimmtigi þúsundum. Þá mælti *Hassan:* það sje eg, að þjer viljið gjarnan eignast stein þenna, og skuluð þjer fá hann, en þó ekki fyrir minna, en hundrað þúsundir gullpeninga. Ef þjer viljið gjalda það fje, þá er ekkert um að tala; en ef þjer eigi viljið það, þá sel eg hann öðrum, og má vel vera, að eg hljóti meira fyrir hann, því það veit eg, að steinninn er meira verður; en yður vil eg láta sitja fyrir honum, fyrir sakir gamallar vináttu og góðs sambýlis. Svo miklu fje þorði gyðingskonan eigi að lofa, nema hún spyrði mann sinn leyfis. Fór hún nú heim í flýti, sótti hann, og sagði, að hann yrði sjálfur að enda kaupin. Vildi gyðingurinn láta áttatigi þúsunda gullpeninga fyrir steininn, en *Hassan* reiddist, tók steininn, og ætlaði á burtu; vildi hann eigi ráðgast framar um þau kaup. Í ángist hjarta síns lofaði gyðingurinn þá þeirri borgun, sem *Hassan* heimtaði, og voru nú kaupin fest með þeim. Kvaðst gyðingurinn samt ekki eiga svo mikið fje fyrirliggjandi, og sagði, að hann yrði að láta sjer nægja tvær þúsundir gullpeninga þann dag, en lofaði hinu, sem á vantaði, daginn eptir. Ljet *Hassan* sjer það vel líka, og hljóp nú gyðingurinn heim til sín, og kom aptur með tvo poka, og þúsund gullpeninga í hvorum; en deginum eptir kom hann með níutigi og átta poka, og þúsund gullpeninga í hverjum, var steinninn þá borgaður með gulli, og orðinn eign gyðingsins. En *Hassan* var svo auðugur orðinn, að

hann átti nóg fyrir sig að leggja alla æfi, enda þó að hann hefði hætt allri vinnu; en það gjörði hann eigi, heldur fór hann til allra kaðlara í *Bagdað*, og gjörði við þá þann samning, að þeir þaðan í frá skyldu vinna fyrir hann, og eigi selja optar nokkurn hampspotta fyrir sjálfa sig; líkaði þeim öllum vel boð *Hassans*. Síðan ljet hann reisa stórkostlegar búðir víða í borginni; fluttu allir kaðlarar þangað vinnu sína, og fengu þegar borgun fyrir. Höfðu þeir allir ábata á því, en *Hassan* samt helzt, því að allir þeir, er þurftu, hlutu að snúa sjer til hans, og kaupa kaðla, reipi og snæri, í sölubúðum hans. Eptir að hann þannig hafði rýmkað um sig, og komið iðn sinni í blóma, byggði hann sjer hús, er fremur líktist höll, en íbúðarhúsi handiðnamanns, og bjó hann þar nú um hríð, og ávann sjer hylli og virðingu borgarmanna.

Nú bar svo við einhvern dag, að *Sadí* og *Alí*, vinirnir, voru á skemmtigöngu; komu þeir þá af hendingu þangað, er *Hassan* kaðlari fyrrum hafði átt lítilfjörlega verksmiðju. Þeir minntust á hann, hvor við annan, og er þeir ekki fundu hann, spurðust þeir fyrir, og fengu að heyra hluti þá, er þeim þótti undrum gegna. Vildu þeir nú leita uppi hús *Hassans*, og sækja hann heim, því að af hans eigin munni vildu þeir fá að heyra, hvort hann í raun og veru væri orðinn svo ríkur, sem allir luku einum munni upp um. Komu þeir nú von bráðara að hinu dýrðlega húsi. Þá er þeir litu höll þá, er sagt var, að *Hassan* byggi í, trúðu þeir ekki eigin augum, og spurðu einhvern, sem fram hjá gekk, hvort það væri satt, að hjer byggi *Hassan* kaðlari. Var þeim þá

svarað, að svo væri, en að *Hassan* þessi væri sjálfur ekki kaðlari, heldur vellauðugur stórkaupmaður. Furðaði þá á þessu, og börðu þeir að dyrum. Lauk þjónn einn, dýrðlega búinn, upp fyrir þeim, og vísaði þeim inn í fagurlega prýtt herbergi, og bað þá að bíða þar. Kom hann nú bráðum aptur, og fylgdi *Hassan* honum; en *Hassan* var hinn gamli, kunnugi vinur *Sadís* og *Alís*. En er hann sá þá, faðmaði hann þá, og varð nú fagnafundur mikill; spurðu vinirnir nú að öllu upp aptur, og ljetu hann segja sjer alla sögu. Hætti *Hassan* nú ekki fyr, en *Sadi* og *Alí* lofuðu að dvelja hjá honum nokkra stund, og sýndi hann þeim nú allt, er hann hafði um sig, búðirnar, hvelfingarnar, og hin ómælanlegu og ómetanlegu feikn allskonar auðs, sem var orðinn eign hans; síðan sýndi hann þeim öll herbergi sín, og þótti þeim hvort öðru dýrðlegra. Á meðan var búin veizla í borðsalnum, og var þar fram borið nóg af alls konar rjettum og sælgætum, en að lyktum komu þjónar, og færðu þeim vín og sætan drykk silfurkerum; lá vel á öllum, og var gleði mikil og skemmtan í salnum.

Daginn eptir kom *Hassan* til vina sinna, er þeir voru vaknaðir, og mælti þannig: kæru og ágætu vinir, sje ykkur það ekki ógeðfellt, þá munum vjer í dag skemmta oss úti á *Tígrisánni;* tveim mílum hjeðan hefi eg látið reisa mjer skemmtigarð, og er í kringum hann fagur aldinreitur; þar er og kona mín og börn, og langar mig nú að láta hana sjá vini mína og velgjörðamenn; því að eg hefi sagt þeim mjög af ykkur, og unna þau ykkur mikillega; væntir mig, að það muni eigi alllítið gleðja þau, að sjá ykkur. Leizt

þeim nú vel á uppástungu þessa, og tóku þeir morgunverð. Síðan stigu þeir allir á bát, er fagurlega var búinn blaktandi blæjum, dúkum og blómkerfum. Klauf nú báturinn árstrauminn heldur liðlega, en sólin ljómaði á himinboganum, og gladdi þá með veðurblíðunni; fannst mönnum vegurinn ekki langur, er ekki vantaði gamanyrði og skemmtilegar samræður; og fyr, en þá varði, lá hinn dýrðlegi skemmtigarður *Hassans* fyrir sjónum þeirra; stigu þeir nú á land, og komu á hina fögru aldinreiti, er voru stórir og unaðlegir; því að hvervetna blikuðu og ilmuðu hinar fegurstu blómjurtir; greinar trjánna svignuðu undir þunga ágætra ávaxta, og margar þeirra voru studdar með stoðum, svo að þær ekki skyldu brotna eður sligast undir hinni safaþrungnu byrði. Hægra megin við skóginn lá mörk ein mikil, þjettvaxinn æfargömlum eikum; en vinstra megin var skemmtigarðurinn sjálfur. Börnin höfðu sjeð til þeirra, fyr en þá varði; hlupu þau óðfluga upp um hálsinn á föður sínum, með kossum og fegins látum; og sáu vinir *Hassans* þá, að hann var eins góður faðir, og hann var duglegur kaupmaður. Síðan kom kona hans, og sýndi *Hassan* henni nú vini sína, *Sadi* og *Alí;* varð nú gleði svo mikil, að þeim fannst öllum, sem væru þau til himins upp numin, og lá við sjálft, að *Sadi* og *Alí* sæi ofsjónum yfir gæfu vinar þeirra. Gengu menn nú bráðum inn í húsið, nutu hinna sætu ávaxta úr aldinreitinum, og skemmtu sjer á ymsan hátt, unz kvöld var komið.

Liðu nú nokkrir dagar, og datt engum í hug, að snúa aptur til borgarinnar. Bar þá einhverju sinni svo við, að *Hassan* sat ásamt með gestum sínum á

sjónarpalli einum fyrir framan skemmtigarðinn, og voru menn að undrast hina fögru útsjón yfir garðinn, ána og skóglendið, og töluðu um leið um tilbreytingar lífsins og um hverfleika forlaganna. *Sadí* mælti: vinur minn, kannast þú nú hreinlega við, að gæfa þín eigi sje fólgin í blýstykki því, er *Ali* gaf þjer, heldur í hinum fjórum hundruðum gullpeninga, er þú fjekkst hjá mjer; reiðstu mjer ekki, þó að eg eigi trúi sögu þinni; eg get með engu móti trúað henni. Gramdist *Hassan* nú tortryggni *Sadís,* og gat hann ekki sannað mál sitt með öðru, en ást sinni á sannleikanum og rjettlætinu; en *Ali* studdi orð hans eptir megni; varð nú deila ekki alllítil, og kom mönnum eigi saman. En á meðan þeir deildu þannig, komu tveir elztu synir *Hassans* með kennara sínum að sjónarpallinum; færði annar þeirra föður sínum undarlegt fuglshreiður, og mælti: líttu á, faðir góður, hreiður þetta fundum við í skóginum uppi í trje einu; tókum við það ofan, því að það er fljettað í gamalli húfu, og virðist okkur það merkilegt. *Hassan* tók við hreiðrinu, og sagði, hrifinn af undrun: lítið á, vinir mínir, hjer er nú höfuðdjásnið, er eg ljet gullpeningana í, og hljóta þeir að vera þar enn; þykir mjer vænt um, að eg get sýnt ykkur það, að eg hafði rjett að mæla; takið eptir því, hve listilega hreiðrið er ofið, svo að manna höndur mega ekki slíkt vinna. Lítið og á hve slitinn dúkurinn er og upplitaður; má sjá það, að húfan hefur í mörg ár legið undir berum himni. Urðu nú vinir *Hassans,* og þó einkanlega *Sadí,* orðlausir; svo gekk yfir þá. Leystu þeir nú upp dúkinn, og fundu bráðum, að *Hassan* hafði satt að mæla, og að húfan mundi lengi hafa

verið í eikinni; tók *Hassan* nú á burtu hrísgreinar, hálm, og fjaðrir þær, er hreiðrið var af ofið, og rakti í sundur dúkinn; fjellu þá gullpeningarnir niður með hljómi miklum; og er þeir voru taldir, þá voru þeir hundrað og níutigi. Varð *Sadí* nú að láta síga undan, og mælti hann þá: að vísu er þessi hlutur með undarlegu móti; og hefði eg ekki sjálfur sjeð þetta með eigin augum, þá mundi eg aldrei hafa trúað því, að gammar ræntu höfuðdjásnum af mönnum, en ljetu kjöt óhreift. Nú er önnur gátan ráðin, en hin er óráðin, og mun eigi ráðin verða; því á því hlýt eg að vera, að uppspretta auðlegðar þinnar sjeu hin önnur tvö hundruð gullpeninga, er eg gaf þjer. Varð *Alí* nú reiður yfir þrályndi þessu, og ætlaði á burtu, en *Hassan* hjelt honum, og mælti: eins og guði hefur þókknast að sanna sannsögli mína í þetta sinn, eins má vera, að honum þókknist það í annað sinn; statt þú við tortryggni þína, vinur minn; eg hugga mig við góða samvizku, og við það, að *Alí* vinur okkar heldur með mjer. Hættu þeir nú deilu þessari. En *Hassan* geymdi vandlega hið gamla og fornfálega höfuðdjásn, og þótti honum vænna um það, en þótt það væri rifið og upplitað, en um tíu önnur ný.

Liðu nú margir dagar, þar til er *Sadí* loksins minntist á, að mál væri að komast eitthvað áleiðis heim; vildu vinir hans þá ekki verða eptir. Bauð *Hassan* nú, að söðla skyldi fjóra persneska reiðhesta; og er þeir höfðu neytt matar, riðu þeir á stað til *Bagdað;* fylgdi þeim einn þjónn. Á leiðinni komu þeir að veitingahúsi einu, og vildi *Alí* fá sjer þar að drekka, því heitt var mjög úti. Stigu þeir nú af

baki, og voru hestarnir leiddir að stalli, því að *Hassan* heimtaði hey handa þeim. En hússbóndinn komst í vandræði, því að hann átti hvorki bygg nje hey, og gat ekki heldur útvegað það, því hús hans lá mjög langt frá byggðum; sagði hann loksins við þjóninn: heyr þú, hjer er gömul steinkrukka með heyrusli í, það getur þú fengið, og munu hestarnir ekki ganga frá því. Tók þjónninn nú steinkrukkuna, er annað var ekki að fá, gekk til hestanna, og stráði heyinu í stallinn fyrir þá. En sem hann tók hendinni niður í krukkuna, fann hann, að eitthvað var á botninum, og tók það upp; það var þá fullur peningapoki. Varð þjónninn nú glaður, og hugsaði, að nú mundi hússbónda sínum þykja vænt um; því að honum var kunnugt, hvernig á öllu stóð. Tók hann nú krukkuna, fór með hana til þeirra *Hassans*, og mælti: krukku þessa vildi eg sýna yður, var hún fyllt með heyrusl, er eg gaf hestum vorum, en í henni er peningapoki, og væntir mig, að þjer munuð kannast við þessa hluti. Skoðaði *Hassan* nú krukkuna í krók og kring, og pokann líka; þekkti hann hvorttveggja vel, og mælti við *Sadí:* nú máttú eigi lengur segja, að eg fari með ósannindi, því að með þessum hlutum sannar drottinn sjálfur mál mitt. Far þú, sagði hann við þjóninn, og kalla þú á hússbóndann; mun hann geta sagt oss, hvernig á þessu stendur. Sótti þjónninn nú hússbóndann, en hann kvaðst hafa keypt krukkuna af manni nokkrum, er verzlaði með sápu, kvaðst hann ekkert hafa hirt um krukkuna, og, ef til vill, aldrei mundi hafa munað eptir henni, ef að nú ekki hefði svo staðið á, að hann hefði verið fóðurþrota. Þá mælti *Alí* við *Sadí:* nú hlýtur þú að

láta undan, og máttú nú sjá, að lukka og tilviljun eru opt heilladrjúgari, en stórfje. Varð *Sadí* að kannast við þetta; umfaðmaði hann þá *Hassan*, og beiddi hann fyrirgefningar á því, hve lengi hann hefði tortryggt hann. Fyrirgaf *Hassan* honum fúslega, því að hann vissi, að öllum getur á orðið; og var hann glaðari, en frá megi segja. Keypti hann krukkuna af hússbóndanum, og fjekk þjóninum hana til varðveizlu, því að hann ætlaði að geyma hana, eins og menjagrip; en hinum þrem hundruðum og átta tigi gullpeninga, er hann hafði hlotið á svo óvæntan og óvenjulegan hátt, skipti hann, með leyfi *Sadís* og *Alís*, á meðal fátækra þurfamanna í *Bagdað*. Festu þeir *Hassan*, *Sadí* og *Alí* órjúfandi vináttu með sjer, og lifðu síðan vel, og guði þókknanlega.

---

# Hinn blindi.

Hinn vitri Kalífi *Harún Raskið* (það er: hinn rjettláti) ljet sjer ætíð harla annt um, að efla farsæld þjóðar sinnar og heill ríkisins. En honum var það vel kunnugt, að embættastjórar hans opt og tíðum vanræktu skyldur sínar, þá er þeir hjeldu, að eigi mundi verða gætt að skeytingarleysi þeirra, og að þeir þess vegna eigi þyrftu að óttast reiði Kalífans. Tók hinn vitri stjórnari opt dularbúning, svo að hann varð með öllu ókennilegur; gekk hann þá á meðal manna, tók eptir öllu, og njósnaði um alla hluti; og finndi hann, að rangsleitni væri nokkursstaðar í frammi höfð, ljet hann að vörmu spori leiða hinn seka fyrir rjett, og dæmdi hann hörðum og rjettlátum dómi. Var breytni þessi ágæt og lofsverð, og líkaði vel; enda unni þjóðin drottni sínum hugástum.

Á þann hátt komst *Harún* opt að mörgum hlutum undarlegum. Svo bar við eitthvert kvöld, þegar næstum því var aldimmt, að hann gekk, ásamt með ráðgjafa sínum *Giafar*, er hann hafði mikið traust á, um göturnar í *Bagdað*. Voru þeir báðir klæddir í múnkakápur mjög fátæklegar. Þá heyrði Kalífinn einhverja biðjandi rödd, er hrópaði: hverjir sem þjer eruð, er gangið hjer, þá kennið í brjósti um blindan mann, og gefið honum ölmusu! Strax sem *Harún* heyrði þessi orð, tók hann upp gullpen-

ing, og bauð *Giafar* að fá hann hinum blinda manni. *Giafar* hlýddi. Auminginn þakkaði fyrir og mælti: fullkomnið nú velgjörning yðvarn, herra, og rekið þjer mjer utan undir, fyrir ágirnd mína. Ráðgjafinn hló,, og hjelt, að fátæklingurinn væri að gjöra að gamni sínu, ætlaði hann þá að fara á stað, á eptir Kalífianum, sem var kominn spölkorn á undan, en fátæklingurinn ítrekaði bæn sína, þangað til ráðgjafinn ljet eptir honum, og kom dálítið við kinnina á honum. Fannst honum samt eitthvað svo undarlegt vera við bæn hins blinda manns, að hann sagði Kalífanum frá henni, þegar hann náði honum. *Harún* langaði til að að vita orsökina til slíkrar bónar; bauð hann því *Giafar* að snúa aptur, og koma með blinda manninn til hallar sinnar. *Giafar* hlýddi, og sótti aumingjann, er fleygði sjer niður fytir fótskör Kalífans. Óttastú ekki, mælti *Harún*, það á ekki að gjöra þjer neitt illt, þú átt einungis að segja mjer æfisögu þína, og af hverri orsök þú vilt láta menn reka þjer utan undir.

Herra, mælti hinn blindi maður, það er hegning, sem eg hefi sjálfur lagt á mig, fyrir sakir ágirndar minnar og ásælni. Heyrið sögu mína, og munuð þjer þá finna. að hegning þessi er í raun og veru veru of lin fyrir afbrot mitt. Þegar faðir minn andaðist, var eg ungur, 18 vetra að aldri; var arfur minn ekki mikill auður; en eg hafði hraustan líkama, og löngun til að vinna. Það lítið, sem eg erfði eptir föður minn, hafði eg til að kaupa varning fyrir, fór eg með hann til fjarlægra staða, og seldi hann þar sem hann var í háu verði. Tókst mjer vel verzlunin, og varð eg innan skamms svo efnaður, að eg

átti áttatigi úlfalda, sem eg ljeði öðrum kaupmönnum fyrir kaup, þegar eg þurfti þeirra ekki sjálfur við.

Einhverju sinni bar svo við, að eg var á ferð með úlfalda mína, og gengu þeir lausir. Kom eg á skuggsælan stað á leiðinni, en vegurinn lá um óbyggðir, fannst mjer þar svo unaðlegt, að eg batt eykina saman, og lagðist sjálfur niður í skugganum, hjá lind nokkurri, er var umkringd af pálmum og platantrjám. Þegar eg var rjett lagztur niður, kom múnkur nokkur, og settist niður hjá mjer. Hann yrti vinalega á mig, og spurði mig ýmissa hluta; fannst mjer, sem honum þætti skemmtilegt að vera hjá mjer. Þegar við höfðum talast við um hríð, mætti hann: vinur minn, eg hefi fengið velvilja til þín, skal eg launa þjer, og gjöra þig svo ríkan, að engi konungur á jarðríki eigi meiri auð en þú. Eg veit af dýrðlegri höll, skammt hjeðan, undir jörðunni; en salir hennar og hvelfingar eru fylltar gulli og gimsteinum. Inngangur hennar opnast eptir boði mínu, en af því eg eigi þarf auðæfa við, og eg þar að auki ekki get komið neinu á burtu, þar sem eg hefi enga eyki, þá skal eg leyfa þjer, að klyfja úlfalda þína með svo miklu fje, sem þeir geta borið. Í ofsa-gleði minni fleygði eg mjer niður fyrir fætur múnksins, kyssti fald klæða hans, og þakkaði honum af innstu rótum hjarta míns. Og svo ákaflega hreif gleðin mig, að eg gaf honum einn af úlföldunum, og hjet honum öllum þeim gripum, er hann gæti klyfjað hann með. En það datt mjer ekki í hug, að múnkurinn hafði heitið mjer svo miklum auði, að það, er eg hjet honum, væri til háðungar

og aðhláturs. Ágirndin var risin upp í hjarta mínu í jötunmóði, og iðraðist eg þegar þess, er eg hafði heitið að gefa honum, því mjer fannst, sem hinir sjötigi og níu úlfaldar, sem eptir voru, ekki væru allir til samans eins mikils verðir, og sá hinn eini, sem eg hafði lofað að gefa burtu. Múnkurinn skildi, hvað eg hugsaði, og vildi refsa mjer dálítið; hann mælti: þú sjerð ekki rjett, vinur minn, ef þú heldur, að eg sje ánægður með einn klyfjaðan úlfalda; það er nóg, ef þú færð hjá mjer fjörutigi; en hina aðra fjörutigi hlýtur þú að láta mjer eptir. Eg leitaðist við, að fá hann til að taka aptur orð sín, því eg varð dauðans hræddur yfir þessum ásetningi hans; setti eg honum fyrir sjónir, að hann hafði ekkert við auð að gjöra, og, og ef hann vildi verða ríkur, þá væri hin ágæta höll allt af opin fyrir honum; eg sagði honum, að hann yrði að gjöra mig alveg farsælan, og þá mundi eg kunna honum þakkir alla daga. En múnkurinn ætlaði að hegna mjer, og ljet eigi af ásetningi sínum. Hlaut eg loksins að gjöra það, er hann vildi; því hvað átti eg að gjöra? hefði eg á endanum ekkert fengið! Batt eg nú úlfaldana saman, og stigum við á bak tveim hinum fríðustu, svo að við gætum komist sem skjótast áfram, því hjartað barðist í mjer, af áfergju og löngun eptir hinum lofaða auði.

Á skammri stundu komum við í dal nokkurn þröngan, mændu þar breiðir og feikna háir hamragarðar í himin upp. Þar námum við staðar; fór múnkurinn af baki, og bauð mjer að gjöra slíkt hið sama; síðan tók hann staf einn, er hann hafði hulið undir skikkju sinni, og gekk að hamrabeltinu. Þeg-

ar hann var þangað kominn, reiddi hann stafinn upp, sló þrisvar sinnum á klettinn með honum, og hrópaði þrisvar sinnum: andar sprota míns, opnið fjallsdyrnar! Þá heyrði eg gný í loptinu, eins og þegar stormvindur hvín yfir skógareikum, og allt í einu klofnaði hamarinn í sundur með óttalegum skruðningi, og breiðar og háar dyr sýndust vera á fjallinu. Kom þú inn, og óttastú ekki, sagði múnkurinn, og gekk inn um dyrnar; en eg fylgdi honum eptir. Sá eg þá slíka hluti, sem eg eigi hafði fyr sjeð. Fyrir framan okkur lá höll mikil, með ramlegum múrveggjum og háreistum turnum; var það allt höggvið úr einum kletti. Eigi voru þetta manna verk; en múnkurinn sagði mjer, að andar jarðarinnar hefðu gjört bygginguþessa. Við komum inn í fagran sal einn; og varð eg nærri því utan við mig, er eg leit allan þann auð, er þar var saman kominn. Eg fleygði mjer yfir gullhrúgurnar, og rótaði að mjer öllu því, er eg náði í; og fyllti eg alla vasa á klæðum mínum af gulli. Múnkurinn skipti sjer í fyrstu ekki af, hvað eg gjörði; en mælti loksins: ágirnd þín gjörir þig blindan, því þú tekur það, sem minnst er í varið. Líttú hjer á þessar gimsteinahrúgur; þær eru þúsund sinnum meira verðar, en gull það, er þú hefur tekið. Eg sá, að múnkurinn hafði rjett að mæla; sótti eg því poka, og fyllti þá öldungis með demöntum, safírum, og öðrum dýrindis steinum. Gullinu fleygði eg á burtu, eins og væri það sjávarmöl. Svo var ákefð mín mikil, að svitinn bogaði eptir enninu á mjer; enda voru og hinir áttatigi úlfaldar innan skamms tíma svo klyfjaðir, að þeir másuðu og stundu undir bögg-

unum; og sjálfur gat eg eigi meira borið. Engu að síður var svo mikið eptir, að það sást varla, að átta tigi úlfaldaklif hefðu verið burtu tekin. Ljet eg þá múnkinn vita af því, að nú væru úlfaldarnir búnir til burtferðar; tók eg þá eptir því, að hann gekk þar að, sem bláleit krukka stóð, tók niður í hana, og tók upp úr henni dálítinn stokk, úr einhverju sjaldgæfu trje; ljet hann þetta á sig. Annað hafði hann eigi á burtu með sjer, en ekki gaf hann sig að gullinu, nje gersemunum. Óðar en við vorum komnir út úr klettadyrunum, lukust þær aptur með óttalegum dunum, og sá engi vegsummerki. Þá sagði múnkurinn: *Abdala,* veldú þjer nú fjöru tigi úlfalda, og stefndu til austurs, en eg mun halda í vesturátt. Mælti hann þessi orð með svo mikilli alvörugefni og tign, að eg eigi þorði á móti að mæla; kaus eg mjer þá úlfaldana, og hjelt í austurátt, eptir að eg hafði kvatt múnkinn.

Eg var varla kominn tíu faðma frá honum, fyr en eg snjeri mjer við, og horfði á eptir honum, þar sem hann fór á burtu með fjöru tigi úlfalda frá mjer. Sýndist mjer honum veita örðugt, að koma þeim áfram, eður eg ímyndaði mjer það að minnsta kosti, til þess eg fengi ástæðu til að fara á eptir honum, ef svo mætti takast, að eg gæti haft út úr honum nokkra eyki. Kallaði eg nú á eptir múnkinum, og mælti: bíddu dálítið, vinur góður, eg ætla að segja þjer frá nokkuru merkilegu, bíddu mín og stattu við. Síðan hljóp eg allt sem fætur toguðu, en múnkurinn beið. Þá mælti eg: kæri herra minn og vinur, það sje eg, að þjer eigið ákaflega bágt með að ráða við þessa fjöru tigi úlfalda, og koma þeim áfram; þjer

eruð óvanir þeim starfa, og munu þeir allir strjúka frá yður, ef þjer ekki sleppið nokkrum af þeim. Gefið þjer mjer tíu úlfalda; það er þó hægra að eiga við þrjá tigi, en við fjöru tigi. Múnkurinn brosti, og mælti: þú hefur satt að mæla, *Abdala*, veldú þjer tíu eyki. Varð eg nú harla glaður, og valdi mjer eykina; síðan kvaddi eg hann, þakkaði honum fyrir, og hjelt á burtu. En múnkurinn hjelt aptur í vesturátt. Þegar eg náði eykjum mínum, varð eg hryggur að nýju, því að mjer fannst eg endilega verða að ná meira auði, og það truflaði gleði mína. Hugsaði eg og um, hversu fús múnkurinn var á, að veita mjer bæn mína, og gat eg nú eigi haldið mjer frá, að snúa við. Múnkurinn var ekki kominn langt á veg, heyrði hann úr mjer köllin og ópin, og fjekk mjer aptur tíu úlfalda. En ágirnd minni var enn eigi fullnægja gjörð: eg vildi einnig hafa hina tuttugu, sem eptir voru, og sjá, herra, og fjekk þá líka.

Nú munuð þjer halda, herra, að eg væri ánægður, þar sem eg átti átta tigi úlfalda, er allir voru klyfjaðir með hinum dýrustu gersemum. Auður minn var svo mikill, að eg mundi hafa getað keypt öll ríki veraldarinnar og þeirra dýrð. En svo var eg blindaður orðinn af ágirnd, að eg vildi einnig eignast trjestokkinn litla, er múnkurinn tók úr bláu krukkunni. Vei ágirnd minni! Enn einusinni hljóp eg á eptir múnkinum, fleygði mjer fyrir fætur honum, ljezt vera mjög hryggur, felldi tár, og mælti: herra minn góður, mjer er ómögulegt, að láta yður fara á burtu, fyr en eg fæ að vita hjá yður, hver sje náttúra trjestokksins, er þjer hafið undir klæðum yðar; er hann án efa dýrmætastur alls þess, sem á

jörðunni er. Þjer verðið að láta þetta eptir mjer. Þá varð múnkurinn mjög alvarlegur, og var sem dimmt ský drægi yfir ásjónu hans. Ógæfusami maður, mælti hann með hárri röddu, heimta þú eigi dauða sjálfs þín! Eg hefi gjört þig auðugri en alla þá, sem lífi eru gæddir, og þó ertú svo óþakklátur, að vilja svipta mig hinu síðasta, er eg á eptir. Far þú frá augum mjer, og kom þú aldrei aptur. Að svo mæltu ætlaði hann að fara á burtu; og sæll væri eg, ef eg þá hefði hlýtt boði hans. En það lá við sjálft, að eg yrði vitlaus af ágirnd, því eg kveinaði, beiddi, særði og grjet, þar til er múnkurinn tók upp trjestokkinn, opnaði hann, og sýndi mjer, að ekkert var í honum annað, en smyrsl nokkur, óálitleg að sjá. Sjá, mælti hann, það eru augnasmyrsl. En eg trúði eigi orðum hans, og hótaði að veita honum bana, ef hann ekki segði mjer frá náttúru þessara smyrsla. Þú skalt fá að vita það, sagði múnkurinn, þó það verði þjer til ógæfu. Taki menn svo sem títuprjónshöfuð af þessum smyrslum, þá sjá menn öll auðæfi jarðarinnar, hvert sem þau eru fólgin í námum og fjallaklungrum, eður í gjám, eður í sjávardjúpum. En núi menn hægra augnalok með smyrslunum, þá hylur eilíf starblinda augum manna ljós sólarinnar og ljóma stjarnanna. Varla hafði eg heyrt þessi orð, fyr en eg beiddi múnkinn að núa vinstra auga mitt með smyrslunum; gjörði hann svo, og í einu vetfangi sá eg, hvort sem eg leit, ógrynni auðæfa, hvar sem hezlt þau fólust, og sannaði eg þannig orð múnksins og hreinskilni. En samt trúði eg eigi því, sem hann hafði sagt mjer frá náttúru smyrslanna að hinu leytinu; en eg þóttist sannfærð-

ur um, að þegar hægra augað væri núið, þá mundi eg verða fær um að ná öllum þeim auðæfum, er eg sá. Svo fastur var eg í þessari trú, að eg nærri því með ofríki neyddi múnkinn til að smyrja hægra auga mitt. Færðist hann lengi undan, en einmitt það styrkti mig, hinn blindaða, í trú minni. Loksins ljet hann undan nauðugur; og eg varð falinn eilífri, óttalegri og dimmri starblindu. Of seint sá eg, að þrái minn var heimska ein, og of seint sá eg, að vanþakklæti og ágirnd fá ætíð rjettlát gjöld. Eg örvænti nú öldungis, og grátbændi múnkinn um, að vísa mjer leið, og fara með mjer; en hann kenndi ekkert í brjósti um mig, rak úlfaldana saman, og hjelt á burtu með allar gersemarnar. Lengi hlustaði eg eptir fótataki eykjanna, það heyrðist allt af minna og minna, unz það hætti öldungis.

Nú var eg orðinn einn saman í óbyggðum, blindur, matarlaus, og kvalinn af ávítun samvizku minnar; því mjer var tjón mitt sjálfum að kenna. Þá strengdi eg þess heit, að biðja sjerhvern mann að gefa mjer utan undir, ef eg kæmizt lífs af. Lestafólk, er af hendingu fór fram hjá, sá mig, þar sem eg lá í sandinum, og var kominn að dauða af hungri; fannst þó lífsmark með mjer, og tóku mennirnir mig með sjer, af meðaumkvun. Hjelt lest þessi til *Bagdað*, og á þann hátt komst eg fyrir mörgum árum til höfuðborgar þinnar, konungur. Sökum þess, að eg var blindur, var eg eigi hæfur til neinnar vinnu; úlfaldar mínir voru horfnir mjer, og eg neyddist til að beiðast ölmusu; voru það aum úrræði fyrir þann mann, sem hafði verið auðugastur allra lifenda. Eg stóð á hinum fjölförnustu strætum borgarinnar, og beiddi hvern,

er fram hjá gekk, um ölmusu og pústur. Þannig hefur þú hitt mig, voldugi drottinn hinna rjetttrúuðu, og heyrt afdrif þess manns, er rataði í ógæfu, en verðskuldaði hana enn fremur.

Hinn blindi maður þagnaði, en Kalífinn mælti: *Abdala,* þú hefur fengið þunga hegningu, og virðist mjer, sem nógar bætur sjeu komnar fyrir afbrot þitt. Fyrir krapt veldis míns leysi eg þig frá heiti þínu. Eg kenni í brjósti um þig; þú skalt eigi lengur þurfa að ráfa um kring á strætunum, og beiðast ölmusu; skaltu vera hjá mjer, og fá herbergi til að búa í, og mann til fylgdar, þá er þú vilt ganga út. Þakka þú mjer ekki, þú hefur þolað hegninguna; lifðu hjeðan af í friði og ró.

Þannig mælti hinn eðallyndi konungur, og allt var gjört, sem hann bauð. En *Abdala* lifði lengi, og blessaði ætíð *Harún Raskíd.*

---

# Aladín.

Það er í frásögum haft, að í *Bagdað* hafi búið skraddari nokkur, er átti son; sá hjet *Aladín*. En sonur þessi var föður sínum með öllu gagnslaus, og var bæði latur og hyskinn að auki; mundi það eigi hafa verið fjarri lagi, þó að hann hefði verið barinn á degi hverjum. En það var nú ekki svo haft, og ólst því upp í strák þessum ár frá ári ómennska og óstýrilæti; var hann á strætum úti frá morgni til kvölds, átti í óeyrðum við aðra stráka, og smánaði stundum gamla og æruverða menn. Setti faðir hans honum fyrir sjónir, hvílík væri breytni hans og athæfi; en slíkar ræður máttu sjer eigi mikils, og festi *Aladín* það ekki á band. Sem hann nú var orðinn svo fullþroska, að hann var fær um að stunda nokkura iðn, mælti faðir hans við hann: *Aladín!* á morgun skaltú fara að nema skraddaralist; skilur þú? náði þig drottinn, ef þú eigi bætir þig, og gjörist iðinn; en það segi eg þjer, að eg hefi eigi í hyggju, að hlífa þjer, heldur mun eg láta bak þitt kenna á pálmastikunni, ef þú eigi gætir þín, hefur hún rjett úr mörgu bognu trje, og tamið margan gárunga. Þetta líkar mjer vel að heyra, mælti *Aladín*, og hljóp þegar á burtu í strákaflokk mikinn, var hann þar í mestu ólátum þangað til um kvöldið, og hugsaði ekki um orð föðnr síns. Morguninn eptir ætlaði

hann út að vanda sínum, en hinn gamli gætti að öllu, og í því *Aladín* ætlaði út um dyrnar, greip faðir hans í treyjukragann á honum, og mælti: hvort á að halda, letingi? strax upp í verkstofuna, og tak þjer nál í hönd, og sauma þú af kappi, því nú er letilíf þitt á enda. Varð *Aladín* nú nauðugur viljugur að fara að sauma, því pálmastikan hjekk á veggnum, og var voðaleg; hafði *Aladín* fengið að kenna á henni áður, og kærði sig eigi um að endurnýja þann kunningskap. Saumaði hann nú kappsamlega um hríð, en undir eins og faðirinn snjeri við honum bakinu, fleygði hann öllu saman á burtu, stökk ofan af stólnum og brauzt út um dyrnar. Reyndar átti hann von á barsmíð, er hann kæmi heim aptur, en hann var vanur að hrista af sjer höggin, eins og hundur hristir af sjer vatn; og hló hann þá að öllu með sjálfum sjer. Leið nú þannig eitt ár, og varð faðir hans sjúkur, og deyði að nokkrum tíma liðnum. Sá móðir *Aladíns*, að hann mundi aldrei nenna að stunda neina iðn, og seldi hún því skraddarasmiðjuna með öllum áhöldum og verkfærum; fjekk hún svo mikið fje fyrir, sem hún komst af með til lífsuppheldis. Gat *Aladín* nú lifað og látið sem hann vildi, því hinn eini, er hann hafði nokkurn ótta af, var nú frá, og móðir hans rjeði ekkert við hann, enda þó hún hefði viljað, því hann var þegar orðinn fimmtán vetra, og var hinn hraustasti. Var hann nú allan liðlangan daginn úti á strætum, sóaði tímanum til ótjerlegs gárungsháttar, og hugsaði ekki hót um komandi og ókomna tíð. Þá er hann einhvern morgun var að leikfangi með fleiri drengjum úti á torgi, bar svo við, að aldraður maður nokkur kom gang-

andi á götunni, staðnæmdist hann ekki langt frá drengjunum, og horfði um stund á leik þeirra. Tók hann eptir *Aladín*, og hugsaði með sjer, að slíkur drengur mundi verða sjer að notum. Spurðist hann nú fyrir hjá verzlunarmönnum nokkrum um *Aladín*, og sögðu þeir honum út í hörgul, hvernig á honum stæði. Að því búnu gekk hann til drengjanna, tók *Aladín* á eintal, og mælti: vinur góður, heitir faðir þinn ekki *Mústafa*, og er skraddari? *Aladín* kvað svo vera, en sagði hinum aldraða manni, að faðir sinn væri andaður fyrir sex vikum. Er hann dáinn! mælti hinn aldraði maður; þá hefur mig of seint að borið; mjer átti þá ekki að auðnast að sjá bróður minn aptur? Undrastú ekki, ungmenni; eg er föðurbróðir þinn, og er aptur kominn heim eptir miklar langferðir; vildi eg nú skipta auði mínum milli mín og bróður míns. Sá eg þig þá hjer á torginu, og þekkti þig strax, því þú ert harla líkur föður þínum; var hann eins fagur ásýndum, og þú, er hann var á þínum aldri; er mjer mikill missir að honum. Faðmaði hann nú *Aladín*, bróðurson sinn, og kveinaði og grjet; en *Aladín* vissi ekkert, hvaðan á sig stóð veðrið, því hann hafði aldrei heyrt talað um neinn föðurbróður. Spurði hinn aldraði maður þá, hvort móðir *Aladíns* væri á lífi, og hvar hún ætti heima; en *Aladín* leysti úr öllu. Tók öldungurinn þá fulla lúku sína af gullpeningum upp úr vasanum, fjekk *Aladín* fjeð, og mælti: sonur góður, færðu móður þinni lítilræði þetta, og láttu hana búa til kvöldverð góðan, því að áliðnum degi mun eg koma á þenna stað, skaltu þá vitja mín hingað, og fylgja mjer heim til þín, svo eg megi kynnast við tengda-

systur mína. Skundaði *Aladín* nú á burtu, og kom heim hissa, og með öndina í hálsinum. En sá hinn aldraði maður var hvorki bróðir *Mústafa* skraddara, nje föðurbróðir *Aladíns;* heldur var hann frægur töframaður, en þó fullur illsku, frá *Suðurálfu;* var hann kominn til *Bagdað*, til þess að ná fjársjóðum nokkurum afar miklum, er voru grafnir í jörðu, skammt frá borginni. En þann hlut mátti hann eigi fremja einn, og ætlaði hann sjer að fá *Aladín* til aðstoðar, er honum virtist hann ágætlega til þess fallinn. — Kom nú *Aladín* til móður sinnar, sem áður er sagt, og hrópaði: móðir mín, eg hefi fundið föðurbróður minn, og er það hinn ríkasti maður í heimi; gull þetta fjekk hann mjer, og bauð mjer að færa þjer. Var konunni með öllu ókunnugt um að maður hennar heitinn hefði átt nokkurn bróður, og hristi hún höfuðið og mælti: það mundi víst ekki vera, að þú hefðir stolið gulli þessu, drengur minn! — drottinn varðveiti mig, móðir góð, mælti *Aladín*, hvernig má þjer detta slíkt í hug. Segi eg þjer satt frá, að föðurbróðir minn er kominn, og mun koma til þín í kvöld, og neyta kvöldverðar; er nú ráðlegast, að þú takir til í húsinu og hreinsir, því mjer segir svo hugur um, að frændi minn hafi ógrynni auðs. Gat konan þá ekki að gjört, og bjó til ágætan kvöldverð; huggaði hún sjálfa sig með því, að maður þessi mundi sjálfur segja frá, hvernig á hlutum þessum stæði. Að kvöldi kom töframaðurinn; var hann dýrðlega búinn að klæðum; en *Aladín* fylgdi honum. En sem hann var inn kominn, hrópaði hann: hjer eru þá hinar fornu stöðvar *Mústafa,* bróður míns! hjer hefur hann lifað og unnið! Sárt tekur

það mig, að sjá hann eigi. Hve mikið mundi það eigi hafa glatt hann, er eg á óvæntum tíma hefði flogið í faðm honum! Ástkæra tengdasystir! eg hefi haft mikla ást á manni þínum sælum; fyrirgef mjer, að söknuðurinn hrífur mig! Og grjet hann nú og bar sig hörmulega, en konan grjet með, og sjálfur *Aladín* tók að veina hástöfum; var þetta raunaleg sjón. Leið stund nokkur, áður þau hættu harmakveini þessu, og gætu talast við af viti. Sagði töframaðurinn þá nákvæmlega af ferðum sínum, og smíðaði allliklega. Fór eg, mælti hann af flærð sinni, burtu frá ættarborg minni og *Mústafa* fyrir fjörutigi árum, og vildi eg kanna ókunn lönd; hefi eg og farið um allar landsálfur heimsins, *Indíaland, Sýrland* og *Persíu, Egiptaland* og *Arabíu, Kínaveldi* og *Tyrkland;* en um hin síðustu tíu ár hefi eg verið í *Suðurálfu* heims. Hefi eg safnað miklum auði; og sem eg þóttist nógu auðugur orðinn fyrir mig og ættmenn mína, fór eg aptur til *Bagdað,* til þess að lifa í ró og friði hjá bróður mínum það sem eptir væri æfinnar. En hann er nú dáinn — en þú, kæra tengdasystir, og þú, *Aladín,* þið munuð bæta nokkuð úr missi mínum; vil eg setjast að hjá ykkur fyrir frændsemis sakir. Vil eg spyrja ykkur, hvort eg sje yður ekki velkominn? Er ekki að orðlengja það, að ríkum frænda stendur ætíð opið hús ættar sinnar, hvar sem hann kemur að, og ekki sízt, þegar hann er svo gjörður, að hann telur ekki skildinginn. Rjetti gamla konan honum þá höndina, og faðmaði hann hálfklökk, og þó brosandi um leið; en *Aladín* stökk upp og lagði hendur um háls honum og mælti: Vertu kyrr, frændi góður, við munum bera þig á

höndum okkar. Var það þá afráðið, að hann skyldi staðnæmast þar. Síðan frjetti hinn aldraði maður eptir, hvaða iðn *Aladín* stundaði, og hvort hann hefði numið nokkura mennt. Þagði *Aladín* þá, því hann skammaðist sín fyrir leti sína, og setti dreyrrauðan; en móðir hans mælti þá: það hlýt eg að segja yður, virðulegi tengdabróðir, að drengur þessi hefur ekkert gjört á æfi sinni annað, en strákahnikki og glettur einar; hefur hann ekki ósjaldan orðið að kenna á pálmastikunni hjá föður sínum, og fengið margar góðar áminningar; en ekkert dugði. Vildi faðir hans láta hann læra skraddaralist, en hann var með öllu óhemjandi, og hljóp á burtu í hvort sinn, er faðir hans leit af honum; hefur hann ollað mjer mikillar mæðu og gremju, og læt eg hann nú lifa eptir geðþótta sínum. Má hann minna vegna maula grjót eða deyja af hungri, er hann er gamall orðinn; eg fyrir mitt leyti er saklaus að því. Var *Aladín* nú allur á glóðum, meðan á þessari ræðu stóð, og þorði ekki að mjamta, því móðir hans hafði satt að mæla. Þá mælti hinn aldraði maður, að tengdasystir sín skyldi ekki verða svo æf, því mjer virðist, sagði hann, að *Aladín* eigi líti svo út, sem hann mundi liggja í leti daglangt, mun honum hafa þótt skraddaraiðnin fremur leiðinleg, og má ekki á því hafa, því það veit eg af reynslunni, að ungmenni eiga að hrista úr sjer það ofsa fjör, er æskunni fylgir. Látið mig ráða, kona góð, eg er ekki úrkula vonar um, að eg muni hitta á einhverja iðn, er honum muni líka. Hvað mundi þjer virðast um verzlunarstarfa, *Aladín*? Svo sem til að mynda dúka og klæðaverzlun? Mundir þú þá eigi vera

iðjulaus, og kynnast mörgum mönnum og háttum þeirra. — Til þess langar mig harla mikið, mælti þá *Aladín,* en hvaðan á eg að fá fje til þess; eg get hvorki hrist gullpeninga fram úr ermum mjer, nje heldur tekið þá upp af jörðunni. Kærðu þig ekki um slíkt, mælti hinn aldraði maður, því fje hefi eg nóg, og munar mig ekki um nokkurar þúsundir gullpeninga. Munum við hugsa um þenna hlut á morgun, og ganga nú að sofa. Stóð hann þá upp, og kvaddi, því að langt var liðið á kvöld, og kominn háttatími. Fylgdi *Aladín* honum heim til hans, og kom aptur glaður í huga, því hann var frá sjer numinn af orðum töframannsins. Sagði þá móðir *Aladíns* við son sinn, að hann skyldi þakka guði, er hann hafði sent honum slíkan frænda, því að það væri sannarleg gæfa; og mundi að öðrum kosti ekkert hafa úr honum orðið. Hraðaði *Aladín* sjer þá þegar í rúmið, því hann var hræddur um, að hann mundi fá lengri ávítunarræðu hjá móður sinni. Kom nú töframaðurinn morguninn eptir, og sótti *Aladín;* gengu þeir nú úr einni sölubúð í aðra, og mælti hinn aldraði maður nokkur orð við sjerhvern kaupmann, því hann sagði, að *Aladín* þyrfti að kynnast við þá, og þeir við hann. Komu þeir þá loksins til kaupmanns eins, er hafði föt að selja, og bauð töframaðurinn *Aladín,* að hann skyldi velja sjer falleg föt, því hann sagði, að í kyrtli sínum gæti hann ekki lengur verið, og að hann skyldi velja eptir eigin geðþótta sínum, og ekki hirða um verðið. Leitaðist *Aladín* nú fyrir, og keypti loksins búning, forkunnar fagran; varð hann nú að skipta klæðum, og borgaði hinn aldraði maður orðalaust. Bauð hann þá, að

*Aladín* skyldi skoða sig í spegli; en er *Aladín* sá sjálfan sig, var hann orðinn svo umbreyttur og fagur, að hann roðnaði út af sjálfum sjer, og hljóp um háls töframannsins og hrópaði: hversu má eg þakka þjer þessa gjöf, frændi góður? skulum við nú fara til móður minnar, því hún verður að sjá mig í dýrð minni. Brosti hinn aldraði maður þá, og gengu þeir *Aladín* nú báðir til gömlu konunnar; en hún gladdist mjög, er hún gat að líta svo fagurt ungmenni, og þakkaði hinum örláta öldungi mikillega. Bíðið nú lítið eitt, kona góð, því að þessa hluti gjöri eg ekki ókeypis, og hljótið þjer að gjöra eina bón mína. Svo stendur á, að eg hefi í kvöld boðið nokkrum vinum mínum heim til mín', til veizlu, og vildi eg þjer leyfðuð *Aladín* að fara þangað líka, því það er nauðsynlegt, að hann venjist á, að vera með siðuðum mönnum. Á morgun er helgur dagur, og ætla eg að ganga til skemmtunar með honum út fyrir borgina, muntú því ekki sjá hann aptur fyr en annað kvöld. — Farið þjer á burtu með drenginn, sagði móðir hans, en þú, *Aladín,* vert hæverskur, og frænda þínum til sóma. Já, móðir mín, mælti *Aladín,* vertú óhrædd, og gengu þeir nú heim til töframannsins. Voru þá þegar nokkrir gestir komnir, en hinir komu smám saman, og varð nú gleði mikil. En *Aladín* var kátur mjög, og skemmti öllum með ýmsu móti langt fram á nótt. Snemma morguninn eptir fóru þeir frændur á stað, og út úr borginni, og allt af á milli aldingarða og stórbygginga; sýndi töframaðurinn sveininum ótal hluti, og ljet hann taka eptir öllu því hinu merkilega og fagra, er fyrir þá bar, og var það bæði margt og mikils vert.

Vissi *Aladín* nú ekki, hvort hann átti helzt að horfa, og gekk áfram, án þess hann mæddist eður þreyttist. Komu þeir nú loksins svo langt frá borginni, að byggingar voru fáar orðnar á leið þeirra, og borgarturnarnir eygðust að eins í þoku; sagði töframaðurinn þá sveininum frá mörgum undarlegum hlutum, en *Aladín* hlustaði á með undrun, því slíkar ræður höfðu undarleg áhrif á hann. Loksins komu þeir í dal einn lítinn og þröngan, og voru til beggja hliða hálsar allháir, en í dalnum var ekki fagurt. Þá mælti töframaðurinn: hjer munum við nema staðar, *Aladín*, og ef þú ert hugaður og djarfur, þá muntú sjá þá hluti, sem þú aldrei fyrri hefur sjeð, hvorki í svefni nje vöku. Viltú nú fara að ráðum mínum, og gefa þig mjer á vald á þessum degi? Eg heiti þjer því, að þjer skal engin hætta búin, og að þú megir vera með öllu óttalaus; þú þekkir mig, og veizt, að eg vil þjer vel. En *Aladín* var bæði sterkur og hraustur, og þar að auki djarfur; og grunaði hann ekkert um illan tilgang vinar síns. Sagði hann því í grannleysi: frændi minn, þú hefur þegar auðsýnt mjer mikla velgjörninga, og hefi eg því traust á þjer; seg mjer því, hvað þú vilt, að eg gjöri. — Þess var von af þjer, mælti öldungurinn, og muntú ekki iðrast. Skaltu nú safna saman nokkru af þessum hrísgreinum, er liggja hjer á víð og dreif, en eg mun kveikja upp eld. *Aladín* gjörði sem hann bauð; bar hann nú saman mikið af þurrum greinum, hrísi og laufum, og lagði í búnka, þar, sem töframaðurinn sagði fyrir. Kveikti töframaðurinn nú upp eld, og lifnaði nú brátt í viðarkestinum, síðan tók hann dupt nokkuð upp úr vasa sínum, og fleygði

nokkru af því á eldinn; steig upp reykur mikill, en töframaðurinn tautaði í sífellu galdraþulur og særingar, og lagði reykinn eptir því til ymsra hliða. Þá titraði jörðin fyrir miklum þrumugný og opnaðist, og kom í ljós marmarasteinn, og eirhringur í. Varð *Aladín* hræddur af undrum þessum, og vildi sem skjótast á burtu; en töframaðurinn bauð honum með hörðum orðum að vera kyrrum. Vertú grafkyrr, heimskingi, mælti hann; nú er allt gaman á enda, og þú hlýtur að fullkomna það, sem þú hefur byrjað; en að öðru leyti mun eg kenna þjer hlýðni, ef þú optar ætlar á burtu án leyfis míns. Rak hann sveininum pústur svo mikinn, að hann fjell, og snjeri fótum í lopt upp. Frændi minn góður, mælti hann, þetta mun eg aldrei optar gjöra, en berjið þjer mig ekki. Stattú upp, mælti töframaðurinn 'þá, og var nokkuð mýkri í orði, og óttastu ekki; en varastu slík heimskupör framvegis. Mun eg nú ganga þjer í föður stað, og hlýtur þú að hlýðnast mjer í öllum hlutum. Muntú eigi gjöra það ókeypis, því þú munt bráðum geta að líta þau auðæfi og gersemar, er þú munt fyrir það hljóta. Hressti *Aladín* nú upp hugann, og sagði : frændi góður, víst er um það, að eg hefi heimsklega breytt; en látið af reiði yðvarri, og mun eg bæta mig.

Það er vel, mælti töframaður, skaltu nú taka vel eptir orðum mínum. Þessi steinn, sem eirhringurinn er í, hylur hin mestu auðæfi, er á jörðunni finnast. En allur sá auður er ætlaður þjer, og enginn annar', en þú, má hefja marmarabjargið upp af legi sínu. Eg sjálfur, sem hefi leitt stein þenna í ljós, má ekki snerta hann, og ekki ganga ofan í

jarðhús það, sem undir honum er. Skaltu nú þegar hefja steininn frá jarðhússmunnanum. Það má eg ekki, mælti *Aladín*, því steinn þessi er svo mikill og þungur, að tveir hestar munu ekki draga hann á burtu. Reyndu, mælti töframaður, taktú í hringinn, og muntú lopta bjarginu. Tók *Aladín* nú í hringinn, og fannst honum steinninn ekki þyngri en fjöður; lypti hann honum nú frá jarðhússmunnanum; og var þrepgangur niður þangað. Þá mælti töframaðurinn: Eins og þjer hefur þetta tekist, svo muntú einnig hið annað af hendi leysa, og muntú verða auðugri en nokkur annar maður. Skaltú nú draga fingurgull þetta á hönd þjer, og mun þjer þá ekkert granda; muntu nú stíga niður í jarðhúsið eptir þrepum þessum; muntu finna dyr í hellinum, þær skaltu opna, og muntu þá ganga í gegnum þrjá mikla hvelfda sali; er þar alsett miklum og fögrum gullkerum, sem fyllt eru gulli og silfri. Er það samt ráð mitt, að þú snertir ekkert þessara hluta, því það getur orðið þinn bani; ósýnilegir andar varðveita gullkerin, og skilja þeir ekkert glens. Skaltu einnig varast, að láta kyrtil þinn núast upp við vegginn, og haltú honum að þjer. En sem þú ert kominn út úr hinum þriðja sal, þá muntú koma í aldingarð einn mikinn og fagran; er þar alsett ágætum aldintrjám, og liggur stígur nokkur í gegnum garðinn. Þann stíg skaltu ganga, unz þú kemur að musteri einu litlu, algyltu, og liggur stigi af silfri, með þrjátigi þrepum, upp í musterisdyrnar. Í musterinu er altari, og stendur þar á lampi einn lítill, úr járni; ljós brennur á lampanum. Skaltu því næst taka lampann, slökkva ljósið, og hella því

úr, er í honum er af ljósmeti; en síðan skaltu geyma lampann vandlega á brjósti þjer. En um það bið eg þig, og særi þig við allt, sem í heimi er, að þú geymir lampann vel; þá er þú hefur vel komið honum fyrir, getur þú snúið aptur, og þarft eigi að óttast; þá máttú taka aldini af trjánum, og gull og silfur úr kerunum, eins mikið, og þú fær borið; máttu eiga alla þá hluti, og þarftú eigi að færa mjer annað, en lampann. Enn segi eg þjer, að varðveita lampann vel; far þú nú; munum við báðir verða auðmenn, er þú ert aptur kominn.

Þetta líkar mjer vel, mælti *Aladín,* og mun eg ekki verða lengi. Gekk hann nú skyndilega ofan þrepin, og hvarf. Síðan gekk hann óhræddur í gegnum hina þrjá sali, og leit hvorki til hægri nje vinstri hliðar, svo að hann eigi freistaðist til að taka gull og silfur úr kerunum; hjelt hann og kyrtlinum vandlega að sjer, og komst loksins klaklaust út í aldingarðinn. Var þar eins bjart, og á jörðu uppi, og fann hann bráðum musterið gullna, tók járnlampann af altarinu, hellti úr því, sem í honum var, og varðveitti lampann síðan. Skildist honum eigi, hvað frændi hans mundi ætla að gjöra við lampann, og þótti honum, sem hann mundi geta keypt fjölda slíkra lampa í *Bagdað.* Flýtti hann sjer nú ekki eins mikið út, og hann gjörði, er hann gekk inn, og litaðist um í aldingarðinum. Blikuðu þar mörg og ljómandi aldin á milli dimmra laufa; sum voru gul, sum hvít; en sum rauð sem purpuri, græn eður blá; voru þau ýmislega löguð. Langaði *Aladín* nú mjög til að smakka á þessum hinum fögru ávöxtum, og gjörði hann sjer það í hugarlund, að þau mundu vera góm-

sæt mjög. Náðu margar greinar svo langt að jörðu niður, að hann þurfti eigi annað, en að rjetta hendi til, og taka aldinið; tók hann nú epli eitt, er næst honum var, og beit í, en vann ekki á, því það var hart, sem tinna; varð hann þess nú vísari, að aldin þessi voru ekki með þeim hætti, sem ávextir þeir eru, er vaxa ofan jarðar. Varð hann þá fyrst hálfgramur, en hugsaði sig um, og vildi færa móður sinni nokkuð af aldinum þessum, er hann ímyndaði sjer að væru ýmislega litað gler, og einkis virði, en það brást honum; því allir þessir hlutir voru hinir dýrmætustu gimsteinar, miklu fegri en þeir, er á jörðu finnast; var sjer hver einn þessara steina meira verður, en konungs ríki, og óborgandi með fje. Allt þetta hjelt nú *Aladín* að væri gler tómt, og fyllti vasa sína að gamni sínu, og þar að auki poka, er hann hafði með sjer. Var hann nú búinn að fá svo mikið, að hann varla gat risið undir byrðinni; og fór hann nú á stað, og gekk hann um salina, og upp eptir þrepstiganum. En göngin voru nokkuð þröng, og veitti *Aladín* örðugt, að komast áfram með byrði sína, er eigi var alllítil. Hann hrópaði þá: frændi minn, hjálpið þjer mjer dálitið að komast upp. Ertu kominn aptur, *Aladín,* mælti töframaðurinn, og varð glaður mjög, það er vel, en rjettu mjer lampann fyrst, mun eg síðan hjálpa þjer. Fyrst verð eg að komast úr þrengslum þessum, mælti *Aladín,* get eg engan veginn hreift mig hjer, og hefi eg höndurnar fullar af ávöxtum og gripum; hjálpið þjer mjer fyrst. En töframaðurinn var hræddur um, að það væri ætlan *Aladíns,* að halda sjálfur lampanum, þá er hann kæmi upp úr jarðhúsinu,

og vildi því eigi hjálpa honum út, heldur krafðist hann þess fastlega, að *Aladín* skilaði af sjer lampanum fyrst. Mælti *Aladín* þá loksins, er þráttan þessi hafði gengið um hríð: það stendur mjer öldungis á sama, eg get vel setið hjer, þangað til á morgun, en lampanum sleppi eg eigi, fyr en eg er upp kominn, enda þó eg eigi að svelta í hel, því hann var orðinn þrár og reiður út af ógreiðvikni þess, er hann hjelt vera frænda sinn. Varð töframaðurinn þá með öllu frá sjer af heipt og reiði, er hann heyrði þessi orð *Aladíns;* og ímyndaði hann sjer, að *Aladín* nú víst mundi taka frá sjer lampann, og kallaði hann með óttalegri röddu: verði þjer að orðum þínum, mannfýla! deyja skaltu og kviksetjast! Og sem hann hafði þannig mælt, tautaði hann nokkur særingaryrði fyrir munni sjer, og fyrri en *Aladín* fjekk stokkið upp úr hellinum, lokaði marmarasteinninn munnanum; var sveinninn þar undir niðri, og eigi annað sýnna, en hungursdauði mundi fyrir honum liggja; hló þá töframaðurinn eigi litið. En maður þessi var, eins og fyr er sagt, engan veginn frændi *Aladíns,* heldur fjölkunnugur og illur töframaður frá *Affríku;* hafði hann fundið það og komist eptir með vjelum og töfrareikningum, og þó með mikilli fyrirhöfn og langvinnri iðju, að í grend við *Bagdað* væri geymdur töfralampi í helli nokkrum; og gæfi lampi sá sjer hverjum þeim, er átti hann, ráð yfir hinum voldugustu öndum. Töframaðurinn neytti allra krapta og kunnáttu, til þess að ná honum, og sem hann eigi sjálfur mátti stíga fæti sínum í hellismunnann eður jarðhúsið, þá hafði hann fengið *Aladín* sjer til hjálpar, og bjóst við, að

geta gjört við svein þann slíkt er hann vildi. En honum brást bogalistin, ag iðraði hann nú helzt þess, er hann fjekk *Aladín* fingurgullið góða, er varðveitti hann. Varð töframaðurinn þá að taka það til bragðs, að snúa aptur til *Affríku,* því hann óttaðist, að slík tilraun að nýju mundi verða sinn bani.

Sat nú *Aladín* þar í hellinum dimma, sem sæti hann í gröfum dauðra manna, og sá nú ekkert annað fyrir, en bana sinn. Grjet hann þá, og kallaði svo hátt sem hann mátti, á frænda sinn, og lofaði að hlýðnast honum framvegis; en frændi hans var á burtu farinn. Stóð hann nú upp, og leitaði að dyrum þeim, er voru að sölunum; en þær voru harðlæstar. Þá hvarf honum hinn síðasti vonargeisli, og settist hann grátandi á þrep eitt; þar sofnaði hann út úr gráti og hugarvýli, og vaknaði ekki fyr en eptir tvo sólarhringa. „Æ, hrópaði hann, eg hefði aldrei átt að vakna, eg aumi maður! Og sem hann mælti þetta; njeri hann saman höndunum, svo fingurgullið knúðist; — en *Aladín* var með öllu ókunnugt um náttúru þá, er því fylgdi. Varð hellishvelfingin allt í einu dýrðlega uppljómuð, og fyrir framan *Aladín* stóð andi einn mikill og hræðilegur sýnum. Sá mælti með drynjandi raustu: hvað vilt þú? Andar hringsins eru í þinni þjónustu; þræll þinn er eg. Varð *Aladín* í fyrstu óttasleginn mjög, en hressti brátt upp hugann, og mælti djarflega: getur þú flutt mig á burtu hjeðan? Skipa þú, mælti andinn. Þá mælti *Aladín:* þá skaltú setja mig fyrir utan múrveggina á *Bagdað.* Og á sama augnabliki tók andinn hann, en jörðin klofnaði, og skjótur sem elding flaug andinn á burtu með *Aladín,* og voru

þeir að vörmu spori komnir að *Bagdað.* Setti andinn hann þá niður, og spurði: hvað viltú meira? Ekkert, mælti *Aladín,* kann eg þjer þakkir, og mun eg nefna þig, er mjer liggur á. En andinn hvarf þegar, og skundaði *Aladín* nú heim til móður sinnar. Var hann þá orðinn fölur og svangur, og sem móðir hans sá hann, stökk hún út á móti honum og gladdist mjög, því hún hjelt, að hann væri dauður, eður burt numinn af hinum illa töframanni. Faðmaði hún hann, og grjet af gleði, því hún átti eigi fleira barna. En *Aladín* leið í ómegin, og fjell á legubekk einn, og sem hann var raknaður við, beiddi hann um mat; bjó nú móðir hans í skyndi til mat handa honum; en hann borðaði með lyst mikilli og ákefð, er hann eigi hafði mat smakkað í þrjá daga. Og sem hann var mettur, sagði hann móður sinni upp alla sögu, um illsku töframannsins, og um allt sem fyrir hann hafði borið. Endaði hann frásögu sína þannig: lít nú hjer á, móðir góð, til sönnunar orðum mínum hefi eg hjer lampann og mikinn fjölda gagnsærra aldina úr hellisdjúpinu. Sótti hann nú lampann og aldinin, og fjekk móður sinni. Þetta eru að vísu, mælti hún, fagrir hlutir, en þó munu þeir ekki annað vera, en litað gler, og lampinn er ekki heldur mikils virði; hefðir þú heldur átt að koma með fje nokkuð. Það er satt, mælti *Aladín,* en það hugsaðist mjer ekki; munum við nú fara að hátta, því eg er mjög þreyttur. Morguninn eptir mælti *Aladín:* gef mjef nú góðan árbita, móðir mín, því eg er orðinn svangur aptur. Barnið gott, mælti móðir hans, nú er ekkert til, hvorki matur nje fjemunir, en hjerna hefi eg nokkuð af ull; mun eg selja

hana. Þá mælti *Aladín:* það er betra að selja lampann; við gjörum ekkert við hann, og má vel vera að svo mikið fáist fyrir hann, að við getum lifað á því í nokkra daga. Skaltu ekki farga ull þinni. Þetta ráð líkaði hinni gömlu konu, og mælti hún, að hann skyldi fá sjer lampann, því hún vildi fægja hann. Sótti hún nú dulu, og nokkuð af smáum sandi, og tók til að núa lampann. En þá leið, eins og upp af jörðunni, stórkostlegur og ógurlegur andi, og var sá enn voðalegri en andi hringsins. Hann mælti með öskrandi röddu: Hvað vilt þú? andar lampans eru reiðubúnir að hlýða þjer; þræll þinn er eg! Leið hin gamla kona í ómegin af hræðslu, en *Aladín* var vanari að eiga við anda; tók hann því lampann úr hendi móður sinnar, og mælti djarflega: heyr þú þræll! þess vil eg biðja þig, að þú talir hljóðlegar framvegis, og hræðir menn eigi svo, að þeir falli í ómegin. Skilur þú mig? Skaltu nú fara og sækja mat og drykk, því eg er svangur. Þá mælti andinn, og talaði lágt: herra, boð þitt skal framkvæmt verða, en það skaltu vita, að þá er lampinn verður fast knúinn, þá hljótum vjer andarnir, sem erum þrælar þínir, að drynja hátt; en þá er hann verður hægt knúinn, þá tölum vjer lágt, eins og þú. Að því mæltu hvarf hann, og kom skjótt aptur, með disk einn stóran og tólf aðra minni, alla af silfri, voru þeir fylltir hinum dýrustu krásum, setti hann það allt á borðið í fagurri röð, og sótti síðan brauð og vín til matarins. Síðan hvarf hann. Móðir *Aladíns* lá enn í ómeginum, og hafði einskis vör orðið; helti *Aladín* þá nokkrum dropum af víni á andlit henni, og kom henni á kreik með mikilli fyrirhöfn.

Reis hún nú upp, og varð mjög hissa, er hún sá borðið alsett slíkum gripum og dýrum rjettum. Hvaðan er allt þetta komið, *Aladín,* mælti hún. Kærðu þig eigi um það; njóttu fyrst matar, síðan skal eg fræða þig um þá hluti, mælti *Aladín.* Settust þau nú niður, og borðuðu eins og við konungs borð, og var maturinn hinn ágætasti. Loksins mælti *Aladín:* Móðir góð, það getur varla öðruvísi verið, en þú vitir það, að andi lampans hefur útvegað okkur þessa hluti, og skil eg nú vel, hví hinn gamli töframaður girntist svo mjög að ná lampanum; grunar mig og, að lampi þessi hafi enn fleiri náttúrur, er við eigi þekkjum. Nú fyrst munum við láta okkur nægja með það, að lifa sparlega, með aðstoð hans, svo að við eigi vekjum öfund nágranna okkar, og komumst í vandræði af frjettaburði þeirra; munum við geyma lampann í leyni, og eigi láta neinn vita af honum. Hugsaði móðir *Aladíns* sig nokkuð um, og mælti síðan: Því skaltu ráða, eg ræð þjer hvorki til nje frá um þann hlut; en þó vil eg, að þú látir mig eigi sjá hann, því hann var þegar nær því orðinn mjer að bana. Gekk *Aladín* þá þegjandi á burtu, og varðveitti lampann uppi á lopti; hugsaði hann sjer, að hann skyldi leita til hans, er hann þyrfti. Liðu nú nokkrir dagar, og voru diskarnir tómir orðnir, og enginn matur til á heimilinu; sagði móðir *Aladíns* þá við son sinn, að hann skyldi reyna að selja einhvern diskanna. En hvorki hana nje *Aladín* grunaði það, að diskar þessir væru af hinu hreinasta silfri. Tók *Aladín* nú hinn minnsta diskinn, faldi hann undir möttulskauti sínu, og fór til gyðings eins, er hann bauð diskinn til kaups. Tók gyðingurinn

við diskinum, og leit á; sá hann strax, að það var hið skírasta silfur. Hvað á diskur þessi að kosta? mælti hann. Það sem hann er verður, mælti *Aladín.* Komst gyðingurinn nú í nokkurn vanda út af þessu svari, því honum var ókunnugt hvort *Aladín* hefði vit á verði hlutarins, eður eigi; vildi hann samt reyna, og tók gullpening upp úr vasa sínum; hjelt hann gullpeninginum þegjandi framan í *Aladín.* En *Aladín* ljet sjer vel líka, og þóttist hafa gabbað gyðinginn, því hann hjelt, að diskurinn væri ekki nærri svo mikils virði. Fór hann nú glaður heim með gullpeninginn, og færði hann móður sinni. En gyðurinn brosti í kamp; því diskurinn var að minnsta kosti sextigi gullpeninga virði. Leið nú og beið fyrir þeim *Aladín,* þar til gullpeningurinn þraut; seldi hann þá annan disk, og svo hvern af öðrum, fjekk hann jafn mikið fyrir þá alla, nema fyrir diskinn mikla; galt gyðingurinn tíu gullpeninga fyrir hann. En er gull þetta var þrotið, hlaut *Aladín* að leita á náðir lampans; gekk hann nu upp á lopt, tók lampann," og knúði hann þar, sem móðir hans hafði áður fægt hann. Kom andinn að vörmu spori, og mælti: hvað vilt þú? Mat vil eg, mælti *Alaðín,* með sama hætti og áður. En andinn hneigði höfuð sitt, til merkis um hlýðni; hvarf hann þá, og kom brátt aptur með sjö silfurdiska, og einn mestan; vín kom hann og með; lagði hann á borð og hvarf síðan. Hafði nú *Aladín* og móðir hans nóg til tveggja daga; en sem þeir voru liðnir, var maturinn og búinn, og þurfti nú að selja diskana. Fór *Aladín* á stað með einn þeirra, og ætlaði til gyðingsins, svikahrappsins. Lá leið hans hjá húsi gullsmiðs nokkurs,

er opt hafði tekið eptir *Aladín*, er hann fór með disk, og kom aptur disklaus. Þóttist gullsmiðurinn þess fullviss, að *Aladín* seldi hluti þessa; kallaði hann því til hans, og bauð honum inn til sín. Gullsmiður þessi var gamall maður, virðulegur og rjettsýnn; hann mælti við *Aladín:* ungmenni, seg mjer, hvernig stendur á diskum þeim, er þú fer opt með hjer fram hjá? Selur þú gyðinginum þá, þeim er hjer býr í grennd? *Aladín* kvað já við, og mælti, að gyðingurinn gyldi sjer einn gullpening fyrir disk hvern. Varð gullsmiðurinn hissa, og mælti: geldur hann ekki meira, en einn gullpening fyrir hvern disk? Því fæ eg ekki trúað; veiztú þá eigi, að diskar þessir eru af hinu hreinasta silfri, og að þeir eru mikils verðir. Far þú heim, og sæktú allt, sem þú átt eptir, og vilt selja, eg mun gjalda þjer rjett andvirði, eptir því, sem þeir vega; mun eg eigi svíkja þig. Sjerhver slíkur diskur er sextigi gullpeninga virði, og það jafnvel meira. Skoðum gyðingskarlinn, prakkarann, mælti *Aladín* reiður; snjeri hann þá aptur, og sókti diskana; en gullsmiðurinn vóg þá, og galt *Aladín* rjettilega það, sem þeir voru verðir, en það voru tvö þúsund gullpeninga. Hafði *Aladín* nú aldrei átt svo mikið fje, og þóktist hann meiri orðinn en konungur. Samt var hann svo kænn, að hann ljet engan vita af verzlan sinni, nema móður sína; lifðu þau nú á sama hátt og áður, og voru ánægð, og eigi eyðslusöm. Í einum hlut umbreytti *Aladín* háttum sínum, því hann gaf sig meira að mönnum, og kynntist lærðum og menntuðum mönnum. Fjekk hann á þann hátt þekkingu á ýmsum hlutum, og varð hinn ágætasti og fagrasti í allri framgöngu; hafði hann

með öllu lagt af leti sína og strákapör, og var orðinn vitur maður og góður drengur. Var hann hjer um bil átján vetra að aldri, er svo bar við, að hann heyrði einhverju sinni, að hrópað var upp á strætum borgarinnar skipun Kalífans, að sjerhver skyldi loka húsi sínu, og enginn mætti láta sjá sig úti, á meðan *Adónida*, konungsdóttirin, gengi til laugar, og þangað til hún væri aptur komin. Varð *Aladín* forvitinn mjög út af þessari skipun, og hugsaði með sjer, að hann skyldi sjá konungsdóttur, eður missa lífið að öðrum kosti. Gekk hann nú strax upp á lopt, knúði lampann, og er andinn kom, spurði hann *Aladín*: hvað vilt þú? Vinur góður, mælti *Aladín*, getur þú ekki sýnt mjer *Adónidu* konungsdóttur? Það get eg að vísu, mælti andinn, mun eg bregða yfir þig hulinshjálmi, og flytja þig inn til hennar. Lát mig þá sjá, að þú getir það, mælti *Aladín*, flyttú mig þangað, og strax á burtu aptur; og áður en hann var búinn að sleppa orðinu, var hann kominn í gegn um loptið og inn í herbergi konungsdóttur. Sá *Aladín* þar *Adónidu*, og voru hjá henni hirðmeyjar hennar og ambáttir, en engin þeirra sá *Aladín* eður þjón hans, og hafði hann nóg tækifæri til að litast um og gæta að öllu. Flutti andinn hann síðan sem skjótast, aptur heim, og var *Aladín* upp frá þeirri stundu svo sem milli svefns og vöku, því svo vel hafði honum litist á konungsdóttur, að hann ekki gáði neins annars en að fá hana fyrir konu. Gekk hann nú loksins til móður sinnar, og mælti við hana: móðir mín, svo fögur lízt mjer *Adónida* konungsdóttir, að eg hefi ásett mjer að eiga hana; skaltu því fara til konungs, þar sem hann situr í ráði sínu,

og biðja stúlkunnar mjer til handa. Hin aldraða kona leit á *Aladín*, og þagði um stund, en að síðustu skellihló hún. Barnið gott, mælti hún, þú ert án efa eigi með öllum mjalla; hvernig á eg að fara til konungsins? Mundu menn að vörmu spori reka mig á dyr, ef eg kæmi þangað án gjafa; og hvað getur þú boðið konungi fyrir dóttur hans? Hlæ þú, móðir mín, mælti *Aladín*, eins mikið, og þú vilt; það má eigi banna þjer. En það verðnr þú að gjöra fyrir mig, að biðja *Adónidu* mjer til handa, ef þú ekki vilt sjá mig deyja af harmi og gremju. Skaltu eigi óttast það, að mig vanti gjafir; því það vil eg segja þjer, að aldinin þau hin fögru úr hellisdjúpinu eru eigi gler, heldur eru þau hinir dýrustu gimsteinar; hefi eg sjeð áþekka steina hjá sumum kaupmönnum, en þó enga þeirra líka. Skaltu nú taka einn silfurdisk, móðir, og leggja gimsteinana á hann; muntu þá sjá, hvað fagurlega þeir ljóma. Tók móðir hans nú silfurdisk einn, og raðaði *Aladín* þeim þar fagurlega niður, eptir litardeilingu þeirra. Og sem diskurinn var fullur orðinn, þá blikuðu steinarnir með slíkum litarljóma og geisladýrð, að hin aldraða kona varð hissa, og svo sem sjóndöpur, af birtu steinanna. Lít nú á, móðir, mælti *Aladín*, þenna hlut mundir þú eigi hafa ímyndað þjer. Taktu nú diskinn, og fær þú konungi, skaltu bera honum kveðju mína, og segja honum bón mína, og fá honum gjöf þessa frá mjer; vonar mig, að hann muni ekki synja mjer konunnar. Hætti *Aladín* nú eigi bænum þessum, og fór móðir hans til konungs eptir nokkra daga; og varð hún þó að hafa allan hug við. Kom hún nú þar sem konungur sat í ráðinu; og sem

mál voru á enda kljáð, tók konungur eptir konunni, er stóð fyrir framan hásætið með diskinn, og var klæði yfir. Mildasti herra, mælti konan, eg hefi varla hug til, að segja erindi mitt, þar sem svo margir höfðingjar eru við staddir, og bið eg hátign yðra að veita mjer fyrirgefningu og náð, þó að bæn mín kunni að virðast djörf og heimskuleg; þori eg með engu móti að bera fram erindi mitt, nema því að eins, að eg fyrir fram fái náðarloforð yðvart. Tala þú, mælti konungur með hógværð mikilli, skal þjer ekkert íllt gjört verða; og er hann mælti þessi orð, benti hann ráðshöfðingjunum, en þeir hneigðu sig fyrir konungi, og gengu á burtu. Varð enginn eptir, nema hinn æðsti ráðgjafinn. Nú erum við ein saman, mælti konungur, seg mjer nú erindi þitt. Herti hin aldraða kona þá upp hugann, og sagði erindi sitt einarðlega; sagði hún konungi frá einkasyni sínum, og frá ást hans til konungsdóttur. Guð minn góður, mælti hún að síðustu, bani sonar míns mun það verða, ef hann eigi fær konunnar; og sje eg þó eigi, hvernig slíkt megi framgang fá; fyrirgefið dirfsku mína, herra, að eg voga þannig að koma fyrir auglit hátignar yðvarrar. En konungur var of hjartagóður til þess, að hann gæti reiðst konunni, var hann því hinn vingjarnlegasti, og mælti: Kona góð, vjer munum hugleiða, hvað við mál þetta er að gjöra; en seg mjer, hvað er þar undir klæði þínu? Það er lítilræði eitt, er *Aladín* minn sendir yður, mælti konan; leysti hún þá klæðið af diskinum, og rjetti konungi hann. En er konungur leit gripina, rak hann upp hljóð af undrun, stökk upp, og mælti: þetta eru gersemar miklar og dýrmætar; hefi eg aldrei á æfi minni

sjeð slíka gimsteina. Kom þú hingað, ráðgjafi, að þú einnig megir undrast dýrð þessa; álítur þú eigi, að gjöf þessi sje dóttur minni samboðin? Gekk ráðgjafinn þá að, og undraðist hann eigi síður en konungur. En samt mælti hann hljóðlega: Það traust hefi eg til hátignar yðvarrar, að þjer ekki munið vilja gefa ókunnum manni dóttur yðra fyrir gimsteinahrúgu eina. En konungur mælti aptur hljóðlega við ráðgjafann: slíka gripi mega eigi allir konungar á jarðríki fram selja; eru þetta hinar fegurstu gersemar, er eg hefi sjeð, og má eg því eigi láta konuna fara með öllu vonlausa; enda þótt mjer eigi sje mikið um að gefa dóttur mína manni af lágum stigum, og mjer með öllu ókunnum. Kenn mjer nú ráð í þessum hlut. Herra, mælti ráðgjafinn, þjer skuluð segja hinni gömlu konu, að sonur hennar skuli fá konungsdóttur, ef hann kemur með gjafir nokkrar, er þjer skuluð tiltaka. Getið þjer ákveðið þá kosti, sem þeim hinum unga manni er ómögulegt að uppfylla; en geti hann það, þá verðskuldar hann að fá dóttur yðvarrar. Þessu ráði mun eg fylgja, mælti konungur; snjeri hann sjer síðan að konunni, og sagði: Kona góð, far þú til sonar þíns, og seg honum, að ef hann á þessum degi sendir mjer fjörutigi skála, svo sem þessi er, fylltar af öðrum eins gimsteinum, og þessir eru; og enn að auki fjörutigi hvítra og fjörutigi svartra þræla, þá skal hann fá dóttur mína til eiginkonu; heiti eg þessu við konungstign mína. En geti hann eigi fullnægt þessum kostum, þá er þess engi von, að hann fái dóttur minnar; því eg gef hana eigi fyrir ekkert skraddarasyni einum, og hinum lítilmótlegasta í ríki mínu. Seg honum þetta.

Sló nú ótta yfir konuna, er hún heyrði kosti þá, er konungur gjörði, og gat hún eigi gjört sjer í hugarlund, að sonur hennar nokkurn tíma mundi geta fullnægt þeim; hneigði hún sig þá djúpt fyrir konungi, og lofaði, að skila boðum hans til *Aladíns.* Skundaði hún nú heim, og sagði *Aladín* nákvæmlega frá öllu, sem við hafði borið í ferð hennar. En *Aladín* hló, og mælti: móðir góð, ef konungur eigi heimtar meira en þetta, þá mun mjer ekki verða mikið fyrir, að fá dóttur hans. Gekk hann nú skjótt upp í loptsherbergið, tók lampann, og knúði hann. Andinn kom og mælti: hvað vilt þú? Vinur góður, mælti *Aladín,* svo vel hefur mjer litist á Adónidu konungsdóttur, að eg hefi beðið hennar við konung; en hann er eigi frásnúinn því, ef eg veiti honum lítilræði nokkuð, er þú hlýtur að útvega. Þessir hlutir eru: fjörutigi skála af skýru gulli, með gimsteinum frá hellinum, er við þekkjum báðir, skulu skálar þessar bornar af fjörutigi svartra þræla, er skulu vera dýrðlega búnir að klæðum, og skal hverjum svörtum þræli fylgja einn hvítur þræll; skulu allir þessir þrælar ganga fyrir konung. Mun þjer ekki verða mikið fyrir, að útvega þessa hluti; því það er þjer leikur einn. Andinn brosti, hvarf, og kom að litlum tíma liðnum með allt það, er *Aladín* beiddist. Varð stofan full af fólki, og urðu margir af þrælunum að standa úti í garðinum. Þá mælti *Aladín:* móðir mín, hjer er nú komið það, er konungur heimtar, skaltu nú fara með það til hans, og eigi dvelja. Opnaði hann þá dyrnar, og benti þrælunum, að þeir skyldu fylgja móður hans eptir. Gengu þeir nú ofan eptir borgarstrætinu, tveir og tveir saman, og

fóru hægt og stillilega. Báru þrælarnir svörtu gullkerin á höfðum sjer, og voru dýrindis dúkar, dregnir með silfursaumi, breiddir yfir kerin. En þrælarnir hvítu gengu til hliðar. Og sem þeir voru á burtu farnir, læsti *Aladín* að sjer, og beið málaloka með stillingu og rósemi. En undir eins, og hinir fremstu af þrælunum sáust á strætinu, námu allir menn staðar, og undruðust dýrð þeirra. Var fjöldi fólks kominn utan um þá, áður en hinir öptustu í flokkinum voru komnir út úr húsi *Aladíns;* vildu menn horfa á þessa hina sjaldgæfu og mikilvægu sjón. Voru klæði þrælanna svo dýrðleg og alsett gulli og gersemum, að þeir, er vit höfðu á, virtu föt sjerhvers eins þeirra jöfn millíón gullpeninga að dýrleika; voru og þrælarnir sjálfir hinir fegurstu að sjá, og vel vaxnir; voru þeir fremur líkir konungum, en þrælum *Aladíns* skraddarasonar. Óx nú mannfjöldinn æ því meir, sem fylking þessi kom lengra áleiðis, og urðu hróp undrunarinnar enn meiri og hærri. Komu þeir nú loksins að konungshöllinni; en dyraverðir þeir, er þar stóðu, sáu fólksfjöldann álengdar, og heyrðu köllin og ópin; vissu þeir alls ekki, hverju slík læti gegndu, fyr en þeir sáu þrælafylkinguna. Hjeldu þeir þá, að þetta væru einhverjir ríkilátir konungar, og fleygðu sjer fyrir fætur hinna fremstu, að þeir mættu kyssa fald klæða þeirra. En það leyfðu þrælarnir eigi, heldur mæltu þeir: Vjer erum þrælar, en herra vor mun koma á sínum tíma. Gekk fylkingin nú yfir hallargarðinn, og þangað sem konungur sat. Þá fleygðu allir þrælarnir sjer til jarðar, fyrir augliti konungs; en móðir *Aladíns* gekk fram, og mælti: herra, boði þínu er fullnægja gjörð.

Konungur starði á þessa hluti fullur undrunar, og mælti loks: hvað er þetta? hvaðan koma þessi undur? Slíkir hlutir hafa eigi við borið meðan heimurinn hefur uppi verið. Ráðgjafi, seg nú meiningu þína um þetta. Varð ráðgjafinn nú að kannast við, og þó nauðugur, vegna sonar síns, að *Aladín* hefði fullnægt þeim kostum, er honum voru gjörðir, og að hann nú væri vel kominn að konungsdóttur. Það er ekkert efunarmál, mælti konungur, því allir konungar jarðarinnar eru sem ekkert í samanburði við *Aladín Mústafason*. Munum vjer nú senda eptir honum. Stóð móðir *Aladíns* þegar upp, skundaði til sonar síns, og sagði honum frá boði konungs. En á meðan var farið með þrælana inn í höllina, og var þeim veitt vel. Ljet konungur síðan færa dóttur sinni gullkerin með gimsteinunum á, og fór sjálfur með, bæði til þess að gamna sjer yfir undrun hennar, sem og líka til að virða gripina betur fyrir sjer. En er *Aladín* heyrði orð móður sinnar, varð hann glaður mjög, og bjóst strax að ganga fyrir konung; gekk hann nú upp á lopt, og knúði lampann. Hvað vilt þú? mælti andinn. Vinur góður, mælti *Aladín* skjótlega, þrælar þínir hafa gjört mjer góðan greiða, því nú einmitt á þessu augnabliki fjekk eg boð frá konungi, að eg skyldi koma til hans, og fá dóttur hans. Vil eg því biðja þig, að útbúa mig skjótlega, og sem bezt þú getur; treysti eg þjer vel, því mjer virðist, að þú hafir mjög vit á öllum hlutum; en þú hlýtur að flýta þjer, því konungur bíður mín. Reiddu þig á mig, herra, mælti andinn, allt það er þú býður, skal tilbúið verða að vörmu spori, og muntú verða ánægður með þjón þinn. Ljet hann *Aladín* þá ganga

til laugar einnar ágætrar, en margfjöldi anda kom þangað, er þvoðu hann og smurðu með nardusfeiti, og ljetu hár hans verða ilmandi af ágætum smyrslum. Andlit hans varð blómlegt, eins og rósknappur, og eptir að hann var kominn úr lauginni, þá var sem allir limir hans liðlegri orðnir en áður; hafði hann aldrei fyr verið svo hraustur og styrkur. Komu andarnir síðan með dýrðleg klæði, og skrýddu hann svo fagurlega, að honum hafði aldrei í hug dottið annað eins skraut. Og sem allt var um garð gengið, fór andi lampans aptur með hann til herbergis hans, og mælti: Herra minn og meistari! hjer fyrir utan dyrnar bíða þín tuttugu þrælar, á mjallhvítum hestum, sem eru enn ágætlegar búnir en hinir fyrri; áttatigi úlfalda standa og bíða, klyfjaðir með allskonar gjöfum handa konunginum og unnustu þinni; móðir þín er fyrir utan húsið, og situr á arabiskum hesti af ágætu kyni; en hjá henni eru sex þjónustumeyjar, er bíða skipana hennar. Sjálfum þjer til handa er fákur búinn, og er sá hinn fegursti á jörðu, og fríðastur allra þeirra, er auga dauðlegs manns leit. Enn framar bíða þín þjónar, er varðveita fje og gullpeninga, þá er þú megir láta fleygja ofan handa fólkinu. Herra, seg, hvort þú sjert ánægður með þræl þinn, eður eigi. Þú er góður og mikill andi, mælti *Aladín*, og kann eg þjer miklar þakkir, því þú hefir gjört alla hluti betur, en eg gat við búizt. Skaltu nú fara á burtu, en vera samt reiðubúinn, til að fullnægja þeim kröfum, er eg síðar meir mun af þjer heimta. Þitt er að bjóða, en mitt að hlýða, mælti andinn, og hvarf. Nú höfðu menn spurt víða um auð og lukku *Aladíns*, og var nú fregn sú kom-

in um alla Bagdað; brá mönnum fremur en ekki í brún, er menn heyrðu, að hann mundi verða tengdasonur konungs. Þótti mörgum slíkt ótrúlegt, en engu að síður safnaðizt fjöldi fólks allstaðar að úr borginni, og komu að húsi hans, til að sjá hann. Var og enginn, er öfundaði hann, því hann hafði ætíð verið hæverskur og góðviljaður við vini sína og kunningja. Og er hann kom út úr dyrunum, fagurlega búinn og fríður ásýndum, þá varð óp mikið og þys, og allir kölluðu: vel sje *Aladín*, lifi hann lengi, og fylgi honum lán og gæfa. En *Aladín* hneigði sig og mælti þakkarorðum við fólkið; en við það uxu ópin og köllin. Stje *Aladín* þá á hest sinn, og lagði fylkingin á stað; riðu hinir tuttugu þjónar á undan á fannhvítum hestum; þar á eptir kom móðir *Aladíns* og sjálfur hann við hlið hennar; sat *Aladín* svo vel í söðli, að hann var tignarlegur og mikillegur að sjá sem konungur. Á eptir honum gengu úlfaldarnir með gjöfunum, en að endingu fylgdu margir þjónar, er báru poka með gullpeningum í; fleygðu þeir fjenu til beggja handa út á meðal fólksins; og sem *Aladín* var kominn inn fyrir hallarhliðið, þá æptu allir í einu hljóði: *Aladín* lifi lengi. Gekk konungur skjótlega á móti honum, faðmaði hann, og mælti: drottinn blessi inngöngu þína, sonur minn, og veri með þjer. Skaltu vera mjer velkominn, og tak við festarkonu þinni, hinni fögru *Adónidu*. Að því mæltu tók hann í hönd *Aladíns*, og leiddi hann á milli hirðmannanna, er stóðu til beggja handa í löngum röðum, og voru búnir fögrum hátíðaskrúða; en hörpur og lúðrar hljómuðu, er *Aladín* gat að, líta festarmey sína. Gekk hann nú

til hennar, skínandi af fögnuði og gleði, beygði knje fyrir henni, og mælti: *Adónida;* er það vilji þinn, að fylgja mjer og vera hjá mjer? En mærin roðnaði, rjetti honum höndina, og sagði: *Aladín,* eg hlýði boði föður míns, og reiði mig á þig. Var lukka *Aladíns* nú á hæsta tindi sínum, og faðmaði hann nú konungsdóttur, dansaði og stökk allt um kring í salnum með hana, og varð svo ærr af gleði, að konungur skellihló upp yfir sig, og hrópaði: hættu, sonur sæll, eg gef upp öndina af hlátri. Kom *Aladín* nú til sjálfs sín, og varð aptur hæverskur og stilltur, þótti konungsdóttur þá harla mikið til hans koma. Þá mælti konungur: Sonur góður, nú munum vjer mega búazt við brúðkaupi, því klerkar vorir og yfirvöld bíða vor. Fjellst *Aladín* vel á þá uppástungu, og er nú eigi að orðlengja það, að *Aladín* giptist þar *Adónidu.* Eptir það mælti konungur: *Aladín,* nú er ráðlegast, að þú setjist að í höll minni, með *Adónidu,* þar til er þú hefir látið reisa þjer sjálfum höll, því hús þitt er of lítið til þess, að þú getir búið þar hjeðan af. *Aladín* mælti: tengdafaðir minn, veit mjer frest til morguns, og muntu sjá, hvað verður í nótt. Skaltu enga umhyggju bera fyrir nokkurri byggingu handa mjer, því slíkt mun eg sjálfur annast. En á þessu kvöldi skulum vjer gleðja oss; og mun eg síðan fara heim til mín, og ráðstafa nokkrum hlutum, er eg á; á morgun kem eg aptur. Ljet konungur sjer þetta vel líka, og gengu þeir *Aladín* nú inn í hinn mikla veizlusal, þar sem allir ráðgjafar konungs, og hirðmenn, og sveinar og þrælar voru saman komnir; fluttu nú allir menn nýju hjónunum heillaóskir og fagnaðarorð. Var nú gengið til veizlu;

voru tvö borð búin boðsmönnum; annað fyrir konung, og drottningu, og nýju hjónin, en hitt fyrir hina boðsmennina. Var nú gleði mikil og glaumur í höllinni, gleðióp og söngvar fagrir, svo að dundi og bergmálaði í hallarhvelfingunni; en allir voru glaðir og ánægðir, og höfðu hjónin skemmtan mikla af veizlunni. Og sem nótt var komin, stóð *Aladín* upp, og kvaddi konung; en fór síðan á burtu, svo aðrir vissu eigi; því að hann þurfti að koma við á loptherbergi sínu. Fannst honum þar vera kyrð mikil og friður, og þótti honum, sem dagurinn hefði verið draumur einn fagur. Tók hann þá lampann og knúði hann. Hvað vilt þú, mælti andinn. Elskuvinur, mælti *Aladín*, svo mikla hluti hefur þú nú þegar fyrir mig framkvæmt, að eg varla hefi áræði til, að beiðast fleiri hluta af þjer; og samt hefi eg enn einn mikinn hlut á hjarta. Andinn mælti: mæl þú, og skipa þú; mun eg gjarna hlýða þjer, og gjöra með gleði allt það, er eg má. Þá mælti *Aladín*: sjá þú, *Adónida* er nú orðin kona mín, og máttu vel skilja, að eg get eigi látið hana setjast hjer að í kofa þessum. Vil eg því, að þú reisir mjer höll eina fagra, á móts við konungshöllina; er þar mikið og fagurt hallarstæði. En það stendur mjer á sama, hvort þú byggir hana af marmarasteini, hrafntinnu eður jaspisgrjóti; læt eg þig ráða því, því þú munt gjöra allt sem bezt. En þess vildi eg biðja þig, að þú gjörðir á hallarloptinu sal einn ferhirndan, og jafnan öllumegin; skulu salarveggirnir vera af silfur- og gull-flögum, skeyttum saman þannig, að þær sjeu settar á víxl upp og niður í röðum; skulu og vera sex gluggar á hverri hlið salnum, og skulu þeir

vera dýrðlega smíðaðir og skrýddir gulli og gimsteinum, á svo mikinn og veglegan hátt, að slíkt skal enginn á jarðríki litið hafa; skal hver rúða vera úr einni demantsflögu. En eina rúðu skaltu láta vanta, og vera ólokið við umgjörð hennar. Mæl þú, hvert þú mátt gjöra þessa hluti, og getur höll þessi orðið búin og algjör að morgni? Andinn mælti: Vert þú óhræddur, *Aladín,* á morgun skal höllin vera tilbúin, og mun þjer vel líka. Að því mæltu hvarf andinn, en *Aladín* gekk til hvílu. Varð móðir hans, ásamt hinum sex hirðmeyjum, eptir í konungshöllinni. Klæddist *Aladín* nú morguninn eptir fyrir sóluppkomu, ljet lampann á sig, og skundaði út, til að sjá, hvort höllin væri búin. Og sjá, hún stóð á borgarvellinum, ljómandi eins og himinsólin, og listileg og dýrðleg á að sjá. Gekk *Aladín* nú inn, og heilsuðu honum margir þjónar, dýrðlega búnir að klæðum. En *Aladín* skundaði inn í það herbergi, er næst var, og fann hann þar andann, er beið eptir honum. Hann mælti: *Aladín,* líkar þjer nú? Drottinn blessi þig, mælti *Aladín,* þú ert ólíkur öllum verum; eg lofa þig og verk þín. Þá brosti andinn, og sýndi honum öll herbergi og alla sali hallarinnar, og var allt þar inni svo mikilfengt og fagurlega skrýtt og dýrðlegt, að *Aladín* vissi eigi, hvað fegurst mundi vera. Að endingu leiddi andinn hann upp í efsta sal hallarinnar. Voru þar allar hurðir af skíru gulli, og fagurlega settar skínandi demöntum og tindrandi rúbínsteinum. En er hann steig inn um dyrnar, þá var sem í ljóshaf eitt sæi, svo fagurt og ljómandi var í salnum; mundi hið hæsta flug ímyndunarinnar hvergi nærri hafa komizt svo langt, að það

fengi gjört sjer hugmynd um slíkan sal. Voru veggirnir gjörðir á þann hátt, er *Aladín* hafði fyrir sagt, því að silfurflaga ein var á milli gullflögu hverrar í röðum frá lopti til gólfs; en gluggaumgjörðirnar ljómuðu af gimsteinum. Salarrjáfrið var skrýtt hinum fegurstu myndaspjöldum, og dýrindis dúkar voru breiddir um gólfið. Varð *Aladín* svo frá sjer numinn af undrun, að hann fjekk eigi annað sagt, en þessi orð: Andi, sjálfum þjer ertu meiri! En andinn brosti og mælti: Það hugsaði eg, að þjer mundi líka vel verk mitt, en nú muntu koma, og sjá útbyggingarnar, er liggja að höllinni. Leiddi hann nú *Aladín* út í hallargarðinn; voru þar byggingar til beggja handa, og ein bygging fyrir miðju. Sjá þú, mælti andinn, hægra megin eru hesthús; vinstramegin eru gullhús þín; en fyrir miðju eru hús, handa þrælum þínum og hjúum. Gengu þeir nú fyrst inn í gullhúsin, voru þar í einum klefa gullhrúgur; í öðru herbergi voru feiknastórir hlaðar af demöntum; og enn voru margir klefar, fullir af ýmsum gripum og gersemum. Þá gengu þeir til hesthúsanna, og voru þar mörg hundruð hesta, af hinu ágætasta kyni frá *Arabíu,* og enginn hestur var minna virði, en þúsund þúsunda gullpeninga. Voru fegurstu hestarnir óþolinmóðir af fjöri, og stöppuðu í gólfið hneggjandi, og átu bygg og hafra af silfurstöllum. Á marmarasúlum hjengu fögur beizli, söðlar og aktaumar, og var allt ljómandi af gulli og gimsteinum. — Höfðu þeir nú skoðað allt, og þakkaði *Aladín* andanum fyrir með mörgum fögrum orðum. Andinn mælti: þakka þú mjer eigi, því allt þetta hefi eg gjört af mikilli gleði. Kalla þú á mig, þá er þú þarft mín við.

Síðan hvarf andinn, eins og leiptur flýgi. Skundaði *Aladín* nú til konu sinnar og tengdaföður síns. Komið hingað, hrópaði hann, eg vil sýna yður höll mína; munuð þjer lengi þurfa að leita, áður þjer finnið hennar líka. Það mun aldrei vera svo stórkostlegt, að mönnum ofbjóði, mælti konungur, því á einni nóttu verður varla mikið gjört. Samt stóð hann upp og gekk út. En hvernig mun honum hafa við orðið, er hann kom út úr höll sinni, og hin dýrmæta bygging *Aladíns* lá fyrir sjónum hans. Hann sló höndum saman, og kallaði upp yfir sig: *Aladín!* hversu hefur þú gjört þetta? Hvað sje eg! Hvað er þetta! Hvernig er höll þessi komin hingað? Stytti konungur nú upp um sig, og rann af öllum mætti til hallarinnar, og mátti enginn við honum. Sýndi *Aladín* þeim nú allt, bæði herbergin, salina, hesthúsin, gullhúsin, og hinn gullna sal, er krýndi allt hitt með dýrð sinni. Sonur minn, hrópaði konungur, er hann leit salinn, þú ert hinn mesti töframaður, sem til er, því þessi salur er furðuverk. Þá mælti *Aladín: Adónida,* hversu líkar þjer? Elskan mín, mælti hún, eg hefi allt af haldið, að höll föður míns væri hin fegursta í heimi, en þegar jeg lít þessa, þá finnst mjer hún vera kot. Hjer mun eg verða farsæl með þjer. Brosti *Aladín* glaður við þessi orð, og kyssti á hönd konu sinnar fyrir gæzku hennar. Konungur gekk fram og aptur, og var búinn að taka eptir rúðunni, sem ekki var búið að ljúka við. Sonur góður, mælti konungur, því er ekki búið að ljúka við þenna hinn dýrðlega sal? Hefur þú ekki haft tíma til þess? Ekki var sú orsökin, mælti *Aladín,* heldur var sá tilgangur minn, að láta yður, tengdafaðir minn góður,

njóta þess sóma, að hafa sett smiðshöggið á höll þessa. Þá mælti konungur: fyrir þenna heiður kann eg þjer miklar þakkir, og mun eg strax skipa, að ljúka við salinn. Þótti konungi vænt um, hvað *Aladín* mat hann mikils; ljet hann og sækja gullsmiði og listamenn, og bauð þeim að gjöra rúðuna með sama hætti og hinir aðrir tuttugu og þrír gluggar voru. En sem smiðirnir litu á það, er þeir áttu að vinna, hristu þeir höfuðin, og mæltu: eigi höfum vjer allir til samans svo mikið af gimsteinum, er til þessa þarf. Konungur mælti, að þá skyldu þeir fá allt, er þeir þyrftu, hjá fjárgeymslumanni sínum, en, mælti hann, flýtið yður, því annars fer eigi vel fyrir yður. Gengu smiðirnir þá á burtu, og tóku til starfa.

Meðan þetta gjörðist, ljet *Aladín* gesti sína fara inn í borðsalinn, og bauð, að búa skyldi veizlu mikla og dýrðlega. Síðan bauð hann til veizlunnar öllum ráðgjöfum og embættismönnum konungs; en sjálfur skemmti hann *Adónidu*, konungi, og móður sinni, með ýmsum viturlegum ræðum, og undruðust allir vizku hans og lipurleika. Um miðjan dag komu boðsmenn, og hófst þá veizla sú, er enginn mundi slíka í *Bagdaðsborg*. Voru þar öll matborð af hreinu silfri, en allur borðbúnaður af skíru gulli. Þjónar báru í kring dýrindis vín og sæta, svalandi drykki, og hin minnsta bending var nóg til þess, að allt, er menn vildu, væri strax komið. Inndælir söngvar hljómuðu um salinn, því allt í kring á loptsvölunum stóðu söngmenn og söngmeyjar, er ljeku á hörpur og gígjur, svo að loptið fylltist himneskum hljómi. En fyrir framan höllina voru búin mörg hundruð borða, og var öllum mönnum af óæðri stjett veitt

þar, og ekki síður en þeim, er sátu að veizlunni í höllinni sjálfri; því vínið gaus upp úr konstuglegum brunnum, eins og hverar, og ljómaði í sólargeislunum, eins og rauðir, hvítir og gullnir straumbogar. Var það eigi undarlegt, þó að nafn *Aladíns* hljómaði frá munni sjerhvers manns. En eptir veizluna komu þjónar út úr höllinni, og býttu gulli og silfri út á meðal lýðsins; varð nú gleðin svo áköf og mikil, og fagnaðarópin svo há, að *Aladín* varð að ganga fram á hallarsvalirnar, og heilsa lýðnum; voru heillaópin fyrir honum þá eins og þrumugnýr, og hattar og húur flugu í lopt upp; og gekk allt þetta, þar til er *Aladín* gekk inn aptur. Stóð veizlan nú á þenna hátt í heila viku, og sat konungur að henni, og ráðgjafarnir, og allur lýður. En *Aladín* ávann sjer hylli allra manna, og það var einmitt ósk hans, því hann trúði því, að guð hefði ekki gefið sjer auð og sælu handa sjer einum, heldur einnig handa öðrum. Gleymdi hann og aldrei í velgengni sinni og dýrð hinum fátæku og bágstöddu, og enginn þurfamaður gekk frá dyrum hans, án huggunar og gjafa. Og þar kom um síðir, að menn sóru eið við nafn *Aladíns*, og þótti það óhæfa, að trúa ekki þeirri særingu.

Veizludagarnir liðu, og var *Aladín* búinn að fá nóg af glauminum og gleðinni; kvaddi hann því gesti sína, og dvaldi hjá konu sinni og móður um hríð; vandist móðir hans brátt á þá hina nýju lifnaðarháttu.

Eptir að hjer um bil sex vikur voru liðnar, minntist *Aladín* smiðanna, er höfðu tekizt á hendur að ljúka við gluggann. Ljet hann sækja þá, og bauð þeim að hafa með sjer smíðar þeirra. Þeir komu,

en tíundi hluti verksins var ekki búinn. Þá mælti *Aladín:* góðir menn, það sje eg, að þjer munuð þurfa mörg ár til þess, að smíða rúðu þessa. Skuluð þjer nú taka gimsteinana úr umgjörðum þeirra, og færa þá aptur konungi; vil eg ekki, að þjer þreytið yður lengur á þessu smíði. Þá mælt elsti smiðurinn: herra, vjer mundum hafa verið lengra komnir áleiðis, ef gimsteina hefði ekki vantað; megið þjer og sjá, hvílíkur fjöldi er kominn í rúðuumgjörðina, og eru nú allir gimsteinar vorir og konungs uppgengnir. Þetta vissi *Aladín* allt saman; hann ætlaði sjer það og í fyrstu, með rúðunni, að sýna tengdaföður sínum, hversu mikils virði höllin væri; ávítaði hann smiðina því ekkert, en mælti við þá: farið til konungs, og segið honum, að eg hafi boðið yður að hætta smíðunum. Gengu smiðirnir þá á burtu; en *Aladín* kallaði á andann, og bauð honum að setja rúðuna í gluggann; var það búið að vörmu spori, og búið að ljúka við salinn. Smiðirnir rifu nú í sundur sex vikna starfa sinn, fóru með gimsteinana til konungshallar, og sögðu konungi frá málavöxtum. Ljet konungur þá fara á burtu, en skundaði sjálfur til *Aladíns,* og mælti: Sonur góður, ætlar þú ekki að láta ljúka við hinn gullna sal? Það er búið að ljúka við hann, mælti *Aladín,* komið þjer, og sjáið. Gekk *Aladín* nú með konungi að glugganum; en konungur trúði varla egin augum sínum, því rúðan var komin í. Hafði *Aladín* á einu augnabliki framkvæmt tíu sinnum meira, en hinir mestu smiðir í Bagdað fengu gjört á sex vikum. Faðmaði konungur hann þá og kyssti hann, segjandi: *Aladín,* mikill maður ertú, er þú mátt gjöra þær listasmíðar í einu vet-

fangi, er aðrir menn gjöra ekki á mörgum árum. Sannarlega áttú þjer engan jafningja, og því betur, sem eg kynnist þjer, því innilegar hlýt eg að elska þig. Tók *Aladín* lofræðum konungs með ljúfri hæversku, og beiddi hann, að hrósa sjer eigi um of, og sagði það vera hina mestu ósk sína, að mega njóta hylli hans og vináttu. Fullur undrunar hristi konungurinn höfuðið, og gekk þegjandi heim.

Liðu nú svo stundir fram, að vegur *Aladíns* óx meir og meir, og það ekki eingöngu hjá konungi, heldur og einnig hjá lýðnum. Sæmdi hann alla fjegjöfum, í hvert sinn er hann reið um í borginni, eða fór á dýraveiðar; og varð hann frægur um land allt, og það því fremur, sem hann var hinn hraustasti maður; því hugleysingi getur aldrei öðlast hylli nokkurrar þjóðar.

Þannig líða nokkur ár, að *Aladín* lifði í vegsemd og heiðri. En það er af hinum gamla töframanni að segja, að honum kom einhverju sinni til hugar, að grennslast eptir, hvort *Aladín* hefði dáið í hellinum, þar sem hann skildi hann eptir, af illsku sinni og grimmd. Tók hann nú reikningsspjöld sín og töfravjelar, og rýndi eptir, unz hann komst eptir því, sjer til gremju og reiði, að skraddarasonurinn, er hann fyrirleit og óvirti, lifði í vegsemd og dýrð hjá Serkjakonungi. Það sá hann og af töfrabókum sínum, að *Aladín* hafði fengið *Adónídu* konungsdóttur, og hann hafði byggt höll mikla og dýrðlega, og að enginn mundi hafa megnað það, nema andi lampans. Fylltist hann nú öfundar og reiði, og ljet sækja hest sinn, er var af blálenzku kyni, og skjótur, sem fugl flýgi. Var það nú ætlan hans, að spilla

lukku *Aladíns*, og að ná lampanum, annaðhvort með brögðum, eður ofbeldi, eður deyja að öðrum kosti. Reið hann nú nætur sem daga, og stóð hvergi við, unz hann kom til Bagdað; og ljet hann berast fyrir í gestgjafahúsi einu; hvíldist hann þar nokkra daga. Síðan njósnaði hann hvervetna um *Aladín*, og fjekk loksins að vita, að hann væri á dýraveiðum, og mundi verða nokkra daga á burtu. Var þessi hlutur einkar vel lagaður fyrir töframanninn; og átti hann nú ekkert eptir að vita, nema hvar lampinn væri fólginn. Hefði *Aladín* haft hann á sjer, þá var ekki um neitt að tala. En þegar töframaðurinn reiknaði, þá fann hann, að lampinn var í höllinni, og stóð á hillu einni í hinum gullna sal, og var ekki annað en að komast upp þangað. Nú var honum þetta ómögulegt, en hann hugsaði með sjer ráð. Hann fór til koparsmiðs eins, og keypti tólf eyrlampa; ljet hann þá á trje, og gekk til hallar *Aladíns*. En sem hann kom í nánd við höllina, hrópaði hann af öllu megni: hver vill kaupa nýja lampa fyrir gamla, nýja lampa fyrir gamla? Var þá hlegið mjög að karlinum; en hann gaf sig eigi að því; því hann vildi það til vinna, að verða álitinn vitlaus, ef honum tækist að ná lampanum. Nú stóð svo á, til allrar ógæfu, að *Adónida* var með hirðmey einni upp í gullna salnum, og heyrði, hversu hlegið var að töframanninum. Vildi hún vita, hvað um væri að vera, og sendi því hirðmeyna ofan, til að gæta að því. Kom hún aptur, og sagði hlæjandi: það er hálfruglaður karl á götunni, og er að bjóða nýja lampa fyrir gamla. Það er víst ekki alvara þín, mælti *Adónida*. Víst er það alvara, mælti hirðmeyjan, og væri gaman að sjá, hvort mað-

urinn er í raun og veru svo vitlaus, að láta nýja lampa fyrir gamla. Hjerna stendur gamall lampi, á eg að reyna? Það má reyna það, til gamans, mælti *Adónida*. Tók hirðmeyjan þá lampann, og fór með hann til töframannsins. En hann sá strax, að það var undralampinn, og hjarta hans barðist hart af gleði; var hann nú eigi seinn að ljúka kaupunum; og hafði sig sem skjótast á burtu úr mannþrönginni; en allir hlógu dátt að heimsku hans. En hann sagði við sjálfan sig: Hlæið þjer eins og þjer viljið, heimskingjarnir, sá hlær bezt, er seinast hlær. Gekk hann nú út úr borginni, skoðaði lampann betur, og fann að það var hinn rjetti lampi. Samt beið hann næturinnar; og er miðnætti var komið, knúði hann lampann ákaflega. Andinn kom með dimmu yfirbragði, og drundi; hvað viltú? Eg er þræll lampans; skipa þú! Þá mælti töframaðurinn, með drembilátum svip: Eg skipa þjer að flytja sjálfan mig, og höll *Aladíns*, með öllu því, sem í henni er, suður í *Affríku*. Og að vörmu spori var boðinu fullnægja gjörð, og höll *Aladíns* og *Adónida* hvarf yfir til *Affríku*, þúsund mílur frá Bagdaðsborg.

Þegar konungur vaknaði um morguninn, eptir þenna ógæfulega atburð, gekk hann að glugganum hjá sjer, eins og hann var vanur, og leit út til hallarinnar, þar sem dóttir hans bjó, og ætlaði að bjóða henni góðan dag; en höllin var horfin. Hvað er þetta, hrópaði hann, hvað er orðið af höll *Aladíns?* Það stingur henni þó enginn í vasa sinn, og fer með hana á burtu. En hróp hans komu fyrir ekki; höllin var horfin. Hann kallaði þá á ráðgjafann, og mælti: ráðgjafi, í öllum bænum, kom þú hingað,

höllin er horfin; hvernig stendur á því? Ráðgjafinn kom, og starði lengi; en höllin var horfin. Loksins mælti hann: herra, eg skil ekki þenna hlut; þjer verðið að spyrja *Aladín* um það, því hann hlýtur að vita það. Það er satt, mælti konungur, hann hlýtur að vita það. En guð hjálpi honum, ef hann ekki kemur aptur með dóttur mína! Voru menn nú sendir, til að leita *Aladín* uppi, og koma með hann fjötraðan fyrir konunginn; því konungur þóttist þess fullviss, að *Aladín* væri háður illum öndum, er hefðu numið höllina á burtu. Var nú komið með *Aladín* í hlekkjum, og konungur hrópaði: vei þjer! hvar er dóttir mín? En *Aladín* mælti rólegur: hún hlýtur að vera í höll minni. Í höll þinni, hrópaði konungur, líttu á, hvar hún er; líttu út.

*Aladín* gekk að glugganum, og bliknaði. Drottinn minn, mælti hann, þenna hlut skil eg ekki; guð má vita, hvað af höll minni er orðið. Guð, hrópaði konungur, hvað ætli guð viti af því, fanturinn þinn! Hinir illu andar, er þú hefur gjört samband við, þeir vita það víst. Meðkenndu, eður deyðu. Þá mælti *Aladín* með hugarró og tign: Konungur, eg veit ekki meira en þjer sjálfur um þenna óttalega atburð, og eg er eins hissa yfir honum, og hver annar. Ef þjer viljið láta drepa mig, þá er hjer höfuð mitt, en það sver eg yður, að eg dey saklaus. Konungur kærði sig ekkert um hið hreystilega svar *Aladíns*, en skipaði, að sækja böðulinn. Böðullinn kom, og *Aladín* lagði sig niður fyrir axareggina. Nú var bundið fyrir augu hans, og böðullinn reiddi til, til að höggva hann — þá heyrðust óp mikil og þys fyrir utan höllina; það var barið og lamið á hallardyrnar

með öxum og kylfum; margar þúsundir manna hrópuðu: drepum banamenn *Aladíns,* leysið *Aladín;* lifi hann, velgjörðamaður vor! En sem konungur heyrði þessi óp, bliknaði hann af ótta, því allur Bagdaðslýður var þar kominn, er sú fregn fór um sem elding, að *Aladín* ætti að deyja. Gripu allir strax til vopna, og vildu frelsa *Aladín,* er þeir voru vissir um, að væri síkn saka, eða deyja sjálfir ella. Þá fjekk *Aladín* laun fyrir ljúfmennsku þá, er hann allajafna hafði sýnt lýðnum. Því konungur varð óttasleginn, og ljet böðulinn fara á burtu; síðan ljet hann leysa *Aladín* úr hlekkjunum, og grátbændi hann um að sefa óróann. En *Aladín* hugsaði ekki til að hefna sín, svo var hann veglyndur; hann gekk strax til lýðsins, óg mælti: vinir mínir; þjer megið sjá, að eg er laus orðinn, og að mjer verður ekkert íllt gjört. Kann eg yður miklar þakkir fyrir elsku yðar og tryggð við mig; má vel vera, að eg einhvern tíma verði fær um, að endurgjalda yður. Farið nú heim til yðar, því öll hætta er á enda. Þá hóf múgurinn upp fagnaðaróp, og gekk á burtu. Þannig bjargaði konunginum sá, er hann vildi feigan. Gekk *Aladín* þá til hans, og mælti: herra, eg bið yður, veitið mjer fjörutíu daga frest; og ef eg eigi innan þess tíma kem aptur með dóttur yðra og höllina, þá skal eg framselja mig sjálfan, að þjer megið dæma mig til dauða. Hafðú frestinn þá, mælti konungur stutt. Gekk *Aladín* þá á burtu, og fann það með sjer, að ógæfa sín mundi vera sprottin af því, að hann hefði misst lampann; tók hann nú sár iðrun út af því, að hann nokkru sinni skyldi hafa lagt hann af sjer; en slíkt var þá um seinan. Og samt gat hann eigi

skilið, hver væri valdur að verki þessu í raun og veru; honum gat eigi dottið töframaðurinn í hug, því að þegar hann kom til hans, þá var *Aladín* unglingur, og mundi hann því varla eptir honum. Til allrar lukku átti hann enn fingurgullið, hringinn góða, er áður hafði hjálpað honum; tók hann það nú af hendi sjer, og knúði, en andi hringsins kom strax, og mælti: hvað viltú, eg er þræll þinn, skipa þú. Þá er vel, mælti *Aladín;* seg mjer þá, hvar höll mín er niður komin, sú er eg ljet reisa í Bagdað, og flyt þú hana strax aptur hingað. En andinn mælti: herra, þessu boði má eg eigi fullnægja, því slíkt má enginn gjöra, nema andi lampans. Þá er illa farið, mælti *Aladín,* og þykir mjer mikið fyrir, því eg hef misst lampann; getur þú þá ekki heldur flutt mig þangað, sem höllin er nú? Skipa þú mjer, herra, mælti andinn. Þá bauð *Aladín* andanum, og í sama vetfangi stóð hann undir hallargluggunum, þar sem *Adónida* var inni. Var farið að skyggja af degi, en *Aladín* þekkti samt höll sína, og fagnaði hann með sjer yfir því, að fá að sjá *Adónidu* aptur, og að komazt til hins fyrra veldis síns. Klifraði hann fyrst um sinn upp í eik eina, og ljet þar fyrirberast um nóttina, því honum leizt ráðlegast að fara sem hljóðlegast og kænlegast. Snemma morguninn eptir gekk hann undir gluggana, þar sem *Adónida* var vön að vera inni fyrir, og vonaðaðist eptir því, að hún mundi verða vör við sig. En *Adónida* var vön að klæðast snemma, og var hún ætíð fyrir löngu komin á fætur, áður en töframanninum datt í hug að klæðast. Nú vildi svo til, að á meðan *Adónida* var þenna morgun að klæða sig,

leit ein af hirðmeyjum hennar út um gluggann, og sá *Aladín,* þar sem hann var að ganga fyrir neðan gluggann; hún hrópaði strax á *Adónidu,* og sagði henni, að maður hennar var þar kominn. Stökk *Adónida* strax upp, sá *Aladín* strax, og kallaði til hans og benti honum; síðan sendi hún þjón sinn, er leiddi hann upp leynistiga; fundust þau nú, hjónin, og varð fagnaðarfundur mikill. Loksins mælti *Aladín:* Elskan mín, umfram allt hlýt eg að spyrja þig, vegna sjálfrar þín, hvert þú vitir hvað orðið sje af gamla lampanum, sem stóð áður á hillunni í gullna salnum? *Adónida* mælti: Það skil eg, *Aladín,* að missir lampans muni olla ógæfu vorri; en hinn gamli töframaður, sem nam mig á burtu, geymir lampann. Sagði *Adónida* honum nú ítarlega frá þeim vjelum, er töframaðurinn hafði náð lampanum með, og bæri hann sífeldlega á brjósti sjer, og skildi hann aldrei við sig. *Aladín* hugsaði sig um, og mælti síðan: Lampanum verð eg að ná, annaðhvort með vjelum eður ofríki; seg mjer, hvað er á milli þín og töframannsins? Þá grjet *Adónida,* og sagði honum, að hinn illi maður særði hana á hverjum degi um, að giptast sjer, og nú þegar hafði hann hótað henni dauða, ef hún þrjózkaðist lengur. Það er vel, mælti *Aladín,* þá sver eg við guð, að hann skal deyja, fyrir illsku sína. En nú er hann kemur í dag, og minnist á giptinguna, þá skaltu láta, sem þú hafir sigrazt á mótþróa þínum, og skaltu láta síga undan. Skaltu og láta hann borða hjá þjer; muntu neyta tækifæris til að láta eiturdupt nokkuð í bikar hans, og má þá reyna, hvernig fer. En á meðan ætla eg að leynast í næsta herbergi, og mun

eg koma fram þá er mjer sýnist. Líkaði *Adónidu* þetta vel, og gladdist hún af voninni um lausn sína. En *Aladín* gekk hljóðlega út úr höllinni, og keypti eiturduptið; síðan snjeri hann aptur, og færði *Adónidu*, en leyndist sjálfur í herbergi nokkru. Leið nú ei á löngu, áður hann heyrði til töframannsins; heyrði hann og, hversu hann lagði fast að *Adónidu* um að eiga sig; og varð hann að hafa sig allan við, að stjórna reiði sinni og gremju; en hann hughreysti sjálfan sig, og vonaðist eptir, að hefndin kæmi um síðir. En *Adónida* ljet vinalátum við töframanninn, og tókst henni að tæla hann að fullu. *Adónida* mælti: Herra, eg er nú loks farin að sjá, að eg aldrei muni komazt aptur til Bagdaðs, heim til föður míns. Eg undrast yfir stöðugleika ástar yðvarrar til mín, og að lokunum munuð þjer sigra hjarta mitt. Verið nú hjá mjer í dag, og munum við borða saman, má og vera, að yður takizt, að eyða harmi þeim, sem eg ber út af missi *Aladíns*; því líklega er hann dáinn; og það finn eg, að það er betra að vera glaður, en sífeldlega harmandi.

Töframanninn grunaði ekki, hversu nærri *Aladín* var honum; og varð hann frá sjer numinn af orðum *Adónidu*. Hann mælti: *Adónida*, farið með mig hvernig sem þjer viljið, því eg er þræll yðar. En *Adónida* ljet vel að honum, og fór að honum öllum skrípalátum og uppgjörðum ástaratlotum, þar til er þau gengu að borði. Ljet *Adónida* hann þá ekki spara vín og áfenga drykki; en töframaðurinn tæmdi hvern bikarinn á fætur öðrum, til að þókknast henni; og kom þar að um síðir, að hann gjörð-

ist mjög drukkinn. Þá fleygði *Adónida* skjótt og laglega eiturduptinu í bikarinn hjá honum, og mælti: Herra, þenna bikar hljótið þjer að drekka, ef eg á að geta átt yður. En töframaðurinn var ekki seinn að tæma hinn gullna bikar; en áður hann fengi sett hann niður, rak hann upp öskur, og var þegar dauður. Þannig hlaut hinn illi maður illan bana; því guð hegndi rjettlátlega. Stökk *Adónida* nú til *Aladíns*, en hann gekk skjótlega fram úr herberginu, og til karlsins, þar sem hann lá; hafði hann heyrt fallið og öskrið. Fletti hann þá töframanninn klæðum, og fann þegar lampann. Varð hann þá glaður mjög, sem von var, og mælti: *Adónida*, nú höfum við unnið sigur, og munum við bráðum komazt til Bagdað aptur. Bauð hann nú þjónum öllum að ganga á burtu, og beið sjálfur hjá *Adónidu*, þangað til dimmt var orðið; þá bauð hann henni að ganga til hvílu, og muntu gleðjast, sagði hann, er þú vaknar á morgun; treystú mjer. En *Adónida* gekk til hvílu, og tóku hana sætir draumar. Og sem allir voru í fasta svefni, tók *Aladín* lampann, og knúði hann, en andinn kom strax með gleðisvip, og mælti: á eg að flytja höllina aptur til Bagdað, herra minn og drottnari. Já, mælti *Aladín*, flyttu hana sem skjótast. En andinn hvarf, og *Aladín* fann á ofurlitlum hristingi, hvernig höllin lyptist upp, hvarf í gegnum loptið, og var hún þegar komin aptur til Bagdað. Þá gekk hann til hvílu.

En á meðan þetta gjörðist, sat hinn aldraði konungur heima í höll sinni, og var harmandi mjög; hafði hann augun aldrei af þeim stað, er höll *Aladíns* fyrrum stóð á. Hafði hann fyrir löngu iðrast

ákefðar sinnar og reiði, þá er hann vildi láta drepa *Aladín,* og langaði nú til að sjá hann aptur. En þó harmaði hann mest *Adónidu,* og táraðist út af henni nætur og daga. Einhvern morgun gekk hann að glugganum, til að horfa út saknaðaraugum, til þess staðar, þar sem gleðistundir hans höfðu mestar verið. En sem hann leit út, þá var höllin komin þar aptur. Varð konungur svo mjög utan við sig, að hann ekki vissi, hvort hann var vakandi, eða sofandi. Skundaði hann þegar til *Aladíns.* Þá komu *Aladín* og *Adónida* á móti honum, og föðmuðu konunginn, og varð honum svo mikið um, að þau urðu að leiða hann inn í höllina. Sögðu þau honum nú upp alla sögu, og hvernig á höllinni stæði. Síðan leiddi *Aladín* hann inn í herbergið, þar sem lík töframannsins lá, og mælti: lít á, konungur, hjer liggur hinn illi maður; sjá þú hið dökkva og eiturþrungna andlit. Er hann ekki líkur nöðru, sem hefir bitið sjálfa sig, og hefur beðið bana af egin illsku sinni? Fleygið honum fyrir hræfugla og maðka, mælti konungur; og svo var gjört. — Síðan bjó *Aaladín* farsæll með *Adónidu,* og áreitti hann ekki öfund nje hatur manna; varðveitti hann lampann vel, því hann vissi nú, hvað í veði stóð, ef hann týndist. Móðir hans bjó allt af hjá honum, á meðan hún lifði, og blessaði son sinn, því hann hafði ætíð virt hana, og unnt henni hugástum. Fjekk konungur *Aladín* ríkisstjórn, en lagði stjórnina niður sjálfur, og lýkur hjer svo *Aaladíns* sögu.

# Ferðir Sindbaðs.

Svo bar við einhvern dag, að vinnumaður nokkur bar þunga byrði um stræti eitt í *Bagdað;* en maður þessi var bláfátækur. Á leiðinni kom hann að húsi einu, er gluggarnir voru opnir á, og hljómaði frá húsinu glaumur mikill og hljóðfærasláttur, og ylm af rjettum og gómsætum drykkjum lagði víðs vegar út úr húsinu, og var það líklegt, að þar væri veizla mikil. *Jósep* vinnumaður nam staðar fyrir framan húsið; setti hann byrði sína niður, því að hann var þreyttur, er sólarhiti var mikill; og gekk hann til þjóns nokkurs, er í dyrunum stóð. Hann frjetti þjóninn, hver byggi í þessu hinu fagra húsi, og hefði föng á að lifa svo dýrðlega. Leit þjónninn til hans með undrunarsvip, og mælti: hvort ertú svo ókunnur hjer í borginni, að þú eigi þekkir *Sindbað,* þann auðuga siglingamann, er farið hefur um öll höf veraldar, og safnað ógrynni fjár á ferðum sínum. En *Jósep* vinnumaður hafði heyrt þess manns getið, því að ýmsar sögur gengu um hann í borginni, og þær eigi allar sem trúlegastar. Þakkaði vinnumaður nú þjóninum fyrir söguna, og gekk aptur til byrðar sinnar, til þess, að lypta henni á bak sjer, og halda áfram. En er hann var kominn að bagganum, stóð hann við, og líkti í huga sínum farsæld *Sindbaðs* saman við kjör sín; og beiskja tilfinninganna kom yfir

sálu hans, svo hann hrópaði hátt, við sjálfan sig: mikill munur er á kjörum dauðlegra manna! eg hlýt að armæðast í baráttu og bágindum, til þess, að eg geti keypt ódýrasta og óvandaðasta mat handa mjer og mínum; en hinn auðugi *Sindbað* getur eytt ómælanlegum auði, og lifað í gleði og glaumi, án þess að hugsa um ókomna daga. Því er mjer stefnt út í bágindi og eymdir? og fyrir hvað verskuldar hann sælu sína? Frá morgni til kvölds hlýt eg að vinna, á meðan hann sóar fram á nótt, áhyggjulaus.

Meðan hugur hans dvaldi við slíkar hugsanir, kom þjónn út úr húsi *Sindbaðs*, hneigði sig kurteislega fyrir vinnumanninum, og mælti: vinur góður, herra minn langar til að sjá yður; sje yður boð hans eigi á móti, þá fylgið mjer til hans.

Ekki skildi *Jósep* það, hvað væri orsök til þessa boðs; en þáði það af forvitni, og fylgdist með þjóninum inn í hús *Sindbaðs*. Þjónninn leiddi hann í gegn um mörg fögur herbergi, og inn í borðsalinn. Var þar borð, ríkuglega sett rjúkandi skálum, en umhverfis borðið sátu margir vinir hússbóndans, og sjálfur hann í öndvegi. Var *Sindbað* tignarlegur að sjá og vingjarnlegur, og grár fyrir hærum, var skeggið mikið, og liðaðist fagurlega niður á bringu; gæzka skein úr augum hans, og speki ljómaði á hinu mikla enni. Hann kallaði á *Jósep;* og bauð þjónum sínum að færa honum stól og mat; varð vinnumaðurinn að setjast niður við hægri hlið *Sindbaðs*, og taka til matar. Var þessi hinn fátæki maður fyrst nokkuð utan við sig, og vissi eigi, hversu hann skyldi haga sjer í slíku samkvæmi. Samt hughreyst-

ist hann brátt, þá er hann sá, að allir voru vingjarnlegir við hann og þægilegir.

Þá er hann var mettur orðinn, snjerist *Sindbað* að honum, og spurði hann að heiti, en hann kvaðst vera *Jósep* vinnumaður. Það vildi eg, mælti *Sindbað,* að þú segðir mjer upp aptur þau hin sömu orð, er þú mæltir úti á strætinu. Því að *Sindbað* hafði heyrt út um gluggann allt það er vinnumaðurinn hafði sagt í eymdum sínum, og einmitt þessa vegna hafði hann látið kalla á *Jósep.* Varð honum kynlega við bón *Sindbaðs,* hann roðnaði og þagði.

*Sindbað* mælti þá: Vinur, eigi skaltu fyrirverða þig, sakir orða þinna, því líklegt er, að þú eigi þekkir allar þær hættur og þrautir, sem lagst hafa fyrir mig á þeim ferðum, er eg hefi safnað auði mínum á, og þú gjörir þjer í hugarlund, að eg sje einn þeirra, sem auðurinn streymir til af sjálfum sjer. Er von, að slík hugsun vekti hjá þjer óyndi, þá er þú líktir kjörum þínum saman við mín. En nú mun eg segja þjer frá því, sem á dagana hefur drifið fyrir mjer, áður eg öðlaðist rósemi og hvíld; og vonar mig, að þú eigi munir öfundast yfir mjer, þá er þú hefur heyrt sögu mína. Síðan snjerist hann til hinna annara boðsmanna, og mælti, að vera mætti, að þeim þætti gaman að heyra á ferðasögur sínar, er hann sagði að væru ekki ómerkilegar.

Síðan bauð hann þjónum sínum að bera byrði *Jóseps* af strætinu, þangað, sem hún ætti að fara; en sjálfur byrjaði hann söguna, og mælti:

Faðir minn var kaupmaður auðugur hjer í borginni, og var eg átján vetra, er hann deyði; var eg gleðimaður og mjög gefinn fyrir skemmtanir. Leið

þannig eitt ár, að eg lifði í gleði og glaumi, og bar eigi áhyggju fyrir ókominni tíð, heldur skemmti eg mjer með vinum mínum og kunningjum, svo sem unnt var. Þurfti eg þá stöku sinnum að fara í fjárskrínu mína, sem von var, þar eð eg eigi var naumur á fje. En þar kom, þó um síðir, að mjer tóku skemmtanir þessar að gjörast leiðar, og hætti eg því þessu gleðilífi, en tók saman það, er eg átti eptir, því nú vildi eg eigi lengur sóa fje til ónýts munaðar, og lifa svo í bágindum í ellinni. Voru þó eignir mínar rýrnaðar mjög, og seldi eg því allt það, er eg átti, fyrir peninga, og keypti aptur varning. Síðan ráðgaðist eg um, við kaupmenn þá, er höfðu verið vinir föður míns, hvernig eg gæti tekið til verzlunar með sem mestum ábata; en allir rjeðu mjer til, að fara í siglingar. Fannst mjer það gott ráð og skynsamlegt. Fór eg til hafnar nokkurrar á Persalandi, og fann þar skip, stje á það með allt er eg átti, og hjelt frá landi. Gekk nú allt vel fyrsta daginn, og einnig hinn annan og hinn þriðja, og vonaði eg alls góðs. En á fjórða degi kom ofviðri, svo að vjer urðum bæði heyrnarlausir og sjónlausir af veðrinu. Formaður á skipinu var sjómaður góður, varð hann eigi hræddur; heldur ljet hann hagræða seglunum, og stýrði með mikilli kunnáttu; en ekkert stoðaði. Loksins reif veðrið seglin í sundur, og misstum vjer þau öll. Þá óx veðrið enn meira, og braut stýrið; vorum vjer nú allir agndofa, og greip dauðans angist háseta. Því að ýmist hófst skipið til himins upp, eður það sökk í hyldýpisdali á milli aldanna, og veltist á ýmsa vegu. Gátum vjer nú ekkert að gjört, og að stundu liðinni veltist

fram óttaleg bára, er greip skipið, hóf það að skýjum upp, og slengdi því á grynningu; og brotnaði það í smá mola. Fórust þar menn allir, nema eg og nokkrir kaupmenn; vjer komumst af á þann hátt, að vjer hjeldum oss við skipsflakana, og fleygði brimið oss upp á eyju nokkra; þar lágum vjer í óviti um hríð.

Þá er vjer röknuðum við, var komið kvöld. Leituðum vjer nú uppi ávexti nokkra, er fallið höfðu niður af eikunum; neyttum vjer þeirra, en þótt þeir væri beiskir og súrir. Síðan lögðumst vjer til svefns, þá er nótt var komin, og sváfum rólega, þangað til er dagaði. Vöknuðum vjer þá, og ráðguðumst um, hvað til bragðs skyldi taka. Voru flestir á því, að vjer skyldum halda á land upp, og leita að mannabyggðum; því að það hjeldum vjer, að eyja þessi eigi mundi vera óbyggð. Fórum vjer nú allir á stað, og að nokkurri stundu liðinni sáum vjer hús nokkur, með kringlóttum og hvelfdum þökum, er blöstu við oss. Þegar vjer áttum spölkorn þangað að, kom á móti oss blámannaflokkur, og ljetu þeir vinalátum í fyrstu, en þá er þeir voru búnir að umkringja oss, fóru þeir að oss með ópi og emjan mikilli; bundu hendur vorar á bak aptur, og ráku oss heim að húsunum. Þar skiptu þeir oss niður sín á milli og er það frá mjer að segja, að maður nokkur ljótur ásýndum og illilegur, fjekk mig, og nokkra aðra, í hlutskipti sitt Hann fór með oss heim til sín, leysti oss, úr böndunum, og hótaði oss dauða, ef að vjer leituðumst við að flýja. Ljezt hann síðan kenna í brjósti um oss, og spurði, hvort vjer værum svangir. En sultur þröngdi að oss öllum fastlega. Gekk blámað-

urinn þá á burtu, og kom aptur með undarlegar jurtir, er bundnar voru í bagga; hann fleygði jurtunum niður, og bauð, að vjer skyldum taka til matar. Ruddust fjelagar mínir að mat þessum, eins og væru þeir soltnir hundar; en eg varð eptir, og stillti mig eptir megni, því að mjer bauð við jurtum þessum, og má eg lofa guð fyrir það, að hann ljet mjer detta það í hug. Því að fjelagar mínir, er höfðu neytt jurtanna, urðu vitstola; þeir ljetu gleðilátum, og ljeku við hvern sinn fingur, og dönsuðu vitlausir og blindir allt í kring, og stóðu í þeim augun. Þetta var nú einmitt ætlun hússbónda vors; og ól hann nú þessa hina aumu og vitstola menn á kröptugri fæðu, á mjólk og á kjöti, þar til er þeir urðu spikfeitir. Enda urðu þeir það og á stuttum tíma, því að þeir voru með öllu áhyggjulausir, og átu og drukku daginn út og daginn inn. Og er hússbóndinn sá, að þeir rjeru í spikinu, þá slátraði hann þeim hverjum af öðrum, eins og væru þeir sauðir, og brytjaði þá niður. Voru þeir nú matreiddir á ýmsa vegu. En eg hafði allt af fulla rænu, og leizt mjer viðurstyggilegt að sjá alla þessa hluti; gramdist eg og svo mjög út af því, að eg horaðist upp, svo að hússbónda mínum þótti eigi sá slægur í mjer, að hann vildi slátra mjer; því að eg var ekki nema skinin beinin. Þótti nú ekkert til mín koma, og var eg látinn fara hvert, er eg vildi; enginn skipti sjer af mjer, og ætlaði eg að nota mjer það, til að flýja. Leitaði eg uppi ávöxtu og matvæli allstaðar þar, er eg mátti, og geymdi það á afviknum stað; átti eg um síðir töluverðan forða.

Einhvern dag fóru allir þeir, er vetlingi gátu valdið, úr bænum, og urðu engir heima, nema börn

og gamalmenni; átti þá að fara að fjandmönnum nokkrum, er voru tvær dagleiðir þaðan. Beið eg nú nokkra stund, eptir að allt var farið, svo að eg væri þess fullviss, að þeir eigi kæmu aptur að mjer óvörum; síðan gekk eg þangað að, er hestar hússbóndans stóðu, og tók bezta hestinn; tók eg nú með mjer matarforða minn; og hleypti í loptinu í gegnum blámannaþorpið, en öll gamalmennin sáu til farar minnar, en þeir æptu og emjuðu, og mátti þó enginn veita mjer eptirför fyrir sakir elli og þróttleysis; enda gaf eg mig eigi að þeim, því að eg var glaður við, er eg slapp úr klóm mannætanna. Reið eg viðstöðulaust þann dag allan til kvölds; varð eg þá að hvíla hestinn. Batt eg hann við eik eina, og tíndi handa honum jurtir og grös. Síðan hjelt eg áfram, en fór hægra, því að eg þurfti eigi að óttast fjandmenn mína lengur.

Á áttunda degi kom eg að sjó fram, og hitti þar hvíta menn, er söfnuðu pipar, sem mikil gnótt var af í því landi. Var vel tekið á móti mjer, og hlaut eg að segja, hvað mjer hefði viljað til; en menn þessir lofuðu, að þeir skyldu sjá um mig, og flytja mig heim til sín. Var piparuppskeran úti fjórum vikum áður en eg kom þangað; öll skipin voru fermd, og sigldum vjer á fám dögum til lands manna þessara. Var eg leiddur fyrir konung, og ræddi eg við hann lengi. Konungur var ungur maður og vingjarnlegur; þótti honum gaman að tala við mig. Og er hann kvaddi mig, bauð hann þjónum sínum, að þeir skyldu láta mig koma til sín allajafna, án þess að væri látið vita af mjer áður; síðan gaf konungur mjer fimm hundruð gullpeninga, og kom sú gjöf sjer ekki

illa, því að eg var með öllu fjelaus orðinn, og mundi eigi hafa vel farið fyrir mjer, ef konungur ekki hefði gefið mjer fje þetta. Keypti eg mjer nýjan fatnað, og gekk nú fagurlega búinn. Þegar eg hafði dvalið í borginni um hríð, tók eg eptir því, að konungur og allir menn aðrir riðu berbakt, og höfðu aldrei söðla; talaði eg um þenna hlut við konunginn. En konungur skildi mig eigi, og skýrði eg honum þá frá því, er eg meinti; því að á því landi þekktu menn eigi söðla. Gekk eg nú til ýmissa trjesmiða og listamanna, og sýndi þeim með uppdráttum og fyrirsögnum, á hvern hátt menn skyldu búa til söðul, er væri bæði fagur og hagkvæmur. En smiðirnir skildu meiningu mína, og er eg hafði látið gjöra söðulinn, gaf eg konungi hann. Ljet hann þá strax leiða fram hest sinn, og var lagt á hann; síðan stje konungur á bak, og reið til og frá. Hrósaði hann mjer fyrir smíðina, og beiddi mig um marga fleiri söðla; ljet hann og greiða mjer ekki alllitið fje, því að honum líkaði vel smíðin. Nú vildu allir verða eins og konungur, og beiddu svo margir mig um söðla, að eg ekki komst yfir allt það, er mjer var falið á hendur að vinna. Og svo mikið fje hlaut eg fyrir verk mitt, að eg auðgaðist stórum, svo að eg varð einna ríkastur borgarmanna. Unni konungur mjer og harla mikið, og hlaut eg að vera allt af hjá honum, þá er eg hafði tíma til þess; og svo var ást hans mikil á mjer, að hann gaf mjer frændkonu sína. Leið mjer nú harla vel, og ekkert vantaði mig; því að allar nautnir lífsins og ágæti stóðu mjer til boða, og mundi eg vel hafa getað verið ánægður og farsæll. En eg var það samt ekki, því að mig langaði allt af apt-

ur til Bagdað, og mátti eg eigi gleyma heimkynnum mínum og föðurlandi. Ásetti eg mjer, að fara þangað, svo fljótt sem yrði.

Nú bar svo við, að kona eins nágranna míns varð sjúk, og andaðist. Tók eg sorgarklæði, og gekk til vinar míns, og vildi mæla við hann huggunarorðum: Friður sje með yður mælti eg við hann, drottinn gefi yður langa lífdaga. En maðurinn horfði á mig með sorglegum svip, og mælti: Vinur minn, vitið þjer þá eigi, að dagar mínir eru taldir, og að eg ekki á að lifa lengur, en þangað til á morgun? En eg skildi eigi orð hans, heldur hugsaði eg, að hann mælti svo, fyrir sakir hryggðar og saknaðar; talaði eg við hann mörgum ástríkum orðum innilegum. En hann sagði mjer af mikilli alvöru, að þá er giptur maður dæi á því landi, þá hlyti kona hans að láta kviksetjast, ásamt líki manns síns, og að maður konunnar hlyti einnig að deyja á sama hátt, ef að konan andaðist. Á morgun rennur upp fyrir mjer hin hinnsta sól jarðneskra daga: því að eg mun leiddur verða að bjargi dauðans, og þar mun konu minni verða niður sökkt í hina djúpu gröf, er svelgir allt lifanda. Síðan grjet hinn ógæfusami maður, huldi ásjónu sína, og harmaði sárlega. Varð eg nú agndofa yfir þessari óttalegu fregn, er eg hafði heyrt af hendingu; gekk eg á burtu, og rakleiðis til konungs. Sagði eg honum frá því, er eg hafði heyrt, og spurði, hvort að útlendir menn væru sömu lögum háðir, eins og landsmenn. En konungur brosti, og mælti: Vinur minn að vísu er svo, og hið sama hlýtur yfir þá að ganga, þá er konur þeirra deyja. Eru lög þessi ströng, svo að eg siálfur hlýt að hlýðn-

ast þeim, enda þó eg sje konungur. Huggastú því, vinur minn, og gættú að því, að þú ert eigi hinn einasti, sem mun kviksettur verða. Síðan þagnaði konungur, en eg gekk á burtu mjög harmþrunginn og óttasleginn; orð konungs veittu mjer og enga huggun. Jókst nú við þetta löngun mín til að komast á burtu, og mig vantaði ekkert til heimferðarinnar, nema tækifærið. Varð eg og mjög hræddur um heilsu konu minnar, og í hvert sinn, er hún veiktist hið minnsta, sendi eg eptir læknum í allar áttir; en það tjáði eigi, því að hún varð dauðveik, svo að engin læknislist mátti við, og fór svo að lyktum, að hún andaðist.

Eigi má eg með orðum útlista ótta minn og hryggðar-örvæntingu, þá er eg sá með vissu, að hún var liðin, og mátti eigi snúa aptur til lífsins. Eg var sem agndofa, og sat lengi í óttalegum hugsunum, út af því, að eg skyldi eiga að kviksetjast. Fannst mjer dagurinn renna á lopt með geysihraða, enda þótt hann kæmi eins hægt, og hann var vanur; en eg hlaut að láta mjer lynda við það, er forlögin vildu láta fram við mig koma. Sat eg nú máttlaus og daufur, og var ástand mitt hið aumlegasta; því að ekkert var undanfæri, þar sem hús mitt var umkringt af hermönnum konungsins; voru þeir settir þar í heiðurs skyni, fyrir mig. Loksins dundi jörðin undir líkvagninum, er ekið var að dyrum mínum; kom og konungur sjálfur með alla hirð sína, því að hann unni mjer mikillega, og ætlaði að fylgja mjer upp á bjarg dauðans. Líkmennirnir komu nú inn í hús mitt, og báru lík konu minnar að líkvagninum. Var mjer nú boðið að fylgjast með; en eg stóð upp, sem

væri jeg sturlaður, og gekk út; sá eg þá ekkert, því að sorta dró fyrir augu mjer; var nú haldið á stað. Gekk lífvörður konungs fremstur, þar eptir kom líkvagninn og eg þar næst; en þá fylgdi konungur og hirðmenn hans. Komum vjer nú loksins að bjargi dauðans, og var lokið upp þeim hurðum, er huldu dauða-djúpið; en það gein á móti mjer, og dimmt var það og ægilegt. Þá greip mig dauðans angist, og fjell eg í óvit. En á meðan eg lá í óvitinu, var lík konu minnar látið síga niður í djúpið, og nú átti eg að fara á eptir. En er þeir tóku undir hendur mjer, til að sökkva mjer, þá brauzt eg um ógurlega, svo að eg reif mig úr höndum þeirra, og fleygði mjer niður fyrir fætur konunginum; grátbændi eg hann um líf. Grjet konungur þá sjálfur, og hvatti mig með mörgum fögrum orðum til að vera hughraustan og stöðugan; því að með öllu konungsvaldi sínu gat hann ekkert bætt um fyrir mjer. Var þá öll von úti; tóku þjónarnir mig, og sökktu mjer í hyldýpið; en eg hvarf með eymdarhljóði; heyrði eg nú álengdar, hvernig hurðin skeldist aptur, og menn fóru á burtu. Lá eg nú í óviti um hríð; en þá er eg vaknaði, sótti mig ógurlegt hungur, og tók eg brauð, er sökt var niður með mjer; þar stóð og vatnskrukka, og át eg nú brauðið með afar mikilli græðgi, og drakk vatnið. Tók eg nú til að hugsa um eymd mína og volæði, og sá eg glögglega, að eg hlaut að deyja þar af hungri og viðbjóðslegri stækju. Allt í kring lágu dauðahöfuð og beinagrindur og úldin lík; þar skriðu völskur og nöðrur, og rifu og slitu í sig hræin; fældust kvikindin ekki hið minnsta af ópi mínu. Óttalegur daun

eitraði loptið, svo að eg varla mátti anda draga; dálitla skímu lagði inn um rifu, er á var hellisveggnum og gjörði það ljós allt enn voðalegra; því að eg sá, hversu hinar tómu augnaholur höfuðskeljanna störðu á mig með draugslegum svip, og skein í tennurnar. Hvervetna var dauði, eyðilegging og voði. Kom nú yfir mig ótti og angist, og gjörsamleg örvænting; eg tætti hárið af höfði mjer, öskraði af gremju og vitleysu, og rak höfuð mitt á vegginn, til þess að brjóta það, eða rota mig, en það tókst ekki. Ef að eg hefði haft vopn, annaðhvort kníf, eður sax, þá mundi eg með gleði hafa rekið hann í brjóst mjer, og látið mjer blæða til bana. Því meir, sem eg vandist ljóss-skímunni, og tók betur eptir öllu því, er í kríng um mig var, þess óttaslegnari varð eg. Ýmislegt kvikindamor úði og grúði í kring um mig, og fjekk eg eigi rekið það á burtu, og var sem þau áliti mig þegar fyrir hræ, þar sem eg stóð lifandi, og komu völskur og ormar, og tóku til að bíta í fætur mjer. En eg varð sem vitstola, og barði í kring um mig, og drap allt, er nærri mjer kom. Hvervetna blikuðu men, gersemar og gullgripir, af enum fegurstu gimsteinum, er voru fest á hina blásnu hálsa og hina kjötlausu fingur, því að á þessu landi var það siður, að skrýða hina dánu dýrindis klæðum. En nú girntist eg eigi hið minnsta af gripum þessum; mundi eg hafa gefið þá alla saman fyrir eitt lítið brauð, því að eg var ákaflega hungraður. Nú kom nótt yfir, og gjörðist aldimmt; og varð enn óttalegra í hinni myrku gröf. Eg stóð kyrr, og hallaðist upp við grafarvegginn; eg, hinn eini lifandi meðal ótal dauðra hræja; og eg hlustaði með eptirtekt

á nöðru-blásturinn, og völskunagið; ormarnir lögðust utan um mig, og þefuðu af höndum mjer með hinum köldu og votu trjónum, en eg bægði þeim frá mjer.

Þannig dvaldi eg marga tíma, og var af mjer kominn af viðbjóði og ótta; þá heyrði eg einhverjar stunur. Varð eg fyrst hræddur, en þá er hljóðið færðist nær, þá gekk eg djarflega á móti því; en þá hætti hljóðið. Þá heyrði eg til þess aptur, en eg tók eptir því, að það færðist undan, og gekk eg nú á eptir; ýmist hætti það, eður kom aptur. Heyrði eg og, að það mundi vera dýr nokkuð, er vildi flýja undan mjer; gjörðist eg þá enn ákafari, og var þangað til að elta, að eg sá bjarma nokkurn álengdar, eins og dagsljós skini ofan um klettaskoru. Varð eg nú djarfari, því að eg tók að vonast eptir því, að eg mundi komast lífs af. og sjá, birtan varð meiri, og loksins fann eg útganginn; varð eg þá frá mjer numinn af gleði. Eg sá hinn bláa og ljósa upphimin, og hinn djúpa og víða sæ; og eg andaði hið hreina lopt; og fjell eg þá í óvit til jarðar, af gleði. Vonum bráðar raknaði eg við aptur, og hrópaði upp yfir mig, og fleygði mjer til jarðar hvað eptir annað, og kyssti foldina; og eg svalg himinsloptið í löngum teigum, og fjekk eigi ráðið mjer, af fögnuði. Loksins þakkaði eg drottni fyrir lausn mína. En það, sem gaf hljóðið af sjer, er eg fylgði, og sem leiddi mig út úr dauðadjúpinu, það var reyndar dýr, og steypti það sjer í sjóinn, þegar eg kom út í dagsbirtuna; var sem drottinn sjálfur hefði látið það fara til mín. Þegar eg var búinn að átta mig, sá eg skip mörg, er sigldu til og frá um sjóinn; kallaði eg á eitt þeirra, og beiddist fars; var mjer viðtaka veitt,

og lentum vjer í höfn einni á *Persalandi.* Fór eg þá aptur til *Bagdað,* og var búinn að fá nóg um stund af ferðalaginu, því eg mátti eigi gleyma bjargi dauðans.

Að því mæltu þagnaði *Sindbað,* og var hætt veizlunni. Gaf hann vinnumanninum eitt hundrað gullpeninga, og bauð honum að koma daginn eptir, til þess að fá meira að heyra. Fóru boðsmenn á burtu, og vinnumaðurinn með þeim.

Daginn eptir klæddist vinnumaðurinn svo vel, sem hann átti kost á; hafði honum leiðst mjög, því að hann langaði harla mikið til að heyra meira af æfintýrum farmannsins; skundaði hann nú sem skjótast til *Sindbaðs.* Var vel tekið á móti honum, og er upp var staðið frá borðum sagði *Sindbad* frá annari ferð sinni og mælti þannig:

Með tímanum gleymdist mikið af þeim voða og þeirri hættu; er eg hafði í ratað, og dofnaði tilfinning mín á því; leið nú eigi á löngu, áður mig langaði til að fara ferð að nýju. Vinir mínir vöruðu mig við ferðum, en eg gaf mig ekki að áminningum þeirra, og ætlaði eg nú að þessu sinni að vera varkárari. Keypti eg nú sjálfur skip, til þess, að eg eigi þyrfti að vera upp á aðra kominn, og eg gæti farið hvert, sem eg vildi; það var og ásetningur minn, að snúa þegar aptur, ef nokkur ógæfa vildi mjer til. Tók eg nú stýrimann góðan, og setti hann fyrir skipið. Síðan fermdi eg það með ýmsum varningi, og tók á skip með mjer nokkra kaupmenn, er einnig ætluðu að græða á verzlun. Var nú látið í haf, og sigldum vjer á fram; þá sáum vjer ekkert annað, en hinn bláa himin, og hið víða sjávardjúp. Gekk

oss nú ferðin vel framan af, og mundi öll hafa vel tekist, hefðu eigi kaupmennirnir stofnað oss öllum í vanda, með heimsku sinni. Svo bar við, að vjer þurftum vatns, og lentum því skipinu við strönd nokkra auða og sendna. Höfðum vjer lengi á sjó verið, og gengu því allir á land, sjer til skemmtunar. En eyja sú, er vjer vorum að komnir, var land það, er hinn mikli og ógurlegi gammur, er *Rok* nefnist, gjörir hreiður sitt á. Lá eitt egg fugls þessa á sandinum. Sáum vjer það allir, og horfðum á það með undrun. Var eggið svo mikið út klakið, að vjer heyrðum, hvernig fuglinn barði á skurnið með nefinu, og sprengdi það; leit hann út úr egginu, og undraðist. Gripu mennirnir nú handexar, ljetu allar áminningar mínar sem vind um eyrun þjóta, drógu fuglsungann út úr eggskurninu, hjuggu hann í sundur, og kveiktu upp eld mikinn, til þess að steikja hann á. Meðan þeir voru að þessu verki, sá eg, að tvö dimm ský dró upp við hafsbrún, og liðu á himin upp með miklum hraða; sá eg loks með dauðans ótta, að það voru tveir *Rok*-gammar, foreldri ungans, og vissum vjer nú, að vjer eigi mundum af komast, nema með skjótum flótta. Rak eg nú harðlega eptir öllum, og aðstoðaði stýrimaður mig vel, því að honum var sá hlutur eigi ókunnugur; flýttum vjer oss nú allir út á skipið. En það var um seinan. Á meðan vjer vorum að halda á burtu, heyrðum vjer kveinstafi fuglanna, er höfðu fundið eggið brotið, og ungann blóðugan og brytjaðan í sundur; gekk mjer kvein þeirra nær hjarta. Síðan sá eg, að báðir fuglarnir flugu í lopt upp, fylltir grimmdar og bræði, og flugu á burtu, svo sem elding færi. Hjelt eg, að

þeir eigi mundu hafa orðið varir við oss, og dró eg þunglega anda. En sú von brást mjer, því að þeir snjeru brátt aptur, fuglarnir miklu; komu þeir báðir aptur, með sinn klettinn í klónum hvor; flugu þeir nú upp yfir skip mitt. Þeir svifu allt að skýjum upp, og ljet annar fuglanna klettinn falla, til þess að mola skipið í sundur, en stýrimaður gætti vel að, og snjeri skipinu, svo að kletturinn fjell hjá borðstokknum, og með svo fjarskalegum krapti, að sjórinn klofnaði að grunnum niður, og sást í svartan sandinn. Sá nú hinn fuglinn, að kletturinn eigi hitti skipið; og ljet hann nú klett sinn falla niður, og hitti sá klettur skipið betur, því að hann kom niður á miðjar þiljurnar, og molaðist skipið í smá-agnir, og flæktust flakarnir til og frá um sjóinn. Týndust menn allir, nema eg; því að eg stóð í stafni frammi, og hitti bjargið mig eigi; en hinir aðrir hlutu laun grimmdar sinnar, er þeir drápu unga *Rok*-gammsins, og hirtu eigi um áminningar mínar.

Svo var eg heppinn, að eg náði í flaka einn, og rjeri jeg af öllum mætti að eyju nokkurri, þar sem ströndin var há og grasi vaxin. Komst eg nú upp á eyjuna, og settist á grasið, er óx á bakkanum. Þá gekk eg upp á eyjuna, og sá ofan af hæð einni, eins og ofan á blómreit, því að eyjan var fögur og unaðleg yfir að líta. Svo voru þar mörg blóm, og svo voru litir þeirra fagrir og glæsilegir, að öll grundin var sem blómsaumaður dúkur. Fagurlega vaxnir skógarrunnar þróuðust hingað og þangað, og voru fullir af aldinum og ágætum ávöxtum; hátypptir pálmar skyggðu yfir þá; þar voru og lárviðir, sítrónutrje og óranseikur; voru öll trjen alsett aldin-

um, og blikaði þar margur gullinn blómi á milli dökkra laufa, er þau hneigði svalur sjávarborinn himinblær; þar voru vínviðartágar, þungaðar dökkrauðum vínberjum fullþroska, er bentu mjer til svalandi nautnar; þar niðaði silfurfagur lækur, er rann í skugga þjettvaxinna hrísrunna og undir laufþaki álútra eika; þar voru dýrðleg fiðrildi, er blikuðu eins og blossandi eldgneistar með marglitum ljóma; og margar þúsundir smáfugla sátu á eikunum, og flugu í loptinu, og sungu, svo að glumdi í skógarrunnunum af himneskum hljómi. Gekk eg með gleði og undrun niður í þenna hinn himneska dal, og virtist mjer, sem væri eg kominn á ódáins akur. Gekk eg nú til og frá, og tíndi safamikla ávöxtu og sæl vínber; var eg orðinn þreyttur að kvöldi, og lagðist niður á hinn ilmandi blómreit; svaf eg þar þangað til um morguninn.

Þegar eg vaknaði, laugaðist eg í læknum, og gekk lengra inn á eyjuna, til þess að kanna hana betur. Hafði eg eigi lengi gengið, er eg leit, hvar lítill maður gamall sat á lækjarbakkanum, virtist mjer hann vera haltur og mjög veiklegur að sjá. Hann benti mjer, og skundaði eg til hans. Síðan ljet hann mig vita með bendingu, að hann væri mállaus; rjetti hann mjer magra og hrukkótta hönd, og beiddist þess með bendingum, að eg bæri sig yfir lækinn; því hann ætlaði að lesa ávöxtu þá, er uxu hinu megin við lækinn, og blikuðu á milli laufanna. Grunaði mig ekkert, heldur tók eg þenna hinn gamla mann á bak mjer, og óð með hann yfir lækinn. Þá er eg var kominn yfir lækinn, beiddi eg hann, að fara ofan, og beygði mig, svo honum veitti það hægra.

En þá tók þrjótur þessi til að hlæja, og var sem margir hrafnar krunkuðu hver framan í annan; hann spennti fæturna um háls mjer, og kreisti mig svo sterklega, að eg mundi ella eigi hafa trúað því, að afl hans væri svo mikið. Á, á, kögurbarn, hrópaði hann með hárri röddu, það var nú ekki meiningin; nú ertú orðinn gæðingur minn, og hlýtur nú að bera mig hvert er eg vil. Hló hann þá svo gríðarlega, að eg varð óttasleginn; hjelt eg fyrir bæði eyru, svo að eg eigi skyldi heyra rödd hans; svo var hún hræðileg. Varð eg reiður mjög út af slíkum svikum, og hugsaði eg með sjálfum mjer, að eg skyldi þó sigrast á honum; hrópaði eg þá hátt: ætlar þú þjer þetta, þorparinn, skal þjer það víst eigi takast. Reyndi eg þá til, að taka í sundur fætur hans, er hann hafði krosslagt á brjósti mjer, en það tókst mjer ekki; barði hinn gamli maður mig þá, og veitti mjer mikil og ill höfuðhögg, svo að mjer lá við bana. Varð eg þá enn æfari, og kleip og beit hann, sem væri eg vitskertur, í fætur og kálfa, en það var til einskis; því að húð hans var þykkri en nautshúð, og mátti eg eigi á vinna. Þá hló þorparinn að mjer, losaði annan fótinn, og barði mig svo hroðalega, að eg fjell stynjandi til jarðar. Hann ljet mig hvílast nokkra stund; en undir eins, og hann sá, að eg hresstist nokkuð, þá barði hann mig aptur hroðalega, svo að eg hlaut að standa upp aptur, og renna um kring með þrælmennið á bakinu, hvert sem hann vildi, enda rak hann og fullkomlega á eptir mjer, og ljet mig engan frið hafa. Fjekk eg varla tíma til, að lesa nokkra ávöxtu, til þess að hressa mig á safa þeirra. Og sem kvöld var komið, skipaði harðstjóri

þessi mjer að bera sig heim til sín, og sagði mjer, hvaða leið eg skyldi ganga. Og er eg var þangað kominn, þá sá eg, að hús hans var eínungis laufskáli einn; lögðumst við þá niður, og sleppti karlinn ekki fótunum, svo að eg varð að bera hann, enda á meðan eg svaf. En eg sofnaði, þó að ekki væri sem hægast um mig, því að eg var, þreyttur mjög.

Daginn eptir gekk allt á sama hátt. Karlinn vakti mig með höggum og barsmíði, og hlaut eg að skeiða og hlaupa með hann á bakinu, eins og hestur; dugði þar ekkert um að tala. Bar eg hann nú þannig í fjórar vikur, og var orðinn vanur ánauð þessari; þá bar svo við einhvern dag, að eg fann stóra ávaxtarhnot undir vínviðartágum nokkrum; og datt mjer þegar ráð í hug, er eg óðara framkvæmdi. Tók eg nú hnotina, hreinsaði hana og þerraði, og las vínber úr runnunum. Ljet karlinn mig ráða, því að honum var forvitni á, að fá að sjá, hvað eg hefði fyrir stafni. Tók eg síðan vínberin, og kreisti úr þeim safann, og ljet í hnotina, þar til er hún varð full; síðan ljet eg hnotina í sólarhita, til þess að hleypa ólgu í safann; ljet eg þetta síðan standa, þar til er daginn eptir; þá fór eg að vitja þess. Setti eg nú hnotina á munn mjer, og var safinn þá orðinn að hinu ágætasta víni. Tók eg ekki alllítið til mín úr hnotinni, og lífgaðist eg brátt og örvaðist af víninu, svo að eg gleymdi eymdum mínum, og söng og kvað hinar gázkalegustu gamanvísur; stökk eg þá og dansaði hátt í lopt upp með karlinn, eins og væri hann fuglsfjöður. Þótti honum það skrítilegt athæfi, og mun hann hafa sjeð, að allt þetta kom

til af því, er í hnotinni var; þreif hann nú af mjer hnotina, setti hana á munn sjer, og þótti gott vínið. Var töluvert eptir í hnotinni; karlinn drakk og svalg vínið, þar til er allt var þrotið. Kom þar um síðir, að hann gjörðist kenndur; hló sem hann væri vitstola, hristi sig og skók á baki mjer, og barði sig og mig með höndum og fótum. Síðan gjörði hann gælur við mig, klappaði mjer, og var ákaflega blíður. Loksins tók hann til að syngja, og var rödd hans lík hrafnakrúnki eður ugluskræk. Söng hann fyrst hátt, en smámsaman tók rödd hans að lækka, og drafaði í honum. Þá var hann orðinn dauðadrukkinn; en eg reif fætur hans af mjer, og hristi karlinn ofan; lá hann þar á jörðunni, og mátti varla draga anda, svo drukkinn var hann. Tók eg nú stein einn mikinn, og molaði hauskúpuna á fúlmenni þessu; varð það bani hans, og lausn mín. Ávítaði samvizka mín mig ekkert fyrir þetta, því að eg hafði þolað nógar eymdir; en eg var harla glaður, og þóttist mjög farsæll. Gekk eg nú fyrst og fremst niður í fjöru, setti þar niður háfa stöng, og merki á; síðan bjó eg mjer til kofakorn, þar sem eg mátti líta yfir sjóinn. Því að þó eyjan væri fögur og yndisleg, þá fýsti mig á burtu þaðan, og fannst mjer leitt og dauft í einveru þessari. Gætti eg því vel að öllum skipum, þeim er fram hjá kynnu að sigla. Sá eg mörg, en þau voru of langt í burtu, og gat eg eigi kallað svo langt. En svo vildi til, að mikið og fagurt skip lagði upp að ströndunni, þar sem eg bjó, og kom bátur í land, til þess að sækja vatn og ávöxtu. Þá er skipverjar voru á land komir, hrópaði eg til þeirra, og beiddist fars hjá þeim. En þeir

undruðust, er þeir sáu mig, þar sem eg var einn lifandi manna á þessari eyðieyju; því að þú, sögðu þeir við mig, ert hinn fyrsti, sem karl sá hinn illi hefur látið undan komast með lífi. Var hann alræmdur á meðal allra farmanna; og þá er eitthvert skip bar þar að eyjunni, þá voguðu menn eigi að ganga á land upp, nema margir í hóp, af ótta fyrir fúlmenninu. Sagði eg þeim frá kænsku minni, er eg drap hann; en þeir urðu fegnir, og tóku mig á skip; veittu þeir mjer allt það, er eg þarfnaðist. Þannig komst eg úr eyjunni, og hjeldum vjer þaðan til staðar nokkurs á *Affríku*-strönd. Var þar lagst fyrir akkeri, og ætluðu menn að safna kókoshnetum, er uxu þar mjög um þær slóðir, og voru seldar fyrir mikið verð.

Þegar eg var genginn af skipi, og var búinn að þakka stýrimanni fyrir farið, ljet kaupmaður nokkur mig fylgjast með sjer heim til sín, og hjet mjer því, að hann skyldi sjá um mig. Eg hafði kynnst manni þessum, og var kominn að raun um, að hann var hjartagóður og mannúðlegur; þáði eg þess vegna boð hans, og fylgdist gjarnsamlega heim með honum. Fjekk hann mjer poka einn, og mælti, að eg skyldi fara með hann út fyrir borgina, og ganga hálfa mílu vegar; mundi eg þá koma á skóg einn mikinn, er alvaxinn væri kókospálmum, og byggðu þar apar. Sagði hann mjer og, að eg skyldi taka steina, og látast kasta í apana; þá mundi eg sjá hvernig færi. Tók eg nú pokann, og gekk, þangað til eg kom út á mörkina. Þar sá eg hina fegurstu kókospálma, og ótölulegan apagrúa, er ljeku sjer uppi á eikunum, og klifruðu upp og ofan; og varð eg hissa yfir skjótleika þeirra og liðugleika, því að trjen voru

afarhá, og öldungis greinalaus upp að laufkrúnunni. Tók eg nú upp steina, og fleygði þeim í apana, en eg gat varla kastað upp í miðja stofnana, svo hávaxin voru trjen; en uppi á þeim sátu aparnir í laufinu. Og er þeir urðu mín varir, þá tóku þeir þegar til að skæla sig í framan og gretta, eins og þeir mundu vilja smána mig; tóku þeir þá mikinn fjölda kókoshneta, og miðuðu á mig svo hnittilega, að eg varla fjekk vikið undan sendingum þeirra. En eg fór undir eik eina, og ljet þá kasta hnetum, eins og þeir vildu; þeir hættu og eptir nokkra stund; og er þeir voru hættir, þá gekk eg að pokanum; voru þar þá svo margar hnetur, að eg fyllti pokann, og hlaut að skilja ógrynni eptir; en það, er eg hafði fengið, bar eg til kaupmannsins, vinar míns, og galt hann mjer töluvert fje fyrir. Var eg nú að starfa þessum í nokkra mánuði, hafði eg þá sjálfur fengið svo mikið af kókoshnetum og peningum, að eg fór að hugsa til heimferðar. Fjekk eg mjer þá skip, fermdi það með hnetum, og varðveitti fje mitt vandlega; síðan kvaddi eg vin minn, og hjelt á stað. Á leiðinni notaði eg öll tækifæri, bæði til þess, að selja og kaupa, og græddi eg á þann hátt ekki alllítið fje. Með skipið, hlaðið dýrum auði, kom eg til *Balsora*, og að lyktum aptur til *Bagdað*, miklu ríkari, heldur en þegar eg fór þaðan. Hvíldist eg þar nokkra daga, eptir allar þær þrautir, er eg hafði hlotið að þola; síðan fór eg til eigna minna og garða, og leit eptir, hvort allir hlutir væru í reglu. Dvaldi eg nú um hríð í kyrrð og ró, og tók mjer ekkert fyrir hendur annað, en að gefa þurfamönnum ölmusur, og leitaðist eg við, að kæfa niður löng-

un mína eptir ferðalögum, sem allt af kvaldi mig, þá er eg var heima. En loksins sigraðist hún á mjer, og mun eg nú á morgun, vinir mínir, segja yður frá því, er mjer vildi til, þá er eg fór hina þriðju ferð.

*Sindbað* þagnaði; gaf hann *Jósep* vinnumanni eitt hundrað gullpeninga, og skildust menn að síðan. Undraðist vinnumaðurinn stórlega yfir þeim hlutum, er hann hafði heyrt, og kom daginn eptir. Þá byrjaði *Sindbað*, er menn höfðu matast, að segja frá hinni þriðju ferð sinni, og mælti á þessa leið:

Eg sagði yður í gær, vinir mínir, að eg hefði enga rósemi fundið, fyrir sakir óyndis, og löngunar eptir ferðum. Munuð þjer undrast, og spyrja, hversu því hafi verið varið, að eg aldrei skyldi hafa látið egin víti mín mjer til varúðar verða, þar sem eg hafði ratað í svo margar hættur á ferðum mínum; en eg má eigi öðru þar til svara, en því, að heimska mín er mjer með öllu óskiljanleg. En forlögin hlutu að hafa rás sína; eg ljet bænir og áminningar allra ættingja minna sem vind um eyrun þjóta; bjó eg mig til ferðar, og hugsaði eigi um neina hættu. Í það skipti fór eg með lestamönnum nokkrum landveg um margar landsálfur *Persalands* og *Indlands*; græddi hvervetna mikið fje, og komst loksins til borgar nokkurrar indverskrar, er lá við sjó frammi; þar stje eg á skip, og gaf mig að nýju á vald óstöðugum og gljúpum bárum. Áttum vjer langa leið fyrir hendi, en stýrimaður var ónýtur og óreyndur. Vorum vjer lengi í sjó, og sáum hvergi til landa, kvaðst stýrimaður eigi vita, hvar vjer værum í hafinu, og var orðinn villtur með öllu. Urðu nú allir hræddir mjög. Sigldum vjer þannig í heila viku, og

ljetum reka fyrir vindi og öldum. En einhvern morgun bar oss í röst eina í hafinu, og reif straumurinn skipið áfram með óttalegum hraða; vissi stýrimaður þá, hvar vjer vorum komnir, enda þó að það yrði oss til lítillar gleði. Hann fleygði húfunni af höfði sjer, reif í skegg sitt, æddi um allar þiljur, og öskraði: nú er úti um oss alla, því að vjer erum komnir í hinn óttalegasta stað, sem á sjónum er; mun röst þessi bera skip vort að standbergi því, er það mun brotna á, og sökkva að botni niður. Biðjið til drottins, að hann veiti oss lið í neyð vorri. Tók hann nú aptur til að emja og æpa, og sáum vjer, að eigi var annað að gjöra, en að láta oss lynda forlög vor. Biðum vjer nú rólegir,, en þó með angist í hjörtum vorum, eptir eyðileggingu og dauða. Hreif röstin nú skipið ógurlega; og sáum vjer brátt, að fjall nokkurt bar uppi við hafsbrún. Vorum vjer komnir að því eptir eina klukkustundu, og barst skipið upp að bjarginu, þar til er það steytti, og brotnaði gat á; fjell þá sjór kolblár inn í skipið. Samt tókst oss að bjarga flestu af því, er á var skipinu, bæði vörum og matvælum; fluttum vjer það allt á land upp, en skipið brotnaði síðan. En svo var landslagi háttað, að bjargið gekk tveim megin í sjó fram, og gekk inn í miðju; var strönd lág og sljett fyrir miðju bjarginu, og ekki stingandi strá; en af ströndinni varð eigi komist, sökum hamranna, er gengu báðu megin fram í sjóinn. En bjargið var hamar snarbrattur, svo að með engu móti varð upp komist. Lækur einn eður á var í fjörunni; en sú á rann eigi, eins og aðrar ár, í sjóinn út, heldur inn í bergið, og hvarf inn um víðan hellir, og rann

undir jörðunni niðri. Um alla fjöruna lágu mannabein, svo sem vildu þau boða oss ókomin örlög vor; þótti oss öllum það svo viðbjóðsleg sjón, að vjer fleygðum þeim í sjóinn. Einnig lágu í sandinum feiknahrúgur af ýmsum ágætum hlutum, er reknir voru af sjó, og í berginu fundum vjer mikinn fjölda af gimsteinum; en við fjallsræturnar lágu demantar og rúbínsteinar, eins og sandur á sjávaröndu. Hversu lítið kærðum vjer oss ekki um þessa hluti, er þannig var komið fyrir oss! Því að það sáum vjer fullvel, að vjer aldrei mundum komast aptur frá þessu landi. Aldrei mun neitt skip hafa þaðan aptur snúið, því að röstin ólgaði fyrir utan, og tálmaði öllum brottfarar-tilraunum. Settustum vjer nú allir í fjöruna, og hörmuðum eymdir vorar; en stýrimaður mælti, að nú þyrftum vjer einkis annars með, en grafar, til að hvíla í; jók það enn meir harm vorn, og vissum vjer eigi, hvað til bragðs skyldi taka.

Loksins stóðum vjer upp, og skiptum matarforðanum jafnt á meðal vor; bjuggum vjer oss síðan á degi hverjum undir dauðann, og fólum drottni á vald sálir vorar. Eyddust nú matvælin, og fjelagar mínir tóku til að deyja, hver af öðrum; hinir, er eptir lifðu, veittu hinum deyjandi bræðrum nábjargirnar, og sökktu þeim til hvíldar í skaut grafarinnar; það var þeirra hinnsti heiður; en vjer feldum tár, því að dauðinn beið vor líka, og ætlaði að vitja vor, seint eður snemma. Loksins voru allir dauðir, nema eg einn. Því að eg hafði neytt matarforða míns mjög sparsamlega, og átti þar að auki töluvert, er enginn vissi af nema eg. Liðu nú nokkrir dagar, og fór eg að hugsa um, að grafa gröf mína;

gekk eg þá fram á árbakkann, og starði hugsandi á hinn rennandi straum, er hvarf inn í bjargið. Eg bölvaði óyndi mínu, er rak mig til, að vera á sífeldu flakki, og sem nú hafði á ný stofnað mjer í eymd og volæði.

En mitt í örvæntingu minni datt mjer það í hug, að eg mundi geta notað ána, til þess að komast á burtu. Greip sú hugsun mig með svo miklu afli, að eg gleymdi eymdum mínum, og hljóp að hellinum, þar sem áin hvarf inn í. Gjörði eg mjer í hugarlund, að hún hlyti einhversstaðar að koma aptur í ljós; og datt mjer í hug, að eg skyldi búa til fleka, og að vel mætti svo fara, að eg á þann hátt gæti frelsast. Eg hafði og einkis misst, því að þó mjer aldrei tækist fyrirætlan þessi, þá hafði eg einungis skipt um dauðdaga minn, og eg ætlaði, að betra mundi vera að deyja í sjó, en að detta úr af í sulti og eymd. Eg hrópaði hátt: úr svo mörgum hættum hefur drottinn frelsað mig, að hann gjörir það einnig nú, ef honum þókknast svo. Fór eg nú, og safnaði saman fjölum og borðum, er rekið hafði á land úr skipinu; bar eg þetta fram á árbakkann, og leit út á ána, með vonarsvip, og hýrra yfirbragði, er eg lengi hafði haft. Síðan tók eg til starfa, og negldi fjalirnar saman fast og vandlega; var því lokið að kvöldi, og hafði eg þá búið til svo styrkan flota, að mjer var óhætt að stíga á hann. Safnaði eg nú saman svo miklu af gimsteinum og dýrgripum, að það var ómetanlegur auður, og bar á flekann; gjörði eg þetta, ef svo kynni að fara, að eg kæmist af; enn fremur bar eg matvæli mín á flekann, og tók ár eina; því næst hratt eg flotanum út á ána, stje á hann, og fór

hann þegar á stað með straumnum, og barst inn um hellismunnann.

Undir eins og eg var kominn inn um hellismunnann, huldist eg niðamyrkri. Enginn bjarmi dagsljóssins, og enginn sólargeisli náði í gegnum björgin, sem hófu upp tinda sína mörg þúsund feta í lopt upp yfir höfði mjer. Allt var hljótt í kringum mig, ekkert heyrðist, nema vatnsniðurinn, og brakið í flekanum, þegar hann steytti á hellisveggjunum. Víða var hellirinn svo lágur, að eg rak mig upp undir, og varð eg að fleygja mjer flötum, til þess að meiðast ekki. Bar mig nú þannig nokkra daga eptir ánni, og sá eg engi merki til þess, að hellirinn mundi enda, því að myrkrið var allt af jafn svart. Svo lítils matar neytti eg, sem mjer var unnt; en þar kom um síðir, að eg varð með öllu bjargþrota; sá eg nú ekkert annað fyrir, en hungurdauða, ef eg eigi yrði svo heppinn, að komast til mannabyggða áður en langt um liði. Var eg loksins svo örmagna orðinn, að eg mátti eigi reisa mig upp af flekanum, þar til er óvit loksins huldi mig svásum höfga. Er mjer það eigi ljóst, hversu lengi eg muni hafa þannig legið; en þá er eg raknaði við úr óvitinu, og lauk upp augunum, lá eg á blómvaxinni grundu á árbakka nokkrum, og leit himininn, heiðan og skínandi. Stóðu margir svartir menn í kringum mig, og voru að leitast við, að vekja mig úr óvitinu; þeir gáfu mjer mjólk að drekka, og góðan mat að borða, er styrkti og hressti mig. Stóð eg nú upp, og leit með undrun alla vegu í kring um mig; heilsaði eg mönnum þessum, og þakkaði þeim fyrir frelsi mitt. En þeir skildu eigi mál mitt, en sögðu

mjer með bendingum, að þeir væru mjer vinveittir. Eg skildi og eigi það, er þeir töluðu; en svo var gleði mín mikil, að eg las hátt upp lofkvæði, drottni til dýrðar, á arabiska tungu. Gekk þá fram maður einn, er skildi þá tungu, og mælti við mig: þú undrast, vinur minn, og veizt eigi, á hvern hátt þú ert hingað kominn. Í morgun, þá er vjer gengum út, til þess að sá akra vora, þá sáum vjer fleka þinn, og sjálfan þig á honum í óviti; rak flekann ofan eptir á þeirri, er kemur upp þar undir fjallinu. Vjer óðum út á ána, drógum flekann að landi, og bárum þig hingað á grund þessa; gátum vjer loksins komið þjer til, að rakna úr óvitinu; eru nú hjer öll auðæfi þín, og hefur enginn neitt af þeim tekið; en viljir þú skemmta oss, þá seg oss sögu þína, um það, hversu þú sjert á vort land kominn. En eg hjet honum því, að segja honum það, er hann vildi vita, en eg kvaðst eigi mega það, fyr en eg hefði neytt nokkurs matar, því að eg væri hungraður mjög. Var mjer nú veitt allskonar fæða, og hefi eg aldrei matar neytt með meiri ánægju, en þann morgun, því að eg hafði án efa legið marga daga í óviti, bæði matar- og drykkjarlaus. Eptir að eg hafði neytt matarins, sagði eg nákvæmlega frá öllu því, er fram við mig hafði komið; en allir undruðust, og hrópuðu: hvílík saga er þetta! óheyrð er hún, og ótrúanleg! Hlýtur þú sjálfur að segja konungi vorum frá þessum hlutum, því að hann mun eigi öðrum trúa, en sjálfum þjer; munum vjer leiða þig fyrir konung. Var eg strax fús til þessa, og fóru þá nokkrir mannanna á burtu, en komu aptur vonum bráðara, með hesta; stje eg á bak einum þeirra, en hinir

veru klyfjaðir með gersemum og gimsteinum; hjeldum vjer nú til höfuðborgar lands þessa, og til konungshallarinnar. Undir eins og vjer vorum þangað komnir, kom mikill fjöldi þjóna á móti oss, og voru þeir þegar beðnir um, að segja konungi af komu vorri. En þeir fóru, og komu aptur; ljetu þeir oss stíga af baki, og leiddu mig í gegnum marga dýrðlega sali, að hástóli konungsins. Fleygði eg mjer þegar fyrir fætur honum, og mælti: heill sjertu konungur, þú, sem ræður því landi, er eg hefi fengið slíkar viðtökur á; blessaðir verði æfidagar þínir, herra, og ríki þitt ljómandi af sigri og dýrð. En konungur rjetti mjer höndina blíðlega, og reisti mig upp; bauð hann mjer að segja frá, á hvern hátt eg væri á land hans kominn, og hvað eg hjeti; ljet hann mig setjast á stólinn, gagnvart sjer. Eg mælti: herra, nafn mitt er *Sindbað*, og er eg kallaður farmaður að auknafni, fyrir þá sök, að eg hefi farið margar og miklar ferðir um æfi mína. Sagði eg honum þá frá öllu því, er mjer hafði til viljað, satt og hreinskilnislega; þótti konungi það svo skemmtilegt og merkilegt, að hann ljet rita ferðasögur mínar upp með gullnu letri, og varðveita það rit í skjalasafni ríkisins. Var síðan komið inn með gripi mína, og undraðist konungur jafn mikið yfir fegurð og ljóma gimsteinanna, og hann fyr hafði undrast yfir sögu minni. Og er eg sá, að hann skoðaði allt þetta með undrun, þá fleygði eg mjer fyrir fætur honum, og beiddi hann, að þiggja gripi þessa af mjer að gjöf; því eg kvaðst eigi betur vera fær um, að endurgjalda góðsemi hans og mildi. En konungur brosti, og mælti: *Sindbað*, eigi mun eg taka neitt af eigum

þess manns, er drottinn hefur haldið hendi sinni yfir svo volduglega og náðarsamlega. Vil eg ,að þú njótir fjár þíns vel, en eg mun nokkru við bæta, til að sýna þjer merki náðar minnar, og velvilja míns til þín. Gaf hann mjer síðan stórgjafir, og kvaddi mig, bauð hann mjer og, að koma til sín á hverjum degi, og segja sjer enn nákvæmar frá því, er fram við mig hafði komið á ferðum mímum. Gekk eg á burtu í glöðum hug, og dvaldi um hríð við hirð konungsins í miklu yfirlæti. En svo varð á endanum, að mig tók til að langa heim til föðurlands míns, og beiddist eg því fararleyfis hjá konungi. En hann leyfði mjer það, og bauð mjer, að fara með brjef og gjafir til stjórnara vors, *Haruns Raskiðs*, þess er drottnar yfir hinum rjetttrúuðu þjóðum. Tók eg við sendingunum með gleði, og daginn eptir var mjer lesið upp brjefið, var það fagurlega orðað, og vináttulega; varðveitti eg það vandlega í silkidúk, og geymdi það á hjarta mjer. Fjekk konungur mjer síðan gjafirnar, er til Kalífans áttu að fara; voru þær fegurri og dýrmætari en frá megi segja. Kvaddi eg nú konung, en hann faðmaði mig, svo sem væri eg bróðir hans, og blessaði mig.

Þá er eg var stiginn á skip, bauð eg að ljetta skyldi akkerum; en byr var hinn bezti; og skipið fór yfir hafið, eins og fuglinn fljúgandi, og flutti mig á stuttum tíma til *Balsora*. Ljet eg nú flytja auðæfi mín og sendingarnar á land upp, og gaf skipverjum miklar gjafir; ferðaðist eg nú nætur og daga, unz eg kom til *Bagdað*. Þá strengdi eg þess heit, að eg skyldi aldrei optar á æfi minni fara nokkra ferð, heldur lifa það, sem eg ætti eptir, kyrr þar í

föðurlandi mínu. Þá er eg var búinn að koma mjer fyrir, og taka mig aptur eptir ferðina, tók eg að hugsa um gjafir þær, er eg átti að færa *Harún Raskið* kalífa; fór eg nú til hallar hans, en ljet þræl bera gripina. Beiddi eg nú þjónana að leiða mig fyrir Kalífann, þareð eg hefði merkilega sögu að segja honum; var eg síðan leiddur fyrir hann, og fleygði mjer fyrir fætur honum; fjekk eg honum síðan brjef konungsins, og ljet gripina á borð eitt. Voru þeir ágætir og margvíslegir; meðal þeirra var bikar úr rauðum rúbínsteini, hálf alin að hæð, og var dýrleiki hans ómetanlegur. Síðan rjetti eg honum dúk, er var óásjálegur; en þó dýrmætur mjög, því að hann hafði þá náttúru, að sá, er á honum svaf, eigi kenndi neins sjúkleika. Síðan fjekk eg kalífanum fjölda gimsteina og marga aðra gripi. En kalífinn las brjef konungsins, og skoðaði síðan gjafirnar með undrun og athyggli, og spurði mig að, hvort konungur þessi væri reyndar eins voldugur og ríkur, og sagt væri. En eg játaði þeirri spurningu, og sagði kalífanum margt og mikið um hinn góða konung, er hafði sýnt mjer svo mikla velgjörninga og mildi. Síðan kvaddi eg kalífann, en hann mælti við mig mörgum fögrum orðum að skilnaði, og gaf mjer gjafir fagrar. Fór eg þá heim til mín, og ætlaði að hætta öllu ferðalagi og siglingum.

Þannig lauk *Sindbað* sögunni af hinni þriðju ferð sinni, og hjet gestum sínum því, að hann skyldi segja þeim daginn eptir frá fjórðu] ferðinni, er var hin síðasta. Komu menn nú saman daginn eptir, og er menn voru staðnir upp frá borðum, sagði *Sindbað* eptirfylgjandi sögu:

Eg sagði yður það í gær, vinir mínir, að eg hefði strengt þess heit, að ráðast aldrei optar í siglingar; og ljet eg nú eigi eptir löngun minni og óyndi, þó að það opt og tíðum ætlaði að leiða mig í freistni. Æska mín var og liðin, og eg var farinn að hærast; mundi eg því heldur eigi þá hafa getað staðist allt íllt, bæði þrautir og hættur, eins og áður. Menn ímynda sjer optlega, að þeir breyti harla skynsamlega; en hvað stoðar slíkt, ef að drottni þókknast á annan veg? Þannig fór og fyrir mjer. Svo bar við einhvern dag, þá er eg sat að veizlu með vinum mínum og kunningjum, og sagði frá ýmsum hlutum, að *Gjafar,* er var æðstur ráðgjafi kalífans, kom inn; hann kvaddi alla kurteislega, og beiddi mig um, að tala við sig einslega. En eg hafði þegar risið upp úr sæti mínu, er eg sá hann í dyrunum, og leiddi eg hann inn í herbergi eitt lítið, er var við hliðina á borðsalnum. Hann mælti þá við mig: *Sindbað,* það hefur kalífinn boðið mjer, að sækja þig, og hlýtur þú þegar að koma. En eg dirfðist eigi á móti að mæla, heldur fór eg þegar með ráðgjafanum. Og er við komum fyrir kalífann, þá fleygði eg mjer fyrir fætur honum, og spurði, hvað hann vildi skipa mjer. En stjórnari hinna rjetttrúuðu þjóða mælti: kæri *Sindbað,* eg hefi látið sækja þig, því að eg vildi biðja þig bónar nokkurrar. Þú hefur fært mjer gjafir konungsins í ríki því, er *Serendyb* heitir; nú veit eg það, að þú ert maður svo vel viti borinn, að þú hlýtur að skilja það, að eg muni hljóta að gefa konunginum aptur gjafir, og svara brjefi hans. Hefi eg því boðið, að búa út skip í *Balsora,* er flytji sendiboða frá mjer

til konungsins; en þig hefi eg kjörið til farar þessarar, því að þú átt þann heiður skilið, að vera sendiboði minn. En er eg heyrði þessi orð, varð eg svo sem lostinn af reiðarþrumu; því að eg vildi komast undan sendiför þessari, og svaraði kalífanum á þessa leið: Drottnari rjett-trúaðra manna, eg er reiðubúinn til að gjöra allt það, er þjer bjóðið mjer, en þess vil eg einungis biðja yður, tigni herra, að þjer eigi sendið mig slíka forsendingu, því að svo mikil ógæfa hefur mjer viljað til á ferðum mínum, að eg hefi strengt þess heit, að fara aldrei optar út fyrir landsteinana. Varð kalífinn gramur yfir mótspyrnu minni, en frjetti mig samt um ferðir mínar og það, sem mjer hafði til viljað, hlaut eg að segja honum ýtarlega frá öllu. Þá mælti kalífinn: kæri *Sindbað*, nú skil eg, hví þú skorast undan för þessari, en fyrir krapt veldis míns leysi eg þig frá heitstrengingu þeirri, er þú hefur gjört, og vil eg víst, að þú farir. Skaltu nú tafarlaust búa þig á stað, því að á morgun hlýtur þú að byrja förina.

Það skildi eg, að eigi mundi tjá að mæla á móti þessari hinni hörðu skipun kalífans. Fór eg því heim til mín, ráðstafaði eigum mínum, og leitaðist við, að fylla huga minn með von og afli; eg huggaði mig við þá hugsun: leið lífs þíns er ákvörðuð af náðugum guði. Daginn eptir fór eg til kalífans, til þess að taka við brjefinu og gjöfunum; ljet kalífinn telja mjer þúsund gullpeninga í farareyrir; fjekk hann mjer og brjefið, og hafði hann ritað það sjálfur; síðan kvaddi hann mig, og bað mig að lifa heilann. Í hallargarðinum biðu úlfaldarnir, klyfjaðir með gjöfunum; var söðull á einum þeirra, er eg átti

að hafa til reiðar; margir þjónar biðu mín og hjá úlföldunum. Stje eg nú á bak, og lagði á stað; var eg harmþrunginn mjög, er eg sá turnana á *Bagdað* smátt og smátt hverfa, því að mjer datt í hug, sem von var til, að vel mætti svo fara, að eg aldrei kæmi aptur. Á allri leiðinni talaði eg ekkert orð: og komum vjer nú innan skamms ofan að, þar er skipið lá; ljet eg þá þegar taka ofan af eykjunum, og flytja allt á skip, því að eg hafði eigi frið, fyr en eg væri kominn heim aptur. Var nú allt tilbúið; ljet eg þá þjónana ganga á burtu, og fara aptur til höfuðborgarinnar; en eg stje á skip, og hjeldum vjer nú til *Serendyb.* Gekk ferðin einkar vel, vjer hrepptum engan storm eður andviðri, og hvorki rastir nje grynningar tálmuðu fyrir oss; komumst vjer á örstuttum tíma til *Serendyb.* Varð eg nú harla glaður; gekk síðan fyrir konung, og fleygði mjer fyrir fætur honum, og mælti: mildi herra, kalífinn í *Bagdað,* herra minn, sendir yður kveðju sína, og þar með vináttu sína og þakklæti. Varð hann harla glaður yfir brjefi yðru, og gjöfum þeim, er þjer senduð honum; bauð hann mjer, að eg skyldi fara til ríkis yðvars, og sýna yður lotningu og þakklátsemi fyrir sína hönd.

Að því mæltu rjetti eg konunginum brjef kalífans, og las hann það með hýrleitu og gleðilegu yfirbragði; síðan snjerist hann að mjer, og tók blíðlega í hönd mjer. Er mjer það mikil gleði, *Sindbað,* mælti konungur, að sjá þig aptur, því að eg hefi hugsað um þig á hverjum degi, síðan þú fórst hjeðan. Skoðaði hann nú gjafirnar, og sýndist ánægður mjög; og að lyktum kvaddi hann mig mildi-

lega, og hjet mjer því, að eigi skyldi á löngu líða, áður eg fengi það brjef til varðveizlu, er hann ætlaði að rita kalífanum. Leið og eigi langur tími, þangað til eg fjekk brjefið; og skundaði eg nú til konungs deginum eptir, til þess að kveðja hann, því eg hafði engan frið, svo mjög fýsti mig heim. Var eg allur sem á glóðum, og eigi má eg lýsa óþoli mínu. Var eg hjá konungi svo sem eina stundu, og talaði á þeim tíma við hann um ýmsa hluti. Loksins kvaddi eg konunginn, fleygði mjer fyrir fætur honum, kyssti jörðina, og fór á burtu síðan. En er eg gekk fram, skrýddu ráðgjafar konungsins mig heiðurs-klæðum, og fengu mjer ríkulegar gjafir frá konungi; hafði hann boðið, að svo skyldi vera. Þótti mjer harla mikið koma til mildi konungsins, og beiddi ráðgjafana, að bera honum kveðju mína og þakklæti. Síðan fór eg heim, og áður en kvöld var komið, var eg kominn á skip, og hjeldum vjer nú í hraðbyri á stað. Var eg nú eins glaður og vongóður, og eg fyr hafði verið kvíðinn, og grunaði mig eigi hið minnsta um það, að vjer innan skamms ættum að rata í harðar þrautir. Því að einhvern morgun hrópaði sá, er vörð hjelt í reiðanum uppi, með hárri röddu, að skip væri í vesturátt. Leið nú eigi á löngu, áður en vjer eygðum það líka, og hugði stýrimaður vandlega að skipinu; hann mælti loksins: nú munum vjer búast til varnar, því að þetta er hættulegt ræningjaskip, og fullt grimmra morðvarga. Varð eg nú óttasleginn, og þótti mjer eigi vænlega áhorfast, bar nú ræningjaskipið skjótt að. Ræningjarnir drógu upp dreyrrauða fánu, og hrópaði foringi þeirra til vor, hvort að vjer vildum gefast upp bar-

dagalaust. En stýrimaður vor var maður hugrakkur og hraustur, og sá hann það reyndar, að vjer varla mundum geta staðist svo styrkan og vel vopnaðan óvin; en engu að síður svaraði hann með hárri og djarfmannlegri röddu, að þeir skyldu koma, ef þeir þyrðu, og taka skip vort sjálfir. Sigldu ræningjarnir þú fast upp að skipi voru, og sáum vjer þá, að uppi á þiljunum var alsett vikingum, er höfðu brugðin sverð, og skegg mikið á andliti; biðu þeir þess, að foringinn gæfi þeim merki til þess, að veita oss atgöngu. Og er skipið var komið svo nærri oss, að ná mátti höndum saman, þá kallaði foringinn, að þeir skyldu hlaupa upp á skipið. Komu víkingarnir nú með krókstjaka, og kræktu í skip vort, jafn vel þó að vjer leituðumst við, að verja þeim uppgöngu; rákust nú skipin hvort á annað, með ógurlegu braki og brestum. Óðu nú víkingarnir upp á skip vort með emjan og illum látum, brugðnum bröndum og skældum ásjónum, og veittu oss harða atgöngu. Varðist stýrimaður hraustlega, og veitti víkingunum mörg sár; eg tók og sverð mitt mikið, og gekk fram af öllu megni. Urðum vjer ýmist að hörfa undan, eður vjer hröktum víkingana; var stýrimaður vor alla jafna fremstur, og hjó til beggja handa; mátti þar sjá margan hjálm klofinn, og marga brynju slitna, og margan höggvinn armlegg, og margan haus á fljúgandi ferð. En hreysti vor kom fyrir ekki, því að vjer hlutum að bera lægra hluta, þar sem þrír víkingar voru um einn af vorum mönnum. Tóku kraptar vorir að rjena, og blóð og sveiti rann niður hvervetna; vildi stýrimaður þá, að vjer gjörðum hina síðustu tilraun, og kallaði saman alla

menn vora; síðan fylkti hann oss í breiðfylkingu, og æddum vjer nú allir með dauðans ákefð á móti víkingunum, og hopuðum eigi hið minnsta; og ekki hirtum vjer, þó að einhver fjelli af vorum mönnum, heldur gengum vjer yfir náina, því að nú var eigi um annað að gjöra, en að sigra eður falla. Urðu fjandurnir smeikir út af æði voru, og máttu eigi standast áhlaupið; veittu þeir því litla mótvörn, og fjellu eins og gras fyrir ljáum. Vorum vjer þegar teknir til að að æpa siguróp, og álitum sigurinn vísan; en þá kom ógæfa vor, og stýrimaður fjell niður á þiljurnar, er hálar voru orðnar af vatni og blóði. En undir eins og víkingarnir sáu það, þá gjörðu þeir harða atlögu, og hlutum vjer að hopa undan. Þá var úti um oss, því að stýrimaður vor varð handtekinn, og fluttur yfir á víkingasnekkjuna. Þá gáfustum vjer upp, fengum óvinunum vopn vor, og vorum vjer þegar handteknir. Voru skipin nú hreinsuð af dreyra og sjó, og líkunum fleygt útbyrðis; síðan var haldið á burtu. Höfðum vjer látið fjörutigi manna í orustunni, en sextán voru eptir; víkingarnir höfðu látið meira en tíutigi manna, en vjer vorum leyndir því svo sem varð. Þóttumst vjer þess nú fullvissir, að vjer mundum allir höggnir verða; en það varð eigi, því að þá er víkingarnir höfðu rænt oss því, er vjer höfðum meðferðis, sigldu þeir til borgar nokkurrar við *Affríku* - haf, og seldu oss mansali. Urðum vjer því fegnir, er vjer fengum lífi að halda; og reiddi eg mig uppá forsjón drottins í neyð minni. Kaupmaður nokkur keypti mig, tók mig heim til sín, fæddi mig og klæddi; og er eg var orðinn alheill sára minna, spurði hann mig

hvort eg kynni nokkura iðn; en er eg kvaðst enga numið hafa, spurði hann mig að, hvort eg kynni að skjóta af boga. Já, mælti eg, því að í æsku minni tíðkaði eg mjög bogaskot, og hefi eg eigi lagt þá list fyrir óðal. Var það og satt, því að eg var bogmaður góður. Fjekk kaupmaðurinn mjer þá boga og örvamæli; síðan ljet hann sækja taminn fíl; settustum vjer þá á bak honum, og riðum út á mörk eina mikla, er var nokkuð fyrir utan borgina. Bauð kaupmaðurinn mjer, að eg skyldi klifra upp í eina eik, og mælti: þegar dimmir af nótt, þá mun mikill fjöldi fíla koma fram úr mörkinni, til þess að gamna sjer hjerna út á engi þessu, skaltu skjóta á þá, er þeir fara fram hjá, og ef þú verður svo heppinn, að fella nokkurn þeirra, þá skaltu þegar láta mig vita. Fjekk hann mjer nú matarforða nógan, og reið aptur heim til borgarinnar; en eg klifraði upp í eikina, og sat í laufinu, þar til er dimmt var orðið; var eg með öllu óttalaus, því að eg var svo hátt uppi, að eg þóttist þess fullviss, að ekkert dýr mundi geta unnið mjer nokkurt mein. Leið nú nóttin þannig, að eg sá engan fíl; en um sólar uppkomu heyrði eg traðk mikið og hark, og sá eg brátt, hvar fílarnir komu stikandi yfir grundina, og gengu fram hjá eikinni, sem eg sat uppi í. Voru það meir en hundrað fílar. Dró eg þá upp bogann, og skaut á marga fíla, en særði engan, enda þó eg allt af hitti. Loksins tók eg til að verða gramur yfir slíkri óheppni: þá fjell einn fíll til jarðar; hafði örin flogið í gegnum augað, og inn í heilann. En undir eins og fílarnir sáu dýrið falla, tóku þeir á rás, og runnu inn á mörkina. Varð eg nú feginn mjög, út af heppni minni; fór eg þá ofan

úr trjenu, og horfði á hina miklu skepnu, er eg hafði að velli lagt með svo lítilli ör. Síðan fór eg heim til borgarinnar, og sagði hússbónda mínum frá, hversu farið hefði. En hann gladdist harla mjög, og hjelt mjer góða veizlu. Stigum við síðan á fíl, riðum á burtu, og grófum dýrið í jörðu; því að það átti að morkna í sundur, svo að tennurnar næðust úr kjálkunum; en þær eru dýrmæt kaupvara. Reið kaupmaðurinn nú aptur heim til borgarinnar; en eg fór upp í eikina; og á hverjum degi skaut eg einn fíl, eg var að því verki samfleytt í tvo mánuði. Bar þá svo við, að eg sat uppi í eikinni einhvern morgun, eins og eg var vanur; var veður mjög fagurt, og hafði eg dregið upp boga minn, og lagt ör á streng; þá kom ótölulegur fílagrúi fram á grundirnar. Þeir stöppuðu fótunum á jörðuna, veifuðu trjónunum, slógu halanum á lendar sjer, stundu og öskruðu, og ljetu svo sem væru þeir reiðir og í grimmu skapi. Gekk sá fremstur, er mestur var; en í það sinn fóru þeir eigi fram hjá eikinni, heldur stefndu beint á hana. Umkringdu þeir nú eikina, teygðu trjónurnar í lopt upp, svo sem vildu þeir benda á mig; störðu fast á mig, hristu eyrun, og drundu. Skildi eg ekkert í látum dýranna í fyrstu: en það sá eg, að þeir mundu vilja mjer nokkuð: og kom yfir mig ótti svo mikill, að eg skalf og titraði, kaldur sveiti rann ofan eptir mjer öllum, og vissi eg eigi af mjer; missti eg þá bogann ofan úr eikinni. En einmitt þetta atvik var heill mín, því að ef eg hefði skotið á fílana, þá mundu þeir hafa troðið mig fótum og kramið mig í sundur; en nú, er þeir sáu, að eg var vopnlaus orðinn, virtist mjer, sem þeim yrði hughægra, því að

þeir urðu hægari, stungu höfðum saman, og drundu lágt hverr við annan; og var sem þeir hjeldu ráð um það, hvernig þeir skyldu fara með mig, er var svo lítill, í samanburði við þá. Loksins kom sá fillinn, er mestur var, og gekk að eikinni, þar sem eg sat, tók utan um hana með trjónunni, og reif hana í einu taki, með öllum rótum og feikna miklu af jörðu og moldu; fjell eikin nú brakandi niður. Eg fól guði á vald sál mína, og varð eg ákaflega óttasleginn; en sá hinn mikli fill gekk að mjer, tók mig liðlega og hægt upp með trjónunni, og setti mig lipurlega, án þess að gjöra mjer nokkurt mein, upp á hið breiða bak; síðan rann hann, og allur hópurinn á eptir, eptir grundunum, og inn á mörkina, svo að jörðin skalf og nötraði undir fótum þeirra; skildi eg eigi hið minnsta í þessari ferð, og reiðlagi mínu; gekk þetta hjer um bil eina klukkustundu. Þá komu fílarnir í rjóður eitt stórt í skóginum; var í miðju rjóðrinu hrúga af fílabeinum, svo mikil, að hún var sem haugur mikill. Þar nam hinn mikli forustufíll staðar, og setti mig niður á jörðina; síðan benti hann mjer með trjónunni á fílabeina-hauginn, og horfði á mig með alvöru-svip, svo sem vildi hann ógna mjer. Síðan runnu allir fílarnir á burtu, en eg varð einn eptir hjá beinahauginum. En það er enn af fílunum að segja, að þeir hafa eigi optar sjest um þær slóðir, og má segja það, að furðulegt vit hafa dýr þessi, þar sem þau þannig af sjálfsdáðum vísuðu mjer á bein þessi, er menn vildu ná með dauða þeirra. Mun engi efi á því leika!, að staður þessi hefur verið legstaður þeirra, og hlýtur hann að hafa að hafa verið mörg hundruð ára gamall, því að þar

lágu margar þúsundir fílatanna, er voru virði margra milíóna gullpeninga. Þá er eg var kominn til sjálfs mín, fór eg rakleiðis heim til borgarinnar, til þess að segja húsbónda mínum frá fundi þessum. Þótti honum svo vænt um, að hann gaf mjer frelsi, og hjet mjer því, að eg skyldi fá helming alls þess, er eg hafði uppgötvað. Gengum vjer nú skjótlega til skógarins, og vísaði eg honum á beinahauginn. Daginn eptir sóttum vjer fílatannirnar á fimm hundruðum fíla. Kaupmaður sá, er eg var hjá, var ráðvandur maður, og skipti rjettilega á milli okkar fundinum, svo að eg fjekk helminginn. Varð eg þá svo ríkur, að eg aldrei áður hafði átt slík ógrynni af auði; því að þá er eg seldi tennurnar, þá hlaut eg sex þúsundir þúsunda gullpeninga fyrir þær. Keypti eg mjer þegar skip, ljet á það gull mitt, og komst eptir langan tíma, en þó heppilega, aptur heim til *Bagdað*. Og sem eg var búinn að koma mjer fyrir, þá skundaði eg til *Harún Raskíðs* kalífa, og sagði honum frá afdrifum mínum. Hlustaði kalífinn vel á sögu mína, og hefur síðan verið mjer mildur og ágætur vinur. Ætla eg mjer nú hjeðan af, að lifa í elli minni í kyrrð og rósemi, unz dauðinn lýkur æfi minni.

Þannig lauk *Sindbað* að segja frá siglingum sínum, og snjeri sjer til *Jóseps,* er hafði hlustað á hann með undrun mikilli; og mælti *Sindbað* þá við hann: öfundar þú mig enn, vinur góður? Þá hneigði vinnumaðurinn sig, kyssti hönd *Sindbaðs,* og mælti af klökkum hug: nei, herra, aldrei mun eg öfundast yfir auði yðar, því að þjer hafið verðskuldað hann, og náð honum með hættum miklum og þrautum.

Drottinn blessi yður, og gefi yður langa lífdaga. Ætlaði *Jósep* þá að ganga á burtu, því að hann grjet mjög. En *Sindbað* stóð upp, faðmaði hann innilega, og mælti: nei, vinur minn, þannig muntú eigi skilja við mig; skaltu nú vera hjá mjer, því að eg hefi fengið ást á þjer; munum við eigi skilja hjeðan af. Þú ert tryggur og góður maður, og hefur þú fylgt mjer í huganum um allan hinn hættulega stig, þann er eg hefi hlotið að ganga; hefir þú og kennt í brjósti um mig, þá er mjer bljes á móti, en glatt þig yfir velgengni minni. Vil eg nú, að þú flytjir þig hingað, ásamt konu þinni og börnum; skulu þau einnig vera mín börn, og sjálfur skaltú vera vinur minn og bróðir meðan eg lifi. Varð *Jósep* vinnumaður nú glaður mjög, sem von var til, og föðmuðust þeir. Flutti hann síðan til *Sindbaðs,* með allt það, er hann átti; en *Sindbað* varð barn með börnunum, og varð maður háaldraður, og andaðist í góðri elli.

Hjer lýkur sögunum af *Sindbað* farmanni.

---

# Dómarinn.

Á ríkisdögum *Haráns* kalífa bjó í *Bagdað* kaupmaður nokkur, er *Alí* hjet; hann hafði ásett sjer, að fara pílagrímsferð til *Mekka,* til legstaðar *Múhameðs* spámanns. Hann seldi eignir sínar og varníng, og keypti fyrir það fje, er hann hlaut fyrir það, ýmsa gripi, er hann ætlaði sjer að selja aptur með ábata í þeim stöðum, er hann mundi fara um. Þá er hann hafði keypt nóg af öllu því, er hann þarfnaðist, þá átti hann enn eina þúsund gullpeninga eptir, og vildi eigi fara með það fje, því að það mundi hafa orðið honum til tafar á slíkri langferð. Gekk hann því út, og keypti leirkrukku eina, og lagði í hana gullpeningana; síðan tók hann ávöxtu, og huldi með þeim fjeð; fyllti hann krukkuna á barma af ávöxtum. Þá batt hann dúk ofan yfir krukkuna, fór með hana til nágranna síns, er *Mústafa* hjet; hjelt hann að sá væri hinn bezti vinur sinn. Hann mælti við nágrannann: *Mústafa,* eg á langferð fyrir hendi, og veit eg eigi, hvar eg skuli varðveita ávöxtu þessa. Leyf mjer því, að eg megi láta þá standa í húsi þínn, þar til er eg kem heim aptur. Það leyfi eg þjer gjarnsamlega, mælti *Mústafa,* settú krukkuna hjer undir stiga þennan, þar er henni vel horgið. Setti *Alí* krukkuna nú undir stigann, kvaddi vin sinn, og fór daginn eptir til

*Mekka* með lestamönnum nokkrum. En er hann var þangað kominn, þá ljet honum verzlunin svo vel, og svo mikið fje græddi hann, að hann hjelt ferðinni áfram, enda þótt hann hefði ásett sjer í fyrstu, að halda heim aptur. Hann ferðaðist frá einni borg til annarar, fór um allt *Sýrland, Persaland, Egiptaland* og mörg önnur nálæg lönd. Liðu nú þannig nokkur ár, og er hann fór að búast til heimfarðar, voru sjö ár liðin, frá því er hann fór heiman.

Á meðan hann var á ferðalagi þessu, hugsaði *Mústafa* ekki tegund um ávaxtakrukkuna; hafði hún allt af staðið undir stiganum, síðan *Alí* hafði sett hana þar. Nú bar svo við einhvern dag, að *Mústafa* hafði heimboð, og voru þar vinir hans og kunningjar. Var rætt um ýmsa hluti yfir borðum, og meðal annars sagði kona *Mústafa*, að henni þætti harla mikið koma til sykraðra ávaxta. Þá hrópaði *Mústafa*: nú rankar mig við, að *Alí*, sem var nábúi minn fyrir löngu, setti hjer undir stigann krukku, fulla af ávöxtum; eg mun fara, og gæta að, hvað af henni er orðið, og ef hún stendur kyr, þá mun eg færa þjer nokkra ávöxtu, ef að þeir annars eigi eru skemmdir orðnir. Að svo mæltu gekk hann fram, og fann krukkuna undir stiganum; tók hann lokið af, og bragðaði á ávöxtunum; en þeir voru orðnir fúlir og skemmdir. Hann gjörði sjer í hugarlund, að þeir, er undir væru, mundu vera betri, og hristi því ávöxtuna úr krukkunni; en þá fjellu þar út þúsund gullpeningar, og veltust eptir gólfinu. Varð *Mústafa* hissa á þessum hlut, og ætlaði í fyrstu að láta fjeð aptur í krukkuna; en þá datt honum í hug, að taka það, og láta aðra ávöxtu niður í krukkuna;

framkvæmdi hann og óráð þetta; sjálfum sjer til smánar og tjóns. En fyrst um sinn lokaði hann krukkunni vandlega, og setti hana aptur undir stigann; gekk hann síðan inn í stofu, og sagði, að ávextirnir væru allir skemmdir orðnir; meira talaði hann ekki um þann hlut. Undir eins og honum gafst færi, fyllti hann krukkuna af óskemmdum sykruðum ávöxtum, eptir að hann hafði tekið fjeð. Síðan setti hann krukkuna á sama stað aptur.

Sjö vikum eptir þenna atburð kom *Alí* aptur til *Bagdað*, úr langferðinni. Hann leigði sjer stórt og fagurt hús, og er hann hafði komið sjer vel fyrir, þá fór hann að hugsa um gullpeningana, og gekk til *Mústafa*; heimti hann af honum krukkuna. En *Mústafa* svaraði þegar: far þú, vinur minn, og leita þú undir stiganum, þá muntú finna hana. Fann *Alí* nú krukkuna, og hristí út úr henni allt það, er í var; en gullið vantaði; og ekki fann hann neitt, þó að hann rótaði í ávöxtunum. Þá mælti hann: *Mústafa*, í krukku þessari átti að vera ein þúsund gullpeninga, og enginn, nema þú, hefur getað tekið þá; vil eg nú, að þú greiðir mjer fje þetta. Hvað er þetta, hrópaði *Mústafa*, og ljezt vera fokreiður, því ákærir þú mig fyrir slíkan þjófnað? Þú hefur fengið mjer til varðveizlu krukku, fulla af ávöxtum, og eg skila þjer aptur krukkunni með ávöxtunum í; hefi eg hvorki sjeð eður hreift hana í þau sjö ár, er þú hefur á burtu verið. Reyndar var *Alí* sterkríkur maður, og mundi hann því eigi hafa munað um, þó að hann missti eina þúsund gullpeninga; en hann hafði allt af trúað því, að *Mústafa* þessi væri bezti vinur sinn, og gramdist honum því stórlega þessi

sviksemi; hvatti hann nú *Mústafa* af mikilli alvöru til þess, að skila sjer aptur fjenu. En *Mústafa* ljet eigi undan hið minnsta; kvaðst hann aldrei hafa snert krukkuna, og bauðst með mikilli frekju til þess, að staðfesta sögu sína með eiði. Þá er vel, mælti *Alí,* hrúga þú synd á synd ofan, það varðar mig engu, en samt skaltú sverja. Leiddi hann nú þegar *Mústafa* fyrir dómara, og ákærði hann. Dómarinn hlustaði á, og spurði *Mústafa* síðan: hverju svarar þú til ákæru þessa manns? Dómari góður, mælti *Mústafa,* mál þetta er mjög einfalt; því að maður þessi fjekk mjer krukku með ávöxtum í, til varðveizlu, og eru nú sjö ár liðin síðan. Stóð krukkan undir stiga hjá mjer um allan þann tíma, og skipti sjer enginn af henni; nú kemur maður þessi aptur, heimtar krukkuna, og fær hana; og sem hann er búinn að leita í henni, þá er hann svo blygðunarlaus og ósvífinn, að hann ákærir mig fyrir það, að eg hafi stolið þúsund gullpeningum, er hann segir, að hafi átt að vera í krukkunni. Þannig er máli þessu varið. Þá spurði dómarinn aptur: getur þú unnið eið að því, að þú aldrei hafir snert krukkuna, frá því hún kom í hús þitt. Það bæði get eg, og vil, mælti *Mústafa;* og vann hann síðan eiðinn, og brá honum eigi. Þá gekk *Alí* heim til sín, og hafði borið lægra hluta; en hjarta hans var fullt haturs og gremju út af svikum hins illa vinar. Hann reit bónarbrjef til *Harúns Raskiðs* kalífa, innti honum frá öllum málavöxtum, og beiddist þess, að kalífinn sjálfur vildi rannsaka málið að nýju. Sendi hann kalífanum síðan brjefið. En er kalífinn fjekk það, las hann það, og talaði eigi um.

Nokkrum dögum síðar klæddist kalífinn dularbúningi, og fór, ásamt með *Gjafar,* ráðgjafa, að ganga um strætin í *Bagdað.* Komu þeir nú um mörg stræti, og bar þá loks að hliði einu, er var í húsagarði nokkrum; stóð hlið opið. Tunglskin var bjart, og sá kalífinn, að smásveinar ljeku sjer inni í húsagarðinum, og hlupu og stukku til og frá. Þá mælti sá, er elztur var sveinanna: komið, drengir, nú skulum vjer leika söguna um kaupmanninn og dómarann. Eg skal vera dómarinn; þú, *Hassan,* skalt vera *Alí,* en þú, *Akmet,* skalt vera *Mústafa;* þjer hinir egið að vera vitni. Já, kölluðu sveinarnir, það er gaman, það viljum vjer leika; og voru þeir harla glaðir yfir þessari uppáfinningu *Sólimans;* hópuðuðust þeir nú í kringum hann. En kalífinn hlustaði vandlega á, því að honum datt þegar í hug bónarbrjef *Alís;* og var honum mikil forvitni á að sjá, á hvern hátt sveinarnir mundu útkljá þetta mál.

Nú settist *Sóliman,* er átti að vera dómarinn, niður, og ljezt verða mjög alvörugefinn; en hinir tveir, ákærandinn og hinn ákærði, stóðu fyrir framan hann. Sá hinn litli dómari mælti þá af mikilli alvöru: hvað hafið þið að kæra fyrir mjer? *Hassan* gekk fram, og mælti: herra, maður þessi heitir *Mústafa,* og hefir hann tekið frá mjer þúsund gullpeninga, er geymdir voru í krukku, sem eg hafði beðið hann um að varðveita, meðan eg var á langferð; en eg hafði fyllt krukkuna efst með sykraða ávöxtu; var fjeð neðst í krukkunni, en ávextirnir ofan á. Þegar eg heimtaði eign mína, þá fann eg ekkert í krukkunni, nema ávöxtuna, en fjeð var horfið. Þá mælti dómarinn: hverju svarar þú, *Mústafa?* Eg

svara þannig, mælti hann, að maður þessi fari með ósvífna lygi, og að hvorki eg, nje nokkur annar, hafi snert krukkuna, og enn síður tekið neitt af því, er í henni var. Er eg þess albúinn, hvenær sem krafist verður, að staðfesta sakleysi mitt með eiði. Gekk hann fram, um leið og hann mælti þetta, og rjetti upp fingurnar, til þess, að vinna eiðinn. Þá hrópaði dómarinn litli: nei nei, bíddu við kunningi, við erum ekki komnir svona langt enn. Látið mig sjá krukkuna. Kom nú einn sveinanna með glerbrot, er átti að vera krukkan. Þá spurði dómarinn: *Mústafa*, kannastú við það, að þetta sje hin sama krukka, og þjer var seld til varðveizlu, og sem þú segir, að enginn hafi hreift í sjö ár? Já, mælti sveinninn, það er sú hin sama krukka. Þá er vel, mælti dómarinn, nú munum vjer brátt fá að sjá, hvor ykkar beggja hefur satt mál að segja. Skulu nú tveir reyndir kaupmenn ganga fram fyrir mig. Þá gengu tveir sveinar fram, og ljetust vera kaupmenn. Dómarinn mælti við þá: herrar góðir, segið mjer, hversu lengi mega sykraðir ávextir geymast óskemmdir? Í lengsta lagi í þrjú eður fjögur ár, svöruðu sveinarnir, því að þaðan í frá eru þeir óæti. Síðan ljezt dómarinn opna krukkuna, og smakka á ávöxtunum. Þetta er kynlegt, mælti hann, þið segið, að ávextirnir eigi megi geymast lengur, en um þriggja eður fjögra ára tíma, en þessir ávextir eru mjög gómsætir og bragðgóðir, og hljóta þeir þó að vera sjö ára gamlir, ef að *Mústafa* segir satt. Komið hingað, kaupmenn, og smakkið einnig á ávöxtunum. Gengu nú sveinarnir fram, og ljetust smakka á; þeir hrópuðu þá: það viljum við staðfesta með eiði,

herra, að ávextir þessir eru varla hálfs árs gamlir. Þá mælti dómarinn; nú, er því þannig varið, svona stendur nú á! Mæl þú, *Mústafa,* getur þú enn neitað því, að þú hefur farið með krukkuna, tæmt hana; og fyllt hana aptur með nýjum ávöxtum. Þá ljezt sveinninn titra og skjálfa, og mælti með hræddri röddu: herra dómari, eg hefi stolið fjenu. En dómarinn mælti: Þá skaltu og skila því aptur, varmenni þitt, og skaltu dauða líða, og hengjast á háfan gálga, fyrir ósvífni þína og þjófnað. Þá reis hann upp, og sagði málinu lokið; en drengirnir glöddust mjög, og hófu annan leik. Kalífinn mælti við *Gjafar,* að hann skyldi að morgni sækja *Sóliman,* er hefði látist vera dómari, og koma með hann heim til hallarinnar. Gekk hann síðan heim, og undraðist hann í huga sínum yfir skarpleika sveinsins, er var eigi eldri, en tíu vetra, en sem þó með viturlegri kænsku fjekk útgrundað þann glæp, er dómarinn sjálfur eigi mátti skilja.

Morguninn eptir ljet kalífinn sækja *Alí* og *Mústafa,* og ljet einnig gjöra boð eptir tveim hinum mestu kaupmönnum í *Bagdað.* Kom og ráðgjafinn með *Sóliman;* talaði kalífinn lengi við sveininn, og líkaði vel við hann; því næst bauð hann honum að yfirheyra *Alí* og *Mústafa,* og reyna að koma þjófnum til að meðganga, á sama hátt, og hann fór að í leiknum í gærkveldi. Var *Sóliman* í fyrstu smeikur og feiminn, út af þessari beiðni; en er kalífinn mælti við hann fagurlega og góðsamlega, þá fór af honum óttinn. Voru nú *Alí* og *Mústafa* leiddir fram; en sveinninn varð stiltur mjög og alvörugefinn; og svo fór hann vel að öllu, að kalífinn undraðist, og

þótti mjög vænt um. Fór hann að á sama hátt, og hann hafði fyr gjört við sveinninn; og loksins varð það, með skarpleika hans og kænsku, að *Mústafa* ruglaðist, og meðgekk glæp sinn með ótta og skelfingu. Og er svo var komið, snjeri *Sóliman* sjer til kalífans, og mælti: herra, nú hefur hinn seki játað afbrot sitt, en það hlýðir eigi, að eg kveði upp dóm yfir honum; munuð þjer það sjálfir gjöra, herra. En kalífinn brosti, klappaði honum á kinnina, og mælti ekki; því næst snjeri hann sjer með tignarlegri alvöru að hinum seka, og kvað þegar upp yfir honum dauðadóm. Var dóminum þegar fullnægt, og fjekk *Alí* fje sitt aptur. En kalífinn tók sveininn að sjer, og ljet ágæta meistara kenna honum alls konar vísindi. Var sveinninn iðinn og ástundunarsamur; og er hann var fullþroska, gjörði *Harún* kalífi hann að æðsta ráðgjafa sínum, og hjelt hann í meiri hávegum, en nokkurn annan mann í ríki sínu. Varð *Sóliman* þannig vitur maður og mikill, rjettlátur og hinn ágætasti.

---

# Albondokani.

Einhvern dag var *Harún Raskið* kalífi á ferð, ásamt *Gjafar* ráðgjafa, um strætin í *Bagdað;* voru þeir klæddir dularbúningi, og með öllu óþekkilegir. Gengu þeir til og frá, og komu að sölubúð kryddara nokkurs; var búðin svo fögur og vel sett, að kalífinn gekk inn, og neytti ýmissa hluta þar inni. Líkaði honum svo vel kaupmaðurinn, er verzlaði með kryddmetið, að hann minntist hans, þá er hann var kominn heim til hallar sinnar, og ljet sækja til hans hundrað sætabrauð, og ætlaði hann að gefa konu sinni þau. Þá ljet hann sækja silfurfat, og raðaði brauðunum sjálfur á það harla fagurlega. En undir sjer hvert brauð lagdi hann einn gullpening, og sendi konu sinni gjöfina, með þeim orðum, að ef hún girntist nokkurn hlut, þá mundi hann veita henni hann þegar. Skildi drottningin nú, að kalífinn, maður hennar, mundi vera í glöðum hug, og ljet hún því biðja hann um eina þúsund gullpeninga, og leyfi til þess að ganga út í borgina, til þess að kaupa ýmsa hluti. Fjekk hún þegar hvorttveggja. Tók hún nú á sig blæju, og huldi ásjónu sína; síðan bauð hún hirðmeyju einni að fylgja sjer. Fór hún nú víða um borgina; en hiti var mikill, og varð hún því þyrst; en langt var til hallarinnar. Hún vildi heldur eigi fá sjer að drekka hjá þeim, er

buðu vatn um torg og stræti, og bauð stúlkunni þess vegna, að berja einhversstaðar að dyrum, og beiðast svaladrykkjar. Stúlkan gjörði svo sem hún bauð, og barði að dyrum á stóru húsi og fögru. Ungur maður og vel búinn opnaði dyrnar, og kom að vörmu spori með svaladrykk, og rjetti drottningu. Hún tók við, og snjeri sjer við, svo að hinn ungi maður mátti eigi sjá framan í andlit henni; síðan drakk hún, og fjekk manninum vatnsbikarinn aptur. Fór hún síðan heim til hallarinnar, og hugsaði um, á hvern hátt hún skyldi endurgjalda hinum unga manni velvild hans; þá mundi hún eptir silfurfatinu með sætabrauðinu; sendi hún stúlkuna þegar með fatið, og áleit það vera næsta vel valda gjöf. En hinn ungi maður hjet *Aladín,* og var einn af hirðmönnum kalífans; var hann auðugur að fje og mikils metinn. Þá er hann fjekk fatið, ljet hann skila þakklæti til gjafarans, er hann þekkti eigi, og hugsaði ekki framarum þann hlut. Nokkru síðar kom þangað næturvörðurinn, er gætti strætis þess, er *Aladín* bjó í, og sagði frá ýmsum atburðum, er nýlega höfðu við borið; en er hann gekk á burtu, tók *Aladín* silfurfatið, og mælti: fær þú börnum þínum þetta, og láttu þau borða sætabrauðið; munu þau gleðjast yfir því. Varð maðurinn harla feginn gjöfinni, skundaði heim til sín, og hugsaði um þá gleði, er yfir börnin mundi koma. En kona hans kom á móti honum í dyrunum, og þá er hann hafði sagt henni, hversu á stóð, þá tók hún af honum fatið, og sagði: já, þetta er nú ekki fyrir börn, því að þeim hæfir eigi, að bruðla í sig sætindum; þau eiga að borða einfalt brauð. Far þú undir eins út á torg-

ið, og seldú fatið og sætabrauðið fyrir fje, ella skaltú fá að sjá, hversu fara muni. Maðurinn þorði eigi að mæla á móti konu sinni, heldur fór hann til kallara, og beiddi hann um, að selja fyrir sig fatið. En kallarinn gekk út á torgið, og hrópaði: komið, komið og kaupið sætabrauð, nýbakað sætabrauð!

Svo voru sætabrauðin fögur að sjá, að fjöldi manna þyrptist utan um kallarann, og vildu margir kaupa sætabrauðin. Voru kaupin þegar gjörð; þá tók einhver maður eptir því, að merki kalífans var stungið á silfurfatið, og hrópaði hann þegar: varið yður, því að þessu hlýtur að hafa verið stolið frá kalífanum; lítið á hið helga merki hans, sem fagurlega er grafið á silfurfatið. Tók fólkið þá að drífa á burtu, hvorr af öðrum, þar til er kallarinn var orðinn einn með fatið. En hann var eigi lengi að hugsa sig um; heldur ásetti hann sjer, að fara sjálfur með fatið til kalífans, því að það leizt honum ráðlegast, úr því sem komið var. Gekk hann fyrir stjórnarann, og mælti: drottnari rjetttrúaðra þjóða, fat þetta var eg beðinn að selja, og vissi eg eigi, hvað eg skyldi úr ráða, annað en það, að segja yður frá þessum hlut. En er kalífinn leit fatið, þá vissi hann eigi, hvað hann átti að hugsa; því að fat þetta hafði hann sjálfur búið út handa drottningunni, og gefið henni það; gramdist honum það því ákaflega, er hann sá, að vinátta hans og góðsemi var fyrirlitin. Einnig vildi hann vita, hver hefði selt fatið úr höndum sjer, og vonaðist hann eptir, að því kynni að hafa verið stolið. Ljet hann þegar sækja drottningu sína, og bauð henni að koma sem skjótast. Hún kom, og kalífinn spurði hana með ákefð mikilli: hefur þú gefið nokkrum fat

þetta? Já, mildi herra, mælti hún skjálfandi, því að þá er eg gekk í kring í borginni, þá gaf ungur maður nokkur mjer að drekka, og fyrir það gaf eg honum fatið. Varð kalífinn þá rólegri, en þó forvitinn um leið, því að hann girntist að fá að vita, hvor sá hinn ungi maður væri. Sendi hann þjón einn út, og kom sá aptur með *Aladín* hirðmann. Þá mælti kalífinn: hefur þú gefið þessari konu að drekka? Já herra, mælti *Aladín*. Hefur þú sjeð ásjónu hennar, þá er hún lypti blæjunni frá andlitinu, er hún drakk? mælti kalífinn. En í stað þess að neita, eins og satt var, þá kvaðst *Aladín* hafa sjeð andlit konunnar; og varð kalífinn þá æfur af reiði. Ljet hann þegar sækja böðul, og bauð, að höggva skyldi höfuð af *Aladín* og drottningu. En böðullinn kom, og breiddi uxahúð mikla á jörðina, og benti *Aladín* þegjandi, að hann skyldi falla á knje, svo að hann yrði höggvinn. Hlaut hann að gjöra svo, sem boðið var; snjeri hann sjer þá til drottningar, og mælti: kæra frú, mjer er ógæfa yðar að kenna, en það sver eg, að eg aldrei hefi sjeð ásjónu yðar, og skil eg eigi, hví eg hefi svarað á þenna hátt. Fyrirgefið mjer, drottning; þjer sjáið, að eg hlýt einnig að deyja, sökum yfirsjónar minnar. Grjet drottning þá beisklega, en fyrirgaf hinum unga manni gjarnsamlega; hún huldi sig blæju sinni, og beið þess, að hún yrði höggvin. Var nú bundið fyrir augun á *Aladín*, og kraup hann á húðinni, en hún var blóði drifin. En er böðullinn reiddi til, þá reif *Aladín* frá augum sjer, stökk upp, og mælti við kalífann: herra, veitið mjer af mildi yðvarri þá bæn, að eg fái þriggja daga frest, því að eg spái því, að innan þess tíma munuð þjer hafa

lifað einhver merkilegan viðburð; og eg set yður höfuð mitt í veð, að yður mun eigi iðra þess, að hafa veitt mjer náð þessa. Mælti *Aladín* þessum orðum svo fastlega, að reiði kalífans sefaðist, og mælti hann: þann frest mun eg veita þjer, og eins drottningu; en ef þú ferð með ósannindi, og dirfist að draga mig á tálar með loforðum einum, þá skáltu biðja guð, að hann láti þig deyja á þessum þriggja daga fresti, til þess, að þú eigi verðir fyrir reiði minni. Síðan bauð kalífinn öllum að fara á burtu, og gekk um gólf, þá er hann var einn orðinn; var hann sem æðandi ljón, og augu hans leiptruðu. Leið nú hinn fyrsti af hinum þremur dögum, og bar ekki til tíðinda; en að kvöldi hins annars dagsins tók kalífanum að leiðast; gekk hann því inn, og klæddist dularbúningi; tók hann stigamannaklæði, byssu á öxl, og sverð við hlið, og grímu fyrir andlit. Síðan gekk hann út úr höllinni um leynidyr nokkrar, og ætlaði hann, ef þörf gjörðist, að kalla sig *Albondokani,* því að það var nafn, er hann hafði valið sjer fyrir dularheiti á þeirri viku; þannig, að hann hafði látið alla hermannaforingja og öll yfirvöld vita af því, að þá er nokkur skipun kæmi frá þeim, er hjeti *Albondokani,* þá væri það sama, sem skipunin kæmi frá *Harún Raskið,* kalífanum sjálfum, því að hann duldist undir þessu heiti. Gekk *Albondokani* nú hingað og þangað, án þess að stefna neinn vissan veg, og kom að kaupmannastofunni í *Bagdað;* var það dýrðleg bygging, með mörgum súlnaröðum; þar höfðu hinir helztu kaupmenn sölubúðir sínar. Þar hitti hann ungan mann nokkurn, og stóðu margir í kringum hann; en hann sagði þeim sögu, og fálmaði skringilega hönd-

unum út í loptið, og kallaði upp yfir sig hvað eptir annað: og sjer er hvað! það er undarlegt! hefur nokkur heyrt annað eins! það er óskiljanlegt! Varð *Albondokani* af þessu forvitinn, gekk hann því til hins unga manns, og mælti: herra minn, segið mjer frá þeim hinum undarlega hlut, er mjer virðist að þjer undrist svo mikillega. Það vil eg gjarna, mælti hinn ungi maður; þarna hefur kona ein gömul legið á knjánum lengur en tvær klukkustundir, og beðið alla þá er fram hjá gengu, um ölmusu, og þylur hún upp heilmikið úr *kóraninum*, og það svo vel, að undrum gegnir. En enginn hefur gefið henni neitt, herra, og það fær mjer undrunar. Gekk kalífinn þá að konunni, og hlustaði á hana um stund. Meðan hann var að fara ofan í vasa sinn, til þess að ná upp fje handa henni, þá heyrði hann hana segja með lágri röddu við kaupmann nokkurn, er fram hjá gekk: herra, viljið þjer fá yður fallega og unga stúlku? Kaupmanninum brá við, starði hann á konuna, og mælti: hví eigi svo, ef að hún er fríð, og eg get fengið að sjá hana áður. Stóð konan þá upp, benti kaupmanninum, að hann skyldi fylgja sjer eptir, og gengu þau bæði á stað. *Albondokani* vildi sjá, hversu þessu reiddi af; gekk hann því á eptir þeim, án þess þau yrðu hans vör, því að dimmt var orðið. Konan nam staðar við hús eitt lítið, lauk því upp, og gekk inn með kaupmanninum; en *Albondokani* smaug inn á eptir mjög liðlega. Ljós sást í gegnum stofudyr; læddist kalífinn að hurðinni, og gáði inn, í gegnum glugga, er á var hurðinni. Sá hann, að þar sat kona, forkunnar fögur; var hún að hylja andlit sitt með blæju; hún mælti við hina gömlu konu ávítunaryrðum, hví

hún þannig hefði leitt karlmann inn til sín óvörum. En hin gamla kona mælti: vertu góð, dóttir mín, því að þessi maður ætlar að eiga þig, og þarftú eigi að fælast hann. Síðan mælti hún við kaupmanninn: ef að þjer eigið svo mikið fje, að þjer getið gefið konunni fjórar þúsundir gullpeninga í morgungjöf, þá skuluð þjer fá hana. Varð kaupmaðurinn dauðhræddur, og mælti: svo mikið fje á eg eigi til; eg á ekki nema tvær þúsundir; en eg vil gefa allt það, er eg á, fyrir þessa hina fögru konu. Þá hrópaði konan: hvaða rækallans aumingi er maðurinn; far þú burtu hjeðan sem fyrst, því að hjer fær þú ekkert; þú gengur fagurlega búinn, en átt ekki einn skilding, þegar til kemur! Kaupmannskornið stóð þar þá, eins og hundur, dreginn af sundi, og fjekk honum svo mikils ræða kerlingarinnar, að hann mátti eigi mæla orð; og fór hann loks á burtu við svo búið. Hafði kalífinn allt af staðið fyrir utan dyrnar, og ætlaði að springa af hlátri. En er kaupmaðurinn var burtu farinn, þá tók kalífinn til að lemja á dyrnar með byssu-skeptinu; þar til er kerlingin lauk upp bölvandi og ragnandi. Hafið þjer hægt um yður, kona góð, mælti *Albondokani;* eg kem bónorðsför til yðar, og ætla að eignast dóttur yðar. Eg mætti ungum manni, er kom frá yður; hefur hann sagt mjer frá öllu; og kvaðst hann eigi hafa getað greitt fjórar þúsundir gullpeninga. En mig vantar eigi fje, og ræð eg yður til, að hleypa mjer inn, því annars mun fara illa fyrir yður. Og far þú til fjandans, orgaði kerlingin, þú hinn viðbjóðslegi dólgur! snáfa þú út, og kom þú að minnsta kosti betur búinn; hvar er fjeð þitt? máske í skolti þjer? Svikarinn þinn!

snauta þú nú á burtu, og tef mig eigi lengur. Ætlaði hún þá að skella hurðinni í lás, en kalífinn tróðst inn, og skellihló upp yfir sig; tók hann í hönd henni, en þótt hún væri nauðug, og leiddi hana þannig inn í herbergið, þar er hin unga stúlka sat inni. Bíddu nú dálítið fyrst, skrípatröllið þitt, mælti kalífinn; eg get greitt fjórar þúsundir gullpeninga út í hönd. Greið þú þá þegar, mælti kerlingin; getir þú það, þá fær þú stúlkuna. Dró kalífinn þá upp úttroðinn peningapung, fleygði honum á borðið, og mælti: hjer er fjeð, kerling, og það heldur mikið, heldur en of lítið; vil eg nú, að þú gangir þegar til dómarans, því að eg geng nú þegar í stað að eiga dóttur þína. Eruð þjer með öllu ráði, hrópaði kerlingin, haldið þjer, að dómarinn komi þegar í loptinu, hvaða fantur sem á hann kallar? Þjer getið farið sjálfir, en eg mun gæta mín. Þá mælti kalífinn af mikilli alvöru og tign: far þú þegar, og seg dómaranum, að *Albondokani* bíði hans, og að hann skuli hafa með sjer öll ritfæri; heyrir þú? Varð kerlingin nú smeik við hina skipandi röddu, og fór nöldrandi á stað; en hún hugsaði með sjer, að ef að dómarinn hlýddi þessu boði, þá mundi tengdasonur sinn eigi vera smáræðis fantur.

Þá er hún kom til dómarans, sat hann, ásamt nokkrum öðrum lagamönnum, við langt borð, og var allt svo hljótt og kyrt, að hún eigi þorði að mjamta. Stóð hún upp við vegginn, og tók dómarinn loksins eptir henni; hann mælti við hana heldur hrjóstrungslega: hvað vilt þú hingað til vor? Æ, drottinn minn! dómari góður, mælti kerlingin, reiðist mjer eigi, því að svo stendur á, að maður nokkur er heima

í húsi mínu, og hefur hann hartnær með illu rekið mig hingað; skipar hann yður þegar að koma, og hafa með yður öll ritfæri, því að hann ætlar að eiga dóttur mína. Hver er þessi hinn ósvífni hundur, öskraði dómarinn svo hræðilega, að konan skalf og titraði af ótta. Hann heitir *Albondokani*, mælti konan. Guð hjálpi mjer, hrópaði dómarinn, stökk upp og velti stólnum, er hann sat á; og ekki gegndi hann neinu af því, er hinir spurðu hann um; burt, svo fljótt sem unnt er, kallaði hann, farið á undan, kona góð, farið þjer á undan. Gekk kerlingin nú á undan; en henni var eigi unnt að þegja, þá er hún sá, hversu skjótlega dómarinn brást við, er hann heyrði nafn tengdasonar hennar. Hún mælti þá: dómari góður, það getur ekki hjá því farið, að *Albondokani* hafi einhverntíma gefið yður duglega ráðningu; því að þjer eruð sannarlega hræddir um, að þjer munuð nú verða hýddur aptur; og eruð þjer víst huglítill maður. Þegi þú, kona góð, mælti dómarinn, þegi þú í öllum bænum, og flýtum okkur áfram. Gengu þau nú hratt áfram, og komu brátt inn í stofuna, þar sem *Albondokani* beið þeirra. Skildi dómarinn þá, að kalífinn vildi dyljast, og heilsaði því með lotningu, en nefndi eigi nafn hans og tignarheiti. Bauð *Albondokani* honum nú, að búa til hjónasáttmálann. Dómarinn settist niður við borðið, tók upp blekbyttu sína, en fann engan pappír, því að hann hafði í flýtinum gleymt honum heima. Kom þá hræðsla mikil yfir dómarann, og reif hann í ofboðum hornið af hvítri skikkju, er hann hafði innan undir kápunni; þar ritaði hann á hjónasáttmálann. Kerlingin starði á þetta með undrun mikilli, en mátti

loks eigi standast, heldur hrópaði hún hátt: Hverju gegnir þetta? Þessi tengdasonur minn hlýtur að vera hinn mesti stigamannahöfðingi í heimi, þar sem dómarinn hefur slíkan ótta af honum, að hann rífur af sjer flíkurnar, þó að hann hafi gleymt pappír. En er það og ekki háðungarlegt, að eg skuli gefa slíkum höfuðfanti dóttur mína, og slíkum svikara! Æ, eg vildi að maðurinn minn heitinn lifði núna, því að hann mundi hafa rekið slíkt illþýði á burtu. Þannig hjelt kerlingin áfram með að emja og veina, þangað til kalífinn skelldi upp yfir sig, og bauð henni að þegja. Því að dómarinn var einnig farinn að kreista kjúkur, og var hann þó að reyna, að vera alvörugefinn, þar sem sjálfur kalífinn var við. Var hjónasáttmálinn loksins búinn, og fjekk dómarinn kalífanum hann með mikilli lotningu. Síðan ætlaði hann að fara á burtu, og hneigði sig djúpt niður að jörðu, en þá hrópaði kerlingin: bíðið þjer við, því að tengdasonur minn mun fyrst greiða yður fje fyrir ómak yðvart. En kalífinn mælti, að hann skyldi fara, og gjörði dómarinn svo. Hvað er nú þetta, grenjaði kerlingin aptur, eruð þjer þá sá ruddi, að þjer eigi gjaldið það sem þjer eruð bæði guði og mönnum um skyldir? Kalífinn hló að kerlíngunni, og mælti: tengdamóðir góð, nú mun eg ganga heim, og koma aptur að kveldi dags á morgun; vil eg að þú gætir konu minnar á meðan mjög vandlega. Snemma á morgun mun eg senda henni ýmsar smágjafir, og láta gjöra að húsi þínu, svo það verði fagurt og hreint. Ekki hirði eg um það, nöldraði kerlrngin, en eg skil vel, hvað þú munir hafa fyrir stafni; þú munt ætla á stað í nótt, til þess að ræna og stela, svo að þú

hafir eitthvað til að gefa í burtu á morgun; snautaðu á burtu, og kom þú helzt aldrei. Gekk kalífinn nú á burtu, og heim til hallar sinnar. Skipti hann nú skjótlega um klæði, og ljet síðan kalla fyrir sig ýmsa iðnarmenn og listamenn, og fjölda þjóna, og mælti við þá: á morgun um sólar uppkomu skuluð þjer fara, og til húss konu nokkurrar, er *Arafa* heitir; það hús skuluð þjer prýða sem fegurst þjer megið, og sparið hvorki gull nje silfur nje marmarastein, nje nokkurn annan hlut, til þess að þjer gjörið húsið sem dýrðlegast og veglegast. En verki þessu skal lokið um miðjan dag, því að öðrum kosti læt eg höggva hendur af yður öllum saman. Ef konan spyr yður að, hver hafi sent yður, þá svarið engu, nema því einu, að sá heiti *Albondokani* og sje tengdasonur hennar; ef hún spyr yður að, hvað eg starfi, þá skuluð þjer segja, að þjer vitið það eigi; og eigi skuluð þjer með nokkru móti láta á bera, að kalífinn hafi sent yður. Skiljið þjer orð mín? Hver sá, sem dirfist að brjóta á móti þessu boði, hann skal fá þunga hegningu, ef eg annars er drottnari hinna rjetttrúuðu þjóða. Hjetu allir menn þessir því, að þeir skyldu vandlega gæta þess, er þeim var boðið; voru þeir og komnir að húsi því, er *Arafa* bjó í, fyrir sólar uppkomu daginn eptir. Hvað viljið þjer hingað, hrópaði kerlingin Vjer ætlum að prýða hús yðvart, sögðu þeir. Hver sendir yður, slóðar? kallaði kerlingin. Tengdasonur yðar, sögðu þeir. Hvað vitið þjer um hann, hrópaði kerlingin, eruð þjer slíkir höfuðfantar, sem hann er? En þeir svöruðu eigi, heldur tóku þeir til að smíða, og börðu og brömluðu allt það er af tók. Þá grenjaði kerlingin

aptur: segið mjer, hvern starfa hefur tengdasonur minn á hendi? Það vitum vjer eigi, sögðu þeir. Hvað heitir hann þá? orgaði kerlingin. *Albondokani, Albondokani*, hrópuðu allir smiðirnir í einu, og nú var allt á lopti, hamrar, axir, sleggjur, sagir, klöppur, meitlar, og hömuðust þeir nú á smiðunum, svo að ekkert heyrðist, þó að talað væri. Varð kerlingin loksins með öllu forviða, og hugsaði nú með sjálfri sjer, því ekki tjáði lengur að grenja: það skil eg, þó ekki skilji eg mikið, að mikill rækallans karl hlýtur *Albondokani* þessi að vera, þar sem allir eru dauðhræddir við hann, eins og fjandinn sjálfur væri í hælunum á þeim, og enginn vill segja neitt um hann, það fer ekki hjá því, að hann hlýtur að vera hinn grimmasti og voðalegasti stigamannaforingi í heimi. — En mennirnir hjeldu áfram verkinu, og var allt búið á rjettum tíma; var nú gólfið í húsinu lagt með skyggndum eg gljáandi marmarasteini; veggirnir voru þaktir silkidúkum, og prýddir fegurstu myndaspjöldum. Fyrir framan gluggana hjengu þungir gullofnir dúkar, og allt var sett á hinn fegursta hátt, er verða mátti, og ljómuðu hvervetna fagrir gimsteinar, gull og silfur. Fóru mennirnir nú heim, og galt kalífinn þeim höfðinglega fyrir verkið. Ljet hann síðan þjóna nokkra koma, og tók dýrmæt klæði, hússbúnað, silkidúka, pell og purpura, og margvíslega gripi, og bauð þeim að færa þetta konu þeirri, er *Arafa* hjet, og heilsa frá *Albondokani*; bannaði hann þeim að mæla fleira. Og er þeir komu til kerlingarinnar, þá varð hún í fyrstu orðlaus af undrun, er hún sá allar gjafirnar; spurði hún hvort þeir eigi hefðu villst, og ættu að fara eitthvað ann-

að. En þeir kváðu nei við, og heilsuðu frá *Albondokani;* síðan tóku þeir gjafirnar upp, lögðu þær á borð og stóla, og gengu á burtu. Þá hrópaði kerlingin upp yfir sig: guð komi til, miklum skelfingum hlýtur tengdasonur minn að hafa stolið, er hann getur sent mjer slíkar gjafir! Siðan skundaði hún til kunningjakona sinna, og beiddi þær, að hjálpa sjer til, að raða dálítið niður í húsi sínu, áður en kveld kæmi. Urðu konurnar nú forvitnar, eins og stundum ber við, og hlupu allt það er fætur toguðu. Kom yfir þær undrun mikil, er þær sáu húsið, er áður hafði líkst kofa, en sem nú var orðið eins og hin fegursta höll. Hverju gegnir þetta, hrópuðu konurnar, hvað hefur við borið? Það er víst ekki einleikið; nei, að sjá þessar hinar dýrðlegu myndir; en hvað dúkarnir og gluggablæjurnar eru glæsilegar! og allt af silki og gullvefnaði; hvernig stendur á öllu þessu? Það hefur tengdasonur minn látið gjöra í dag á nokkrum klukkustundum, mælti kerlingin. Hvað þá, hrópuðu konurnar, tengdasonur yðar? Hver er sá? Hvaðan er hann kominn, er eigi veit aura sinna tal? Hvaða iðn stundar hann? Æ, veinaði kerlingin aumkunarlega, jeg held raunar, að iðn hans sje ekki svo heiðarleg, sem skyldi; hann vill eigi segja frá, hvernig á sjer standi, og virðist mjer ekki annað, en hann muni vera stigamaður. Það leikur enginn efi á því, hrópuðu konurnar, biðjið þjer hann í öllum bænum, að hlífa oss og eignum vorum. Verið óhræddar, mælti kerlingin, hann mun varla hirða um það, er þjer eigið, því að það er smælki eitt, enda hirðir hann og eigi um smámuni eina, því að það megið þjer sjá, að hann er enginn aumingi.

Á meðan þær voru að málæði þessu, komu margir þjónar frá kalífanum, allir í dularklæðum, og báru stórar karfir með mat, kryddmeti, og sætum drykkjum, þeir mæltu við kerlinguna: frú, tengdasonur yðar sendir yður þessa hluti; mælti hann, að þjer skylduð gæða yður, ásamt kunningjakonum yðar og nágrannakonum, en kona hans á þó að fá það, sem bezt er. Þá hrópaði kerlingin: segið mjer, hver er maður dóttur minnar, er svo er ríkur vg voldugur? *Albondokani,* svöruðu þjónarnir; settu þeir síðan allt það, er þeir báru, á borðið, og fóru á burtu. Varð nú handagangur í öskjunni, því að konurnar fjellu yfir matinn, og höfðu góða lyst á honum; samt voru þær svo hæverskar, að þær skildu það bezta eptir, handa *Albondokani* og konu hans. Var nú hver lofræðan eptir aðra haldin yfir *Albondokani,* meðan krásirnar entust, og allar konurnar óskuðu sjer, að þær ættu slíkan tengdason. Hvað er að því, sögðu þær þá, þó að maðurinn ræni og steli, þegar hann hefur nóg fje, og er örlátur? Lifi *Albondokani!* Gengu nú læti þessi langa stund; og er konurnar voru komnar heim til sín, þá var það komið á svipstundu um allan bæinn, að *Arafa* ekkja væri búin að eignast nafntogaðan og ógurlega auðugan ræningja| fyrir tengdason.

Nú barst og fregn þessi til kaupmannsins, sem fyr var getið, er hlaut að fara við svo búið á burtu, sökum þess, að hann vantaði fjórar þúsundir gullpeninga. Var hann eigi búinn að gleyma íllyrðum kerlingarinnar og háðyrðum, og því, að hún rak hann út. En hann var maður hefndargjarn mjög, og varð hann því feginn fregn þessari, því að hann bjóst við, að geta hefnt sín á kerlingunni. Gekk hann því til

lögreglustjórans skyndilega, og mælti við hann: herra, í kveld munuð þjer veiða vel, því að *Arafa* ekkja hefur gipt dóttur sína nafntoguðum ræningja, og er mjer það vel kunnugt, að skelmir þessi hefur látið flytja ógrynni auðs og gersema í hús hennar, og ætlar þangað sjálfur, þá er dimmt er orðið. Er yður því ráðlegast, að bjóða hermannaforingjum yðar, að fara með lið að húsinu um tíundu stundu; mun þá ekki ræningi þessi undan komast; en sjálfur heimta eg einungis það, að stúlka sú, er fúlmenni þetta hefur tekið, verði fengin mjer í hendur. Varð lögreglustjórinn harla glaður við þessa fregn, og um tíundu stundu fór hann á stað, með fjögur hundruð manna, og tvo flokksforingja; hjet annar *Skamama,* en hinn *Hassan;* kaupmaðurinn var og í för með þeim. Komu þeir nú að húsinu, og fylltu upp allt strætið, en *Skamama* gekk að dyrunum, og barði með járnkylfu á dyrnar svo gríðarlega, að húsið skalf allt og titraði, og ætlaði í sundur að liðast. Upp með dyrnar, orgaði hann, hjer er lögregluliðið, ljúkið upp, mannfýlur! En *Skamama* var sjálfur hin versta mannfýla, og manna grimmastur og fólskastur. Varð kerlingin nú mjög hrædd, er hún heyrði brakið í húsinu, og orgið fyrir utan dyrnar; en hún rjeði það af, að ljúka eigi upp. Beið *Skamama* nú nokkra stund fyrir utan. En loksins tók honum að leiðast; hann snjerist að lögreglustjóranum og öskraði: Hví stöndum vjer hjer til smánar og háðungar? á eg að mölva hurðina upp, hún stenzt varla til lengdar, og því fyr, sem vjer komustum inn, því fyr náum vjer gripunum og ræningjanum. Lögreglustjórinn ætlaði þegar að veita orðum þessum samþykki, þeg-

ar *Hassan,* hermannaforinginn, gekk fram; hann var maður góðhjartaður og stilltur, og mælti; herra, þess hljótið þjer að gæta, að saga kaupmannsins er eigi sönnuð, og að vjer erum fyrir framan húsdyr ekkju nokkurrar, er engan mann hefur, er verji hana, eður taki málstað hennar, og þarf því verndar lag-anna við, ef nokkur þarf þeirra. En þjer skuluð gjöra það, ef þjer viljið, fyrir mjer; eg mun halda höndum mínum frá þessari synd. Hvað þá, öskraði *Skamama,* mannfýlan er þarna inni, og fjandinn sjálfur sæki hann, ef eigi verður lokið upp. Ljúktu upp kerlingarókindin þín, grenjaði hann, og lamdi allar dyrnar utan með kylfunni. Eg lem hurðina í sundur í þúsund stykki, hrópaði hann, ef að þú lýk-ur eigi þegar upp, ljúktú upp ræningjaklefanum, þín auma kerling, og flýttú þjer, því að hjer er *Skam-ama* og blóðflokkur hans. Heyrði kerlingin nú allt þetta inn til sín, og skalf eins og hrísla. Æ, guð hjálpi okkur, veinaði hún, þar er lögregluliðið kom-ið; það er allt saman ólukku ræningjanum að kenna; hvað á eg nú til bragðs að taka? Dóttir hennar var miklu hughraustari, og leitaðist á allan hátt við, að hressa kerlinguna upp; far þú að dyrunum, móðir mín, og segðu þeim, að hjer sje enginn ræningi, og bið þá, að láta okkur hafa frið; loka þú dyrunum vel, og láttú engan komast inn, því að vel getur skeð, að við fáum aðstoð enn. Hresstist kerlingin nú dálítið, og er nokkuð hægðist um úti fyrir, þá hrópaði hún: hvað viljið þjer? hjer er enginn maður inni, nema konur tvær, sem ekkert hafa gjört fyrir sjer. Ljúktú upp, ljúktú upp, óhræsið þitt, öskraði *Skamama,* og lamdi enn gríðarlegar á dyrnar; hús

þitt er ræningjaklefi; hjer er lögregluliðið fyrir utan; vjer skulum hreinsa innan hreysið þitt, kerling! ljúktú upp, ella molum vjer hausinn bæði á þjer og dóttur þinni. En kerlingaraumingin lokaði dyrunum, svo vel sem unnt var; kvaðst hún engan ræningja hýsa, og sagðist með engu móti opna dyrnar. Síðan gekk hún inn til dóttur sinnar, tók til að hrína upp yfir sig af dauðans hræðslu, og mælti: æ, ef faðir þinn lifði, eða ef bróðir þinn væri hjer, þá mundi enginn voga sjer þannig að okkur. Eg vildi óska, að veslingurinn hann *Albondokani* ekki kæmi, því að hann mundi verða rifinn í sundur, og gæti samt eigi veitt oss lið. *Skamama* öskraði á meðan úti á strætinu, eins og bandvitlaust ljón, jós úr sjer hræðilegum skömmum og smánaryrðum, og lamdi húsið utan, svo að brakaði í hverju trje. Vjer skulum kveikja í bannsettum kofanum, hrópaði hann; brjótið nú skrárnar frá, hermenn, því að nú er eigi til neins að bíða lengur, fljótt nú! En *Hassan* ljet slíkt athæfi ekki fá framgang, heldur hjelt hann hermönnunum í skefjum, og mælti: vjer förum lengra, en lögin leyfa, og höfum vjer eigi rjett til slíkra hluta; má vel vera, að klögunin sje ósönn; eg bið yður, verið stilltir, því að æði og framhleypni getur ollað miklum óhöppum. Hvað þá, hrein *Skamama* upp yfir sig, gætum vjer eigi köllunar vorrar? hvað varðar oss um kvennsniptir þær, sem þarna eru inni fyrir? far þú á burtu, mannleysa! því að hjer þarf djarfleika og hraustleika. Far þú í kvennahóp, því að þar áttú heima. En *Hassan* var stöðugur á máli sínu, og tálmaði því, að dyrnar yrðu brotnar upp; voru þær til allrar lukku úr eikitrje, og rambyggileg-

ar mjög, svo að þær stóðust nokkurn veginn kylfuhögg þau, er *Skamama* veitti þeim.

Nú er að segja frá kalífanum, að þá er dimmt var orðið, tók hann stigamannaklæði, og gekk, án þess að nokkur þekkti hann, að húsinu, er lögregluliðið stóð fyrir utan, og brjóta átti upp. Tók hann að hugsa með sjálfum sjer, hverju þyss sá gegndi, er á strætinu var; gekk hann nú áfram, þar til er hann komst inn í hermannahópana, og heyrði, hversu komið var, og öskur það og ill læti, er *Skamama* hafði í frammi, og friðarorð *Hassans.* Reiddist kalífinn ákaflega við *Skamama,* og hjet honum í huga sínum þungri refsingu, fyrir sakir frekju hans og ósvífni. Leit hann nú allt í kring um sig, til þess, að finna einhverjar dyr á húsinu, en allstaðar var fullt af hermönnum. Við hliðina á húsinu lá höll ein, er átti einn af hermannaforingjum kalífans; sá hjet *Júnis;* datt kalífanum þegar í hug, að hann mundi komast af þakinu á þeirri höll og yfir á þakið á húsi því, er *Arafa* bjó í. Gekk hann nú skyndilega að hallardyrunum. Kom þá á móti honum þræll nokkur, mikill sem tröll, og hrópaði til hans illilega, hvort hann ætlaði. En kalífinn var stór maður og hinn hetjulegasti; hann mælti við þrælinn reiðuglega, og með dimmri röddu: hvað skiptir það þig, þú hinn aumi þræll? Kalla þú þegar herra þinn. En þrællinn skelfdist, er hann leit framan í hin leiptrandi augu kalífans; skundaði hann til herra síns, og mælti: herra, fyrir utan dyrnar er maður nokkur, mikill og voldugur sem ljón; hann bauð mjer að kalla á yður, og rödd hans er sem þrumugnýr. Hvað segir þú, hrópaði *Júnis,* og varð íokreiður, hverr dirfist að

smána þjóna mína? Stökk hann upp, þreif öxi mikla, og ruddist út, beljandi af bræði, til þess að hegna þessum hinum ósvífna manni. Hvar er mannfýlan? hrópaði hann hvað eptir annað. Hjerna er maðurinn, mælti kalífinn stillilega og tignarlega. En er *Júnis* heyrði rödd kalífans, þá þekkti hann hana þegar, og fjell til jarðar, svo sem lostinn af reiðarslagi; hann hrópaði: herra, fyrirgefið mjer, og skipið mjer allt það er þjer viljið. Þá mælti kalífinn: þú hinn lati og dauflegi þjón, heyrir þú eigi harkið og hávaðann úti á strætinu? Veiztú eigi, að ósvífnir og ótrúir þjónar hræða fátækar, saklausar og hjálparlausar konur, á meðan þú sjálfur liggur hreifingarlaus á legubekki? Er þetta trúleiki þinn? Mildi herra, mælti *Júnis*, eg skal flýta mjer — Nei, mælti kalífinn, nú mun eg sjálfur útkljá mál þetta, fyrst að eg er kominn; skaltú nú hjálpa mjer til þess, að komast upp á þakflötinn á húsinu. Kom *Júnis* nú með stiga og kaðla, hjálpaði kalífanum ofan af þakinu, og beiddi hann margfaldlega fyrirgefningar. Í þetta sinn mun eg fyrirgefa þjer, mælti kalífinn, og stje í því bili ofan af þakfletinum, og komst að lokuðum dyrum, er voru á stofu þeirri, er *Arafa* og dóttir hennar sátu báðar í, og hlustuðu kveinandi og skjálfandi á hávaðann, er var úti á strætinu. Á miðri hurðinni var stórt kringlótt gat, og sá kalífinn í gegnum gatið, hversu menn hans höfðu skrýtt herbergið fagurlega; því að hann varð nær því blindaður af þeim hinum gullna ljóma, er streymdi frá veggjunum og loptinu á enum fagra sal; líkaði honum vel, er hann sá þetta. Síðan hlustaði hann eptir því, er þær töluðust við, og heyrði hann, að kerlingin var að tala

um sjálfan hann, *Albondokani,* og valdi honum hin mestu atyrði og hrakyrði; en kona hans tók málstað hans öfluglega, og rak ávítur kerlingar á bak aptur. Ef að hann væri hjer, sagði hún, þá mundi hann einn tvístra illþýði því, er hjer er fyrir utan; svo er hann hetjulegur og mikillegur að líta. Þótti kalífanum nú vænt um; og vildi hann nú gjöra vart við sig. Hann tók lítinn stein, og kastaði honum svo lipurlega, að hann kom í ljósið, og slökkti það. Hverju sætir þetta, mælti kerlingin, þar slokknaði ljósið. Kveikti hún á kertinu aptur. En kalífinn slökkti hið annað, og hið þriðja, og hið fjórða, og kastaði loksins á hönd kerlingunni. Leit hún þá upp, og sá *Albondokani;* undraðist hún mikillega. Nú, mælti hún, þarna er þá maðurinn þinn, dóttir sæl; það sjer á, að hann er bölvaður ræningi, þar sem hann kemur inn um reykháfa, er aðrir menn ganga inn um dyrnar. Núna ætla jeg samt, að honum hafi verið hollara að koma þenna veg, því annars hefði ekki mikið orðið úr honum. Líttu nú á, ræningi, hjer er nú lögregluliðið fyrir utan, og ætlar að taka þig. Þá mælti *Albondokani:* ljúktú upp hurðinni hjerna, eg mun reka menn þessa á flótta. Heyrir þú nú, móðir góð, sagði dóttir hennar, hef eg ekki sagt þjer, að hann mundi hjálpa okkur, og frelsa okkur úr neyð þessari; þá lauk stúlkan upp fyrir honum. En kalífinn faðmaði hana blíðlega, og hvíslaði að henni: óttastu eigi, því að nú er eg kominn. Síðan mælti hann hátt við kerlinguna: kona góð, nú vil eg fá að borða, því að eg er svangur mjög. Hvað? þjer ætlið að fara að jeta, hrópaði kerlingin; eg hugsaði, að slíkir fantar mundu eigi

hafa matarlyst, þegar lögregluliðið veitir þeim eptirför. Flýttu þjer, kona, skipaði *Albondokani*, eg gjöri svo sem mjer líkar, og hirði eigi um lögreglulið það, er þú talar um. Tók hann nú til matar í náðum, og sat við borðið með konu sinni; og átu þau og drukku fullkominn fjórðung stundar. En kerlingin var orðin forviða af ótta; því að *Skamama* orgaði, svo sem væri hann vitstola, fyrir utan dyrnar, og lamdi allt húsið utan ógurlega. Þótti kalífanum loksins nóg um ólæti þessi, og tók hann fingurgull af hendi sjer; fjekk síðan kerlingunni það, og mælti: fingurgull þetta skaltu færa lögreglustjóranum, og seg honum, að eigandi þess sje þar inni í húsinu; skaltu og skipa lögreglustjóranum, að koma fyrir auglit mitt, ásamt með hinum tveim flokksforingjum, sem með honum eru; skulu þeir hafa með sjer lurka, þá er hafðir eru til kaghýðingar. Hvað hugsið þjer, mælti kerlingin; haldið þjer, að eg sje vitlaus? Haldið þjer, að lögreglustjórinn muni hirða um fingurgull, sem annar eins höfuðfantur á, og þjer eruð? Mun hinn illi *Skamama* eigi falla eins fljótt á knjen, og dómarinn í gær; heldur mun hann drepa mig; mun eg alls ekki ljúka upp hurðinni; þjer getið það sjálfir. Þá mælti *Albondokani:* gjörið þetta fyrir mig, móðir góð, og færist eigi undan; því að lögreglustjórinn þekkir mig, og verið viss um, að hann mun láta að orðum mínum; farið þjer nú. Eg get reynt það, mælti kerlingin; en það eitt segi eg, að ef að þjer getið látið sjálfan lögreglustjórann hlýða skipunum yðrum, þá eruð þjer hinn mesti og voldugasti höfuðfantur á jarðríki, og þá mun eg ganga í flokk með yður, og taka til að stela

og ræna. Síðan gekk hún út, og hrópaði: herra *Skamama*, herra *Skamama!* Hvað vilt þú, kerlingarskömmin þín? hrópaði *Skamama.* Hvað viljið þjer þá sjálfir, herra *Skamama,* hrópaði kerlingin. Eg vil fá fantinn, hrópaði hann aptur, fantinn vil eg fá, nornið þitt, tengdason þinn vil eg fá; og ef eg nú ekki fæ hann þegar, þá brytja eg þig í sundur. Herra *Skamama,* hrópaði kerlingin, tengdasonur minn hefur fengið mjer fingurgull, er lögreglustjórinn á að skoða; eg átti líka að segja, að eigandi fingurgullsins væri hjer inni. Sýn þú mjer hringinn, mælti lögreglustjórinn við *Skamama.* Kerlingin opnaði nú dyrnar næsta varkárlega, og fleygði út fingurgullinu; síðan lokaði hún aptur dyrunum. En *Skamama* tók upp hringinn, og rjetti lögreglustjóranum. Og er lögreglustjórinn sá hann, setti hann þegar dreyrrauðan; hann hrópaði þá: guð komi til, nú er úti um oss! Hvaða vitleysa, hrópaði *Skamama,* látið mig sjá fingurgullið; en lögreglustjórinn rjetti honum það, og skoðaði *Skamama* það síðan við ljós. Hvur fjandinn, hrópaði hann í dauðans ofboði; kalífinn er þar inni; það er fallegt! Varð hann nú óttasleginn mjög, og mælti blíðum orðum við kerlinguna: kona góð, mælti hann, hvað viljið þjer skipa oss? Á svei, hrópaði hún, kom annað hljóð í strokkinn! eigandi hringsins bauð, að lögreglustjórinn skyldi koma, ásamt báðum fyrirliðum sínum, og hafa með sjer lurka, þá er menn hafa við kaghýðingu. Skiljið þjer mig? Já, mælti lögreglustjórinn, vjer munum strax hlýða, kona góð. Ljet kerlingin nú dyrnar standa opnar, og gekk aptur inn í stofu. Guði sje lof, mælti hún, fingurgullið hefur hjálpað oss, þjer eruð

hinn undarlegasti höfuðfantur allra þeirra, sem eg hefi heyrt getið, herra tengdasonur; hvernig ætli hefði farið, ef að þjer ekki hefðuð komið? Mjer óar við, þegar eg hugsa um það. Kalífinn brosti, og svaraði eigi, því að inn gengu lögreglustjórinn, *Skamama* og *Hassan*, ásamt nokkrum hermönnum. Þá mælti kalífinn: þegið þjer, og mælið ekki; far þú, *Hassan*, og sæktú *Júnis* hingað. Skundaði *Hassan* þegar á burtu, og gjörði svo sem boðið var. Bauð kalífinn þegar, að *Júnis* skyldi láta kaghýða lögreglustjórann og *Skamama*, og setja þá í díblissu síðan. Kvaðst kalífinn skyldi kenna þeim, að láta af að hræða varnarlaust kvennfólk. Skuluð þið nú missa embætti ykkar, sagði hann, en þú, *Hassan*, skalt hjeðan af vera lögreglustjóri, þar eð þú hefur sýnt góðsemi mikla og stillingu. *Hassan* þakkaði kalífanum mikillega, og hneigði sig að jörðu; síðan fóru allir á burtu, og að stuttum tíma liðnum sást enginn maður á strætinu, og allt varð hljótt og kyrrt, svo sem ekkert hefði við borið. Hversu þykir yður nú að fara, kona góð, mælti kalífinn brosandi; kann eg að hegna, eður eigi? eruð þjer nú ánægð? Já, mælti kerlingin, eg er ánægð, og það má eg sjá, að þú ert mikill og öflugur maður; nú hef eg einkis að óska mjer, nema *Harún Raskið* kalífi fengi hegningu fyrir allt hið illa, er hann hefur veitt oss. Ef sá hinn grimmi og illi maður eigi hefði ráðið, þá mundir þú aldrei hafa stigið fæti þínum inn í hús þetta, hversu mikill, sem þú ert, og þó að þú værir hinn mesti og hættulegasti ræningi í heimi. Þá datt ofan yfir *Harún* hinn rjettláta, er hann heyrði sjálfan sig allt í einu ákærðan; hann mælti við kerling-

una: hvað hefur kalífinn þá gjört yður, kona góð? Kerlingin mælti: sonur sæll, kalífinn hefur látið ræna hús mitt, og taka eigur mínar; hann hefur látið setja son minn í díblissu, og ætlar að láta drepa hann á morgun; hann hefur komið mjer nær hungurdauða, og að lyktum er það honum að kenna, að eg hefi hlotið að gefa dóttur mína öðrum eins svikara og fanti, og þjer eruð. Og allt þetta er einungis fyrir það, að sonur minn rjetti drottningu kalífans svaladrykk, er hún var þyrst. Er eigi slíkt skammarlegt og ósvífið? Hvað heitir sonur yðar, mælti kalífinn hissa. *Aladín* heitir hann, mælti kerlingin, og er hirðmaður kalífans. Já, eg hefi heyrt þess getið, mælti *Albondokani*, hann er dæmdur til dauða fyrir það, að hann horfði framan í drottninguna, á meðan hún var að drekka. Nei, mælti kerlingin, það er ósatt, það dettur engum í hug að segja, nema öðrum eins föntum, og þið kalífinn eruð báðir. Hann sá drottninguna aldrei í framan, það get eg sannað með eiði, því að drottningin snjeri bakinu að syni mínum, á meðan hún var að drekka, og er hún snjerist við til þess að fá honum bikarinn, þá var hun alhulin blæju sinni; sá eg sjálf, hversu allt fór fram. Stendur þannig á, mælti *Albondokani*, vertu þá hughraust, móðir góð; eg skal neyða kalífann til þess að láta son þinn lausan, og bæta honum allan skaða. Bíddu einungis við. Hvað hugsar þú, fífldjarfi gapi, hrópaði kerlingin; gættú að því, að kalífinn er enginn auðvirðilegur dómari eður lögreglustjóri, heldur er hann drottnari hinna rjett-trúuðu þjóða. Hann lætur eigi ræningja nje illvirkja skelfa sig, heldur lætur hann festa þá upp á gálga. *Albondokani* hló,

en svaraði eigi; fór hann þá á burtu og heim til hallarinnar. Daginn eptir kallaði hann saman allt ríkisráð sitt, alla ráðgjafa, lífvarðarforingja og yfirvöld, og sjálfur hinn mikli kalífi sat á hásæti í skínandi dýrð. Hann hóf upp röddu sína, og mælti: sækið *Aladín* úr díblissunni. Var svo gjört. Gekk *Aladín* einarðlega að kalífanum; þá mælti kalífinn: *Aladín, Harún* kalífi, herra þinn, er menn kalla hinn rjettláta, hefur gjört þjer rangt til, því að þú ert sýkn sakar. Fyrir krapt veldis míns skaltú því aptur taka við öllum þeim heiðri, er þú hafðir, áður en þú hlautst reiði mína, og skaltú fara til gjaldkera ríkisins, og heimta svo mikið fje, sem þú villt, fyrir þann skaða, er þú hefur hlotið af sakaráburði þessum. En það vil eg, að þú takir við heiðursskikkju þessari, og þessu sverði, fyrir allar þær raunir, er þú hefur þolað, skaltu og hjeðan af sitja í ríkissráðinu mjer til hægri handar. Ljet hann nú leggja skínandi purpuraskikkju á herðar honum, og girða hann björtu sverði; síðan stje drottnari hinna rjett-trúuðu þjóða sjálfur ofan af veldisstóli sínum, og faðmaði hann, að áhorfanda öllu ríkisráðinu. En *Aladín* varð frá sjer numinn af mildi kalífans; fjell hann til fóta honum, kyssti fald klæða hans, og hrópaði með gleðiröddu: herra, lofað veri nafn þitt að eilífu, því að, í sannleika, þú ert vitur og rjettlátur. Og er hann reis upp, þá hlaut hann að setjast til hægri handar stjórnaranum, þar til er hann sagði þinginu slitið. Síðan skundaði hann til móður sinnar, til þess að segja henni frá lukku þeirri, er honum hafði auðnast að ná; hjelt hann nú, sem von var, að hún mundi enn búa við sömu kjör, og þá er hann vissi

síðast til. En hann varð frá sjer numinn, er hann kom inn í hið dýrðlega hús, sem nú ljómaði og skein fagurlega á móti honum. Urðu nú fagnafundir miklir með *Aladín* og móður hans, og föðmuðust þau innilega; var móðir hans fegnari, en frá megi segja, er hún fann son sinn, heilan og röskvan, kominn úr díblissunni. Systur hans þótti og harla vænt um, að fá að sjá hann aptur. Hlaut *Aladín* nú að segja frá öllu því, er fram við hann hafði komið, og að því búnu spurði hann móður sína, hver hefði gefið henni slíkan auð. Vissi eg eigi annað, mælti hann, en eg mundi hitta þig í sömu fátækt, og fyr; en nú finn eg þig í dýrð og auði. Seg mjer frá þessum hlutum; eru það gjörningar, eða draumur? Það er hvorugt, *Aladín* sæll, sagði móðir hans, allt er það eins og þú sjerð, og tengdasonur minn hefur gjört það. Hvað þá, mælti *Aladín*, tengdasonur þinn, hver er orðinn það svo skjótlega, og án vilja míns og vitundar? Þú ert að gjöra að gamni þínu, móðir góð? Hvað lengi hefur systir mín setið í festum, og hverjum er hún heitin? Þá mælti kerlin, og var hálfsmeik: eg held, að það sje ræningjaforingi. Ræníngjaforingi, hrópaði *Aladín* reiður; móðir, hví leyfðir þú slíkt? Eg banna það, og læt ekkert verða af slíku hjónabandi; hver er sá fantur, er hingað hefur komið? þann mun eg drepa. Hafðu hægt um þig, sonur sæll, mælti kerlingin, og hlustaðu á mig. Sagði hún honum nú nákvæmlega frá öllu, hvernig farið hefði, hve stórlega voldugur ræningjahöfðingi þessi væri, þar sem allir hefðu hlýtt boðum hans; og hvernig hann hefði neytt kalífann sjálfan til þess, að sleppa *Aladín*. Hlustaði *Aladín*

á þessa hluti með undrun, og skildi eigi í þeim. Hvert er nafn þessa hins mikla ræningja og svikara, mælti hann. *Albondokani*, svaraði rödd fyrir utan dyrnar, og inn gekk *Harún Raskið*, kalífi, og drottnari rjett-trúaðra þjóða. En *Aladín* þekkti hann þegar, þó að hann væri í stigamannaklæðum; fleygði hann sjer til fóta honum, kyssti fald klæða hans, og mælti: herra, mikil er mildi yðar og náð við oss. Kalífinn brosti, reisti hann upp, og spurði kerlinguna að, hvort hún nú nú væri ánægð með fantinn og ræningjaforingjann? En kerlingin stóð náföl, eg skalf og titraði, eins og hrísla; hún hrópaði: verið mjer náðugur, herra, eg þekkti yður ekki, fyrirgefið mjer! Verið óhrædd, mælti kalífinn, nú er allt komið í samt lag aptur, og er eg yður eigi reiður; en hvar er konan mín? Leiddi kerlingin hann þegar til hennar, og þótti dóttur hennar ekki mikið fyrir því, að ræningjahöfðinginn var breyttur í kalífa; og hljóp hún þegar um háls honum. Síðan fóru þau öll til hallarinnar, og var veizla mikil haldin; en þaðan af lifðu þau í mikilli dýrð og vegsemd. Gjörðist *Aladín* æðstur ráðgjafi kalífans, og var haldinn í miklum hávegum, því að hann var trúr maður og stjórnsamur, og unni *Harún* kalífa, drottni sínum, hugástum; og lýkur svo þessari sögu af *Harún Raskið*, er hjer nefndist *Albondokani*.

---

# Sesam! Sesam!

Það eru nú mörg ár síðan, að í borg nokkurri á *Persalandi* bjuggu bræður tveir; hjet annar *Kasím*, en hinn *Alí*. Var *Kasím* maður auðugur, því að hann hafði eignast ríka konu, eptir að faðir hans var dáinn, og átti sölubúð, er hann græddi á ógrynni fjár. Hann var og iðjumaður mikill; og svo var hann naumur, að hann tímdi eigi að gefa hundi að eta, ekki eingang mygglaða brauðskorpu; og hverjum peningi, er hann átti öðrum að gjalda, velti hann margopt í lófa sjer, áður en hann ljet hann í burtu. Var því eigi að furða, þó að hann auðgaðist dag frá degi, og safnaði hann fje í kistur og skrínur, er hann varðveitti mjög vandlega. En *Alí* bróðir hans var fátækur aumingi, er hafði eignast fátæka konu; varð hann því að hafa ofan af fyrir sjer með erviði miklu, og fjekk þó lítið fyrir. Hann átti ekkert, nema þrjá eyki, er hann fór með á degi hverjum út á skóg einn mikinn. Þar hjó hann trje til eldsneytis, klyfjaði með því eykina, og flutti til borgarinnar; seldi hann það þar. En svo lítið fjekk hann fyrir ómak sitt, að hann hafði varla nóg til matar. Samt sem áður var hann ánægður með kjör sín, og mögglaði eigi móti ráðstöfun drettins.

Einhverju sinni bar svo við, að hann hafði höggv-

ið viðarklif á eyki sína, og er hann ætlaði að fara að láta upp baggana, þá tók hann eptir jóreyk miklum, er nálgaðist meir og meir. Furðaði hann sig á þessum hlut, og varð loksins var við riddaraflokk, er hleypti á ólmum og fjörugum hestum beint á móti honum. Hann rak eyki sína í óðaflýti inn í skóginn, og klifraði sjálfur upp í háfa og laufmikla eik, er óx fast upp með hamri einum snarbröttum; átti hann hægt með, að sjá þaðan til riddaranna. Riðu þeir hart áfram, og voru allir vel vaxnir menn, vel búnir að vopnum og klæðum; en svo voru ásjónur þeirra grimmlegar og harðúðlegar að sjá, að *Alí* gat sjer strax til, að þetta mundi ræningjasveit vera. Og rjett var það, að það voru ræningjar; áttu þeir sjer geymsluhús í hamrinum, þar er þeir fólu ránsfje sitt; síðan voru þeir vanir að fara á burtu langar leiðir, svo að þeir ekki yrðu gripnir. Þeir námu nú staðar undir eikinni, tóku beizlin af hestunum, og gáfu þeim bygg og hafra; síðan leystu þeir ofan poka þá, er þeir reiddu fyrir aptan sig, og virtust þeir vera troðfullir; báru þeir nú pokana að hamrinum. Var einn foringi fyrir ræningjunum, og sagði þeim fyrir stutt og skjótlega. Sá gekk að hamrinum, og kallaði hátt: *Sesam, Sesam,* opnist þú! Þá lukust upp dyr, er *Alí* hafði aldrei fyr sjeð. Gengu nú ræningjarnir allir inn um dyrnar, hvor á eptir öðrum, og foringinn seinastur. En dyrnar lukust aptur, og sá eigi vegs-ummerki. Ef að hestarnir ekki hefðu staðið undir eikinni, þá mundi *Alí* hafa haldið, að hann væri að dreyma. Hann taldi hestana, áður en ræningjarnir komu út, og voru þeir fjörutigi, og allir jafn fríðir að sjá. Fannst honum svo mikið til hest-

anna, að honum kom til hugar, að fara ofan úr eikinni, og stíga einum þeirra á bak, og hafa annan í taumi, og ríða síðan til borgarinnar, til þess að selja þar hestana. En er hann hugsaði sig betur um, þá fann hann, að þetta var hið mesta óráð, og sat hann því grafkyrr. Komu ræningjarnir nú út úr hellinum, og foringinn á undan. Ljet hann alla ganga fram hjá sjer, og er þeir voru út komnir, þá hrópaði hann: *Sesam, Sesam,* læsist þú! En dyrnar skelldust aptur, og sáust eigi. Bundu ræningjarnir þá poka sína aptur á hestana, beizluðu þá, stigu á bak, og hleyptu á burtu í loptinu; og foringinn fremstur.

Varð *Alí* nú feginn mjög, er þeir voru farnir, og fór hann nú djarflega ofan úr eikinni; hann gekk að hamrinum, og bjóst nú til að freista gæfu sinnar. Kallaði hann nú af öllum mætti: *Sesam, Sesam,* opnist þú! og sjá, dyrnur lukust upp, eins og fyr. Hann bjóst við, að þar væri dimmt og þröngt inni, en það brást honum; því þá er hann gekk inn, sá hann, að kletturinn var allur höggvinn innan, og gjörður að hvelfingu einni; og var þar eins rúmgott inni, og á víðum skeiðvelli. Fjell birta niður ofan að, inn um glugga einn, er á þakinu var; og mátti hann glögglega sjá allan þann auð, er þar lá í dyngjum innan um hellirinn. Þar láu dýrindis dúkar af silki og drómundi, stórir pokar með varningi í og gullsaumuðum ábreiðum; margvíslega löguð ker af dýrasta málmi, og ógrynni af gulli og silfri; lá sumt í hrúgum á gólfinu, en sumt var í skinnpokum, er hlaðið var upp með veggjunum. Var það auðsjeð, að hellir þessi hafði um langan aldur verið hafður til þess, að geyma í ránsfje. En *Alí* hugsaði sig

eigi lengi um, heldur tók hann strax tvo poka með gullpeningum, og ætlaði út með þá, til þess að láta þá á asnana. En þá varð hann þess var, að hellisdyrnar voru læstar; varð hann fyrst eigi lítið óttasleginn, en áttaði sig bráðlega, og hrópaði: *Sesam, Sesam,* opnist þú! En dyrnar lukust þegar upp. Bar hann nú pokana út, og rak eykina saman, og inn í hellirinn. Lokuðust þá dyrnar, eins og vant var, en þá óttaðist hann ekki, því nú þekkti hann töfraorðin, er luku hellinum upp; klyfjaði hann nú eykina með svo miklu fje, sem þeir máttu bera. Síðan skundaði hann á burtu, og huldi allar byrðarnar með kvistum og limi, svo að engan grunaði neitt. Ljet hann nú, sem ekkert væri, og rak eykina, og í gegnum borgina heim til sín; lokaði bæjarhliðinu hjá sjer, og tók ofan; síðan bar hann klyfjarnar inn í stofu til konu sinnar. Það eru tómir gullpeningar, mælti hann. Varð konan nú frá sjer numin, er hún sá svo mikið gull, og grunaði hún seinast *Alí,* fyrir það, að hann mundi hafa stolið fjenu. Hún mælti: maður, vertú eigi svo vitlaus, að taka fje annara manna, eins og ræningi. Guð varðveiti þig, kona, sagði *Alí* hlæjandi, vertu óhrædd. Leysti hann nú frá pokunum, og helti úr þeim á borðið. Var það stórmikið fje, og ljómaði fagurlega. Loksins hlaut *Alí* að segja upp alla sögu, og hjet kona hans honum að þegja eins og steinn. Varð hún nú rólegri, því að hún áleit það eigi vera synd, þó að ránsfje væri tekið frá þjófum og ræningjum. Þá mælti hún: heyr þú, nú skulum við telja fjeð, til þess að við sjáum, hversu mikið við eigum til. Hvaða heimska er þetta, mælti *Alí,* þá

munum við þurfa að telja stundarkorn. Far þú, og sæktú hingað tvo stóra poka; mun eg láta fjeð í þá, og grafa síðan í jörðu, svo að enginn finni þá. Þá mælti konan: maður minn góður, betra væri, ef að þú fylgdir mínum ráðum; það er reyndar nokkura stund verið að telja fjeð, en láttú mig hafa fyrir því. Eg fer til *Kasíms*, bróður þíns, og lána mæli, til þess að mæla fjeð í; þá vitum við hjer um bil, hve mikið við eigum til. En *Alí* vildi það eigi; tjáði þó ekki móti að mæla, því að konan kærði sig eigi, heldur hljóp hún þegar til konu *Kasíms*, og beiddi hana um fjórðungs-mæli. Viltú fá stórt ker, eður lítið, spurði konan. Stórt vil eg fá, mælti kona *Alís*, ef að þú á annað borð vilt lána mjer það. Það vil eg gjarna, mælti hin konan, og fór að sækja kerið. En af þessum hlut varð hún forvitin, og hugsaði með sjer, hvað aumingja fátæklingurinn hann *Alí* mundi ætla að mæla. Þess vegna makaði hún límí á botninn á kerinu, og sýndist það vera hreint eigi að síður; síðan fjekk hún konunni kerið, en hún hljóp skjótlega heim með það. Nú mældu þau peningana, og áttu fjörutigi fjórðungsker full. Þá varð hún glöð, og skundaði til konu *Kasíms* með kerið, og þakkaði mikillega fyrir lánið; en á meðan ljet maður hennar fjeð í pokana, og gróf allt í jörðu niður. En áður en kona *Alís* var farin, þá leit mágkona hennar á botninn á kerinu, og sjá, þar var gullpeningur, er hafði orðið fastur í líminu. Varð hún þá með öllu hamslaus af undrun, og hugsaði með sjer, hvernig á því gæti staðið, að *Alí*, sem svo var fátækur, að hann varla átti málungi matar, ætti nú svo mikið af gullpeningum, að hann yrði að mæla þá í

fjóðungskerum, og gæti eigi lengur talið þá á sama hátt, og aðrir menn eru vanir að telja fje sitt. Beið hún nú með mikilli óþolinmæði þess tíma, er *Kasím* bóndi hennar var vanur sð koma heim úr sölubúð sinni. Undir eins og hann kom, kallaði hún á hann inn í stofu, og sagði honum, hvers hún hefði var orðið, og sýndi honum gullpeninginn um leið. En *Kasím* gladdist ekki yfir auði bróður síns, eða yfir því, að hann var kominn úr örbyrgð og bágindum; heldur fylltist hann öfund og hugarvýli, og unni honum eigi gæfu hans. Og að morgni, þegar er dagur ljómaði, þá skundaði hann til *Alís,* brauzt inn um dyrnar, og spurði: maður, hvaðan hefur þú fengið svo mikið fje, að þú hlýtur að mæla það í fjórðungskerum? Varð *Alí* dauðans hræddur, er hann heyrði þessi orð bróður síns, og ætlaði í fyrstu að fara undan í flæmingi; en það tókst eigi, og hlaut hann að segja *Kasím* upp alla sögu. Varð *Kasím* forviða, er hann heyrði sagt frá hellinum, og hrópaði þegar: ef að þú eigi undir eins lætur mig fá helming auðæfa þessara, þá ákæri eg þig fyrir rjetti, og segi frá öllu; því að þá fæ eg þó nokkuð, en þú ekkert. Láttú þjer hægt, og vertú eigi svo óður, mælti *Alí* rólega, og haltú eigi, að þú hræðir mig með hótunum, því að þess gjörist eigi þörf. Eru svo mikil auðæfi í hellinum, að við báðir höfum meira en nóg, og vil eg gjarnan unna þjer helmingsins. Var *Kasím* nú ánægður, hann, sem aldrei hafði viljað sjá af einum peningi handa bróður sínum; gekk hann þá heim, og þakkaði bróður sínum eigi fyrir góðvilja hans; heldur ásetti hann sjer, að taka öll auðæfi úr hellinum, áður *Alí* kæmi þangað

í næsta sinn. Morguninn eptir lagði hann á stað með tíu eyki, og hafði með sjer kistur og poka; engum sagði hann frá ætlan sinni, hvorki bróður sínum eður konu hans; heldur skundaði hann rakleiðis að hamrinum; hafði hann látið lýsa honum svo nákvæmlega fyrir sjer, að hann hitti hann þegar. Batt hann nú eykina saman, gekk að hamrinum, og hrópaði með hárri röddu: *Sesam, Sesam*, opnist þú! En dyrnar lukust upp, og æddi hann þegar inn í hellirinn, blindaður af ágirnd og ásælni; tók hann ekkert eptir því, að dyrnar lokuðust aptur fyrir aptan hann. Hann sá ekkert, nema auð, og hugsaði um ekkert, nema auð, og stóð hann lengi agndofa. Loksins fór hann að velja úr, og tók allt það er honum leizt bezt á. Og er hann þóttist búinn, þá ætlaði hann út úr hellinum, til þess að klyfja eykina með fjenu. En dyrnar voru lokaðar, og var hann nú þarna inni, eins og refur í gildru. Gat hann nú með engu móti munað nafnið á hamrinum, og grenjaði í ofsahræðslu sinni öll þau nöfn, og allar þær vitleysur, er honum duttu í hug, en aldrei hitti hann uppá því, að kalla hamarinn *Sesam*. Gengu nú hróp þessi og köll um langa stund, til einkis gagns; því meira, sem hann þreyttist og sveittist yfir nafninu, því meira óx ángist hans og örvænting. Hann grýtti fjenu og gullpeningunum víðs vegar innan um hellirinn, og ólmaðist allt í kríng, eins og væri hann með öllu vitstola; hann hljóp hvað eptir annað á dyrnar, en hamarinn stóð þjettlega fyrir slíkum árásum. Dauðans sveiti bogaði niður af andliti hans, og hendur hans voru blóði drifnar. Hann orgaði: ljúkstu upp, hurð, ljúkstu upp, hurð! en hurðin laukst eigi upp að

heldur. Fjell hann þá í ómegin, og lá þannig langa stund.

Nú bar svo við, að þenna hinn sama dag, um hádegis bil, komu ræningjarnir úr ránsferð, og sáu nú álengdar eyki *Kasíms*, er voru á beit í hrísrunnunum í kringum hamarinn. Leizt ræningjunum nú eigi á blikuna, og þutu nú þangað allt það sem hestarnir gátu farið; stökk foringinn þegar af baki, gekk að hamrinum, og hrópaði: *Sesam, Sesam*, opnist þú! En dyrnar opnuðust þegar; var *Kasím* þá raknaður við, og undir eins, er ræningjaforinginn kom inn, þá hljóp *Kasím* á hann, og rak hann niður; síðan tók hann á rás, og ætlaði að flýja; en það tókst eigi, því hann lá þegar á jörðu, klofinn í herðar niður; drógu ræningjarnir líkið síðan inn í hellirinn, og fleygðu því fyrir fætur foringjanum. Gizkuðu ræningjarnir nú margvíslega á, á hvern hátt maður þessi mundi hafa komist inn í hellirinn, er svo vel var falinn allra sjónum. Sáu þeir, að það var eigi efamál, að hann mundi hafa ætlað að taka fje á burtu úr hellinum, því öllu var rótað til og frá, og peningapokar margir lágu við dyrnar frammi. Gizkaði foringinn sjer raunar til, að hann mundi, ef til vill, hafa farið ofan um gatið, er var í gegnum fjalltindinn; en það var eigi líklegt, þar eð veggirnir voru eggsljettir að innan, og upp á fjalltindinn komst enginn, nema fuglinn fljúgandi. Urðu ræningjarnir að hætta getgátum sínum við svo búið; en engum datt í hug, að nokkur væri, er vissi af leyndardómi þeirra. En til þess, að hefna sín, og til þess, að koma mönnum af því, að taka hluti, eður hnýsast í það, er þá eigi varðaði, þá hjuggu þeir lík

*Kasims* í fjóra hluti, og hengdu upp síðan, rjett fyrir innan hellisdyrnar. Ásettu þeir sjer nú, að forðast að koma að hamrinum um hríð, og koma aptur að hálfu ári liðnu. Stigu þeir nú á bak, og hleyptu burtu frá *Sesam*, eins og vindur færi.

Meðan þetta bar til tíðinda, beið kona *Kasims* angurvær og hrædd eptir manni sínum; tók nú að kvölda, og hann kom eigi. Varð hún loksins óttaslegin mjög, skundaði til *Alis*, og mælti grátandi: mágur minn góður, snemma á morgun fór maðurinn minn til hellisins, en er ekki kominn aptur enn; er eg mjög hrædd um, að hann hafi ratað í nokkura ógæfu. Hvað á eg nú að gjöra? Hjálpa þú mjer, og frelsa þú *Kasím*; eg er full ótta og kvíða, og með öllu ráðalaus. *Alí* huggaði hana eptir megni, og sagði, að maður hennar mundi hafa ætlað að bíða myrkursins, og að hann mundi koma heim í dimmunni; beiddi hann hana að vera vongóða, og fara heim. Ljet konan sjer þetta lynda, og gekk hún heim. En lágnættið kom, og *Kasím* kom ekki. Þá hljóp konan aptur til *Alis*, og grátbændi hann, þar til er hann tók eyki sína, og hjelt á stað til hellisins. Sá hann nú ekkert til *Kasíms*, og engan af eykjum hans; en er hann kom að hamrinum, þá sá hann blóðferil, og tók hann nú að gruna ýmislegt. Hann batt eykina við eik eina, gekk að hamrinum, og hrópaði: *Sesam, Sesam*, opnist þú! En dyrnar spruttu upp þegar, og datt nú fremur ofan yfir *Alí*, er hann sá, hvar bróðir hans hjekk við dyrnar í fjórum hlutum. Agirndin varð þá bani þinn, mælti hann sorgbitinn, og meðaumkvunartár hrundi eptir kinnum hans. En hann stóð eigi lengi aðgjörðalaus, held-

ur tók hann niður líkið, og ljet hlutina í karfir, á einn eykjanna. Því næst klyfjaði hann hina eykina með gulli og gersemum; og að því búnu hrópaði hann: *Sesam, Sesam,* lokist þú; en dyrnar lukust aptur þegar. Síðan duldist hann í runnunum, þar til er myrkrið var dottið á; þá snjeri hann heim aptur til borgarinnar, rak þá eyki, er klyfjaðir voru með gulli, heim til sín, en lík *Kasíms* flutti hann að húsi hans.

Ambátt nokkur var hjá *Kasím,* sú hjet *Morgana;* var hún slóttug og kæn, og treysti *Alí* henni harla vel til hvers er hann vildi. Hún lauk upp fyrir honum, og hann mælti við hana: Líttu á, hjer er nú lík hússbónda þíns; og svo er mál með vexti, að hann hlýtur að jarðsetjast í helgum reiti, án þess að nokkur viti annað, en að hann hafi andast á sóttarsæng. Vil eg nú biðja þig þess fyrst og fremst, að þú þegir, eins og steinn, yfir öllu; það veit eg, *Morgana,* að þú ert góð stúlka, þess vegna reiði eg mig og á þig; skaltu nú fara með mjer til hússmóður þinnar. Varð *Morgana* nú raunar óttaslegin mjög, en sá samt þegar, hvað gjöra skyldi; fyrst teymdi hún eykinn inn í húsagarðinn, og lokaði hliðinu, til þess, að enginn skyldi komast inn. Því næst fylgdi hún *Alí* til mágkonu hans, og sagði hann henni þá nákvæmlega frá öllum málavöxtum. Grjet kona *Kasíms* þá hástöfum, og átti *Morgana* nóg með að hugga hana. Síðan stakk þessi hin slæga stúlka upp á því, hvernig hún vildi láta leyna víginu; og sýndi hún í því svo mikla kænsku og varkárni, að ræningjarnir, er *Alí* óttaðist, að mundu leitast við að hefna sín, aldrei mundu hafa getað

komist á snoðir um þann hlut; og nágrannar *Kasíms* mundu einnig vera með öllu grunlausir um vígið. Fjellust *Alí* og mágkona hans þegar á það, er *Morgana* stakk upp á. Hið fyrsta, er *Morgana* gjörði, var það, að hún fór til lyfjasala nokkurs, og kom þangað grátandi og kveinandi; beiddi hún um meðöl þau, er engum manni var vant að gefa, nema hann lægi fyrir dauðanum. Og er lyfjasalinn spurði hana að, hvernig á þessu stæði, þá svaraði hún kjökrandi: að hússbóndi hennar væri orðinn dauðveikur, og menn hjeldu, að hann mundi deyja sömu nóttina. Síðan hljóp hún heim, og veinaði hástöfum. Morguninn eptir fór hún eins að; hljóp mörgum sinnum yfir í lyfjabúðina, heimtaði allt af sterkari læknismeðöl, og var allt af aumari og aumari; og kvartaði yfir því, að hússbóndi sinn hlyti að deyja. Fór hún þannig á bak við lyfjasalann, og undraðist hann eigi, er hún kom morguninn eptir, og sagði lát *Kasíms,* hins ríka kaupmanns, er þá hefði safnast til feðra sinna. Nágranna *Kasíms* furðaði heldur ekki á þessu, því að þeir höfðu tekið eptir því, hversu opt *Morgana* hafði gengið út og inn, og allt af aumari og aumari. Hjeldu allir, að *Kasím* hefði andast eins og rjetttrúaður maður. En morguninn eptir, að sagt var, að *Kasím* væri andaður, þá endaði *Morgana* verk sitt. Því að hún fór til skósmiðs nokkurs, er bjó á torginu, nokkuð langt frá húsi *Kasíms.* Skósmiður þessi hjet *Mústafa,* og var ráðvandur og þögull karl, gamall maður og æringi hinn mesti; vildi hún heldur trúa honum, en mörgum öðrum, fyrir því, er þurfti til jarðsetningarinnar, ef að annars allt átti að vera leynt. Hún heilsaði honum, og var kátbrosleg í fram-

an, og laumaði gullpeningi í lófa honum. Guð hjálpi oss öllum, mælti *Mústafa,* mjer er þá heilsað með gullpeningum. Hvað á eg að gjöra fyrir þig, stúlka mín? seg mjer hreinlega frá því, eg er fús til þess. Þá mælti *Morgana;* komið þjer með mjer, og takið ekkert annað með yður, en saumatól yðar; eg ætla ekki að beiðast neinnar heimsku af yður, og yður skal ekkert illt gjört verða. En þjer hljótið að láta binda fyrir augun á yður, og láta mig leiða yður. Þjer hljótið og að lofa mjer því, að segja engum frá því, er þjer munuð seinna fá að sjá, eður frá því, er þjer gjörið. *Mústafa* varð kynlega við þessi orð; en er *Morgana* stakk öðrum gullpeningi til í lófa honum, þá mælti hann: stúlka mín, eg vona, að þú eigi biðjir mig neins þess, er skerðir heiður minn eður samvizku. Það er öldungis frá, sagði *Morgana.* Þá er vel, mælti skósmiðurinn; þá mun eg fara með þjer, og láta binda fyrir augu mjer. Var nú *Morgana* ekki lengi á sjer; tók hún dúk, og batt um höfuð *Mústafa.* Síðan fóru þau á stað, og mættu engum manni á leiðinni. En *Mústafa* var ekki síður slægur, en *Morgana,* og fann hann upp á bragði, til þess að hann gæti fundið aptur það hús, er hann var að leiddur á svo undarlegan hátt. Tók hann því fyrst og fremst eptir því, hvaða stefnu *Morgana* tók, þá er hún kom af torginu. Síðan taldi hann sjerhvert skref, bæði til hægri handar og vinstri; hann hafði ágætt minni, og mundi alla snúninga og skrefatölu. Og er hann var kominn að húsi *Kasíms,* þá mundi hann hafa getað unnið eið að því, að hann skyldi geta fundið húsið aptur eptir tíu ár. En hann ljezt ekki taka eptir neinu, heldur gjörði hann

*Morgönu* rólega og grunlausa. Leiddi hún hann nú að herbergi því, er lík *Kasíms* lá í, og var klæði lagt yfir höfuðið, til þess að *Mústafa* eigi skyldi þekkja hann. Þar leysti hún dúkinn af *Mústafa*, og mælti: nú skuluð þjer flýta yður, og sauma saman þessa fjóra hluti, svo að lík þetta verði heilt. Saumið þjer sterklega og vel, og skuluð þjer fá starfa yðvarn vel borgaðan. Tók *Mústafa* nú til starfa, en þótt hann væri hissa, og óvanur iðn þessari; saumaði hann nú, og nældi út og inn, og var búinn á stuttum tíma. Þá batt *Morgana* dúkinn aptur fyrir augu honum, og fylgdi honum heim; þar leysti hún dúkinn frá, og gat skósmiðnum tíu gullpeninga að skilnaði; og beiddi hann, áður en hún fór, að þegja eins og steinn. Hjet *Mústafa* henni því, og fór *Morgana* við það heim. Síðan lagði hún líkið til, og huldi það með fötum og dúkum, svo vandlega, að engan grunaði, hversu á stóð. Var *Kasím* síðan grafinn, eins og aðrir dauðir menn, og grunaði engan neitt um æfilok þess manns, er jarðaður var með sundurhöggnum líkama og samansaumuðum limum; hörmuðu ættingjar hans hann sárt. Skömmu seinna dó kona *Kasíms*, fyrir sakir harms og saknaðar; erfði *Alí* þá sölubúð *Kasíms*, og allan auð hans. Flutti hann síðan, ásamt konu sinni, inn í húsið bróður síns, og bjó þar ánægður og farsæll; óttaðist hann eigi hefnd ræningjanna. Því að honum datt eigi í hug, að þeir á nokkurn hátt mundu geta komist á snoðir um brögð hans. Hann ljet *Morgönu* vera kyrra hjá sjer, og virti hana mikils, því að hún var trú og góð stúlka.

Nú var sá tími liðinn, er ræningjarnir höfðu ætl-

að sjer að forðast hellirinn; komu þeir því einhvern dag að hellinum, og voru hertýgjaðir og vopnaðir vel. Opnaðist hamarinn þegar, er foringinn kallaði: *Sesam, Sesam*, opnist þú! En að vísu skaut þeim eigi alllítinn skelk í bringu, er þeir sáu, að líkið var á burtu, og þar með mikill hluti af fjársjóðum þeim, er þeir áttu þar geymda. Þá mælti foringinn: sveinar, þjer megið sjá, að einhverjir fleiri hljóta að vita af helli vorum; má fjandinn sjálfur vita það, hversu á þessu stendur; eg skil ekkert í því. En vjer hljótum að reyna af öllum mætti, að fá að vita, hver fantur þessi er, sá er eigi ann ræningjatetrum starfa síns. Það er líklegt, að hann búi hjer í borginni, og skulum vjer nú hlutast um, hver fyrstur skuli verða til að fara, og reyna, að komast á snoðir um óvin vorn, til þess að vjer getum hefnt vor á honum. Viljið þjer þetta, sveinar? Já, hrópuðu allir, og gekk einn þegar fram, og bauðst til að fara á leit eptir manninum? Það er vel, mælti foringinn, eg vil það gjarna, því að þú ert djarfur drengur og óheimskur. En það skaltú vita, að ef að þú eigi endir það, er þú hefur byrjað, þá skaltu missa höfuð þitt. Ræninginn hneigði sig, til merkis um, að honum líkaði það, er foringinn mælti; síðan stje hann á hest sinn, og hjelt til borgarinnar. Hann nam staðar fyrir utan borgina, og klæddist dularbúningi; síðan gekk hann inn, og beint inn á torg; var sól eigi upp komin. Enginn maður var kominn á fætur, og allt var kyrrt; nema *Mústafa* skóari sat í búð sinni, og var syngjandi að verki sínu, að bæta skó og stígvjel. Ræninginn gekk til hans, og mælti: þú ert snemma á fótum, karl minn sæll, það er eigi orð-

ið albjart. Hvað þá, mælti skóarinn, sá, sem fyrir skömmu hefur saumað saman lík við ljós, hann getur einnig bætt skó við morgunbjarmann. Ræninginn varð hissa, og hugsaði með sjer: bíðið við, eg hefi fundið karlinn! En hann sagði samt, til þess að vera viss um allt: þú ert víst að meina hjúpinn, maður minn, því líkin sjálf eru menn ekki vanir að sauma saman. Nei, nei, sagði *Mústafa*, eg veit, hvað eg segi; en spyr þú mig ekki meira, því að þú verður einkis vísari fyrir það.

Ræninginn var nú engu að síður orðinn þess vísari, að þetta var sá maður, er hann þurfti að finna, og skildi hann því, að hann hlaut að gjöra sjer allt far um, að koma honum til þess, að segja frá því er hann vissi; bauð hann honum því einn gullpening, til þess hann segði sjer frá því. En *Mústafa* var eigi búinn að gleyma því, er hann hafði heitið *Morgönu*, og þagði, þó að gullpeningurinn gengi honum í augu. Þá bauð ræninginn honum tvo peninga, og loksins tuttugu. Þá mælti *Mústafa*: herra, eg er fátækur maður, og hlýt að vinna í heilt ár, til þess að eg geti fengið tuttugu gullpeninga, en engu að síður mun eg eigi segja þjer það, er þú spyr mig um; en ef þú vilt gefa mjer þetta fje, fyrir það, að eg einungis vísi þjer á hús það, er eg saumaði saman líkið, þá fá þú mjer fjeð, og mun eg vísa þjer á húsið. Fjekk ræninginn honum þegar fjeð; en *Mústafa* ljet hann binda fyrir augu sjer, og leiddi ræninginn hann síðan; en hann gekk fót fyrir fót, hinn sama veg, sem *Morgana* fyr hafði leitt hann um, og taldi snúningana og skrefin, þar til er er þeir námu staðar fyrir framan dyrnar á húsi

*Alis*, þá mælti *Mústafa:* leystú nú frá augum mjer, því að nú erum við komnir að húsinu. Ræninginn gjörði svo, og spurði, hver byggi í því húsi. Það vissi *Mústafa* eigi, því að hann þekkti ekkert til þeirra, er bjuggu í þeim hluta bæjarins. En er ræninginn sá, að hann mundi eigi fá að vita meira, þá ljet hann *Mústafa* fara á burtu, tók krítarmola upp úr vasa sínum, og gjörði kross á dyrnar, svo að hann skyldi þekkja húsið aptur. Síðan fór hann út úr borginni, stje á hest sinn, og reið til hellisins. Urðu ræningjarnir nú glaðir mjög, og hjeldu, að þeir ættu sigurinn þegar vísan. En það fór nokkuð öðruvísi. Því að nokkru eptir að ræninginn var á burtu farinn, þá lauk *Morgana* upp dyrunum, og hafði körf á handlegg; ætlaði hún að kaupa mat á torginu, eins og hún var vön. Þegar hún kom aptur, þá tók hún eptir krossinum, er ræninginn hafði gjört á dyrnar; varð hún að sönnu ekki hrædd, en eitthvað mun henni samt hafa dottið í hug, því að hún sótti þegar krít, og gjörði krossa á margar dyr á nálægum húsum. Komu ræningjarnir nú nóttina eptir; og ætluðu að veita húsinu atför, en fundu margar dyr krossaðar á sama hátt, og vissu því eigi, hvert húsið var; hlutu þeir þá að fara á burtu við svo búið, og var för þeirra eigi sem bezt. Varð foringinn nú ærr og óður af reiði, og vildi eigi heyra neinar afsakanir þess, er farið hafði, heldur hjó hann þegar banahögg. Töluðu ræningjarnir nú aptur á bak og áfram um atburði þessa, og ráðguðust um, hvað nú skyldi til bragðs taka. Virtist þeim öllum málið vera merkilegra og meira áríðanda, en svo, að þeir mættu láta það detta niður við svo búið, þar sem við sjálft

lá, að þeir yrðu allir uppvísir að ránunum, og þeim væri dauði búinn. Loksins gekk fram einn ræningjanna, og bauðst til, að reyna til hins sama, og láta líf sitt, ef að það eigi tækist. Fór hann nú að á sama hátt, og hinn, er áður fór. Fann hann skósmiðinn, og ljet hann vísa sjer á húsið. Hann ætlaði nú að vera kænni, en hinn ræninginn, og markaði dyrnar með rauðum krossi, þar sem lítið bar á. Síðan reið hann aptur til fjelaga sinna, og sagði foringjanum frá. En *Morgana* var eigi dáin enn, ambáttin dygga og slóttuga, og voru það mjög fáir hlutir, er hún eigi tók eptir. Sá hún nú rauða merkið á dyrunum, og fór hana þá að gruna, að eitthvert ráðabrugg mundi vera haft í frammi við hússbónda sinn, því að merki þessi mundu varla vera sjálfkrafa komin á dyrnar. Það grunaði hana og, að þetta mundi vera ræningjunum að kenna; þá sótti hún rauðan lit, og merkti margar dyr á sama hátt, og fyr hafði hún gjört. Ekki ljet hún *Alí* vita neitt af þessu, til þess, að hann væri með öllu áhyggjulaus. Var ráð ræningjanna þá aptur ónýtt gjört; því að þá er þeir komu um nóttina, fundu þeir aptur margar dyr merktar, en vissu alls eigi, í hvert hús þeir skyldu fara; hlutu þeir að snúa aptur við svo búið með skömm og sneypu. Þá hjó foringinn banahögg þann ræningja er farið hafði njósnarförina, og voru fjelagar hans hryggvir yfir því, enda þó það hlyti svo að vera; því að þannig var fóstbræðralagi þeirra varið. Var foringinn þó einna hryggvastur, og mælti: fjelagar góðir, ef að þessu fer þannig fram, þá mun eigi á löngu líða, áður allur mannafli vor líður undir lok, og vil eg eigi það til vinna. Eruð þjer allir

hraustir menn og djarfir, en eigi virðist mjer þjer vera mjög kænir. Mun eg nú sjálfur fara, og vita, hversu það dugir; ef að mjer ekki tekst ferðin betur, en öðrum, þá skorast eg eigi undan dauða; bíðið mín nú, þangað til á morgun. Síðan reið hann á burtu, og til borgarinnar, fann húsið, með aðstoð *Mústafa;* eigi gjörði hann neitt merki á húsið, heldur setti hann vel á sig, hvernig öllum gluggum var hagað á því, og hversu það var að utan; síðan snjeri hann aptur. Þá er hann var kominn til ræningjanna, mælti hann: nú er húsið fundið, og má nú allt vel fara, ef að þjer gjörið eins og eg segi yður fyrir. Skuluð þjer nú sækja nítján sterka eyki. En ræningjarnir hlýddu orðum hans.

Fám dögum síðar rak maður nokkur, er verzlaði með viðsmjör, nítján eyki inn í borgina; voru þrjátigi og átta leðurbelgir á eykjunum; sá stefndi á hús það, er *Alí* bjó í. Svo vildi til, að *Alí* stóð í dyrum úti; kaupmaðurinn kom til hans og mælti: herra, eg er langt að kominn með viðsmjör mitt, er eg ætla selja hjer í borginni. En eg þekki hjer engan mann, er eg geti beðið gistingar, og er nú þegar farið að skyggja; vil eg því biðja yður, herra, að þjer leyfið mjer að vera hjá yður í nótt, og lofa eykjum mínum að liggja í húsagarði yðrum; munuð þjer víst eigi, sakir góðsemi yðvarrar, neita mjer um þetta, er eg og ánægður með allt, hvaða stað sem þjer viljið mjer á vísa. *Alí* var maður bóngóður mjög, hann mælti: það er yður velkomið, vinur, komið þjer þegar inn. Bauð hann síðan *Morgönu* að opna hliðið að húsagarðinum, og láta eykina inn. Var svo gjört, og eykjunum gefið hey og bygg; síð-

an leiddi *Ali* kaupmanninn inn í stofu, og beindi honum harla örlátlega og af mikilli gestrisni. Og er kaupmaður hafði matast, þá ætlaði hann niður í stallinn, til eykjanna, og ætlaði að vera þar um nóttina. En það vildi *Ali* eigi, heldur bauð hann *Morgönu* að vísa gestinum inn í herbergi,, er búið var handa honum. Hlaut hann nú að láta undan, en bölvaði í huga sinum gestrisni *Alís.* Því að gestur þessi var í rauninni enginn kaupmaður, heldur var það ræningjaforinginn, og hafði eigi meira viðsmjör meðferðis, en í einum belg; en í sjerhverjum hinna þrjátigi og sjö leðurbelgja var einn ræningi, og grunaði það engan mann. Var það ætlan ræningjaforingjans, að á meðan allir væru í fasta svefni, þá skyldu þeir laumast upp úr belgjunum, fara inn í húsið og myrða allt kvikt, er þar væri.

Þá er *Morgana* lýsti gestinum til sængur, kvaðst hann ætla að líta eptir eykjum sínum, áður hann færi að hátta; og gekk hann út úr stofunni. Á meðan hann var á burtu, mælti *Ali* við *Morgönu:* á morgun mun eg taka laug; skaltu því hafa til hrein klæði, og fá *Abdala,* þjóni mínum; síðan vil eg fá mat góðan; skaltu nú annast þetta vandlega. Síðan gekk hann inn í svefnherbergi sitt, og sofnaði þegar; grunaði hann ekkert um þá hættu, er vofði yfir höfði honum. En kaupmaður gekk ofan í garðinn, til þess að segja fjelögum sínum frá þeim breytingum, er hann hlaut að gjöra, þar sem hann nú hlaut að láta fyrirberast í húsinu inni; gekk hann nú frá einum belg til annars, og mælti: eg hlýt að sofa í húsinu; verið vel viðbúnir, er eg fleygi smásteini ofan úr svefnherberginu; skuluð þjer spretta upp belgj-

unum með knífum yðrum, og fara úr belgjunum; mun eg þá koma þegar, en verið kyrrir þangað til. En svo mikið langaði ræningjana í hefnd, að þeir voru þegar fúsir á, að þola allt um stund, jafn vel þó að þeir lægju ekki sem þægilegast, og mættu varla anda draga, hjetu þeir nú foringjanum hlýðni. Síðan gekk hann aptur inn í húsið, og varð nú bráðum allt eins hljótt, og vant var. Grunaði engan neitt; ljós voru slökkt; og eptir að ræningjaforinginn hafði slökkt ljós sitt, lagðist hann á rúmið í fötunum. Ekki mátti hann sofa, heldur beið hann lágnættisins.

Morgana var að hugsa um það, er Alí hafði boðið henni. Hún tók til nærklæði handa honum, og fór að heita vatn yfir eldinum; síðan kallaði hún á Abdala. Hún mælti: Abdala, á morgun ætlar hússbóndinn að taka laug, og er eg að heita vatn, til þess að þvo klæði hans úr; skulum við skrafa eitthvað saman, á meðan vatnið er að hitna. Á meðan hún var að skara að eldinum, þá slokknaði allt í einu lampi hennar, og varð hún þess vör, að hann var feitarlaus. Hvað á eg nú að gjöra, mælti hún, eg get eigi verið ljóslaus, og ekkert viðsmjör er til í húsinu. Þá mælti Abdala: far þú ofan í garðinn, og taktu viðsmjör úr einhverjum leðurbelgnum; þú þarft eigi meira, en svo, að kaupmaðurinn tímir að sjá af því. Það er satt, karl minn sæll, svaraði Morgana; gekk hún ofan með krukku. Hún kom að fyrsta belgnum, og ætlaði að opna hann; þá hvíslaði sá, er í belgnum var: á eg að koma? — Varð Morgana ákaflega hrædd, er hún heyrði manns röddu úr belgnum; og skalf hún eins og hrísla. Ætlaði hún í fyrstu að kalla menn til hjálpar; en allt í einu datt henni ráð í hug, og hvíslaði hún aptur: ekki enn, heldur bráðum. Síðan gekk hún að næsta belg, og þaðan af til allra hinna; spurði sjerhver ræningi að, hvort hann ætti að koma, en hún mælti: ekki enn, heldur bráðum. Fann hún loksins viðsmjör í aptasta belgnum, fyllti krukkuna, og skundaði til eldahúss aptur; kveikti hún síðan á lampanum. En Abdala varð þess brátt var, hve föl hún var að sjá, og sagði við hana: Morgana, hvað gengur að þjer, þú ert föl, eins og nár.

þá sagði Morgana honum frá því, er fyrir hana hafði borið, og kvað þrjátigi og sjö menn vera í leðurbelgjunum, og mundu þeir vilja drepa alla þar í húsinu. Já, mælti Abdala, við skulum nú eigi láta neitt af því verða. Abdala var hraustur maður og sterkur; og hræddist eigi, er allt var þannig upp komið, enda þó honum brygði nokkuð við í fyrstu. Hann stakk upp á því, að drepa foringjann fyrst. Nei, mælti Morgana, fyrst hljótum við að bana ræningjuuum; því þá mun foringinn eigi undan komast; skaltu nú fara að mínum ráðum: þú skalt taka ketilinn mikla, og fylla hann með viðsmjöri því, sem í belgnum er; en eg mun gjöra eld mikinn, og heita viðsmjörið síðan. Abdala gjörði þegar svo sem hún bauð. Settu þau nú ketilinn á eldinn, og varð viðsmjörið bráðum sjóðanda. Nú fer vel, mælti Morgana, taktú nú undir ketilinn með mjer, og berum hann út. Þau gjörðu svo; þá tók Morgana krukku stóra, fyllti hana með viðsmjöri; síðan gekk hún til allra belgjanna, og hellti í sjerhvern þeirra vellanda viðsmjöri; en Abdala bar ketilinn á eptir henni; og ljettu þau eigi þessum hinum grimmilega, en nauðsynlega starfa, fyr en allir ræningjarnir voru dauðir. Þá snjeru þau aptur til eldahússins; Morgana slökkti ljósið og eldinn, og mælti: nú munum við bíða, og sjá, hvað foringinn gjörir. Mun hann ætla sjer ofan, og hleypa út mönnum sínum; en þá skaltú fara að honum, og drepa hann; mun það vel takast. Þá hló Abdala, kreppti knefana, og mælti: komi fjandinn! Síðan biðu þau þegjandi í myrkinu.

Þá er þau höfðu beðið nokkura stund, reis ræningjaforinginn upp, og gekk að glugganum. Hann tók npp smástein, og fleygði ofan; var þetta merkið, er hann ljet ræningjana vita af fyr. Heyrði hann glögglega, að steinninn kom á einn leðurbelginn; en allt var hljótt, og enginn hreifði sig. Fleygði hann nú mörgum steinum, en það kom fyrir ekki. Tók hann þá að ókyrrast, og gekk ofan í garðinn, til þess að sjá, hversu á stæði. En rjett sem hann var að skoða í fyrsta belginn, þá flaug Abdala á hann, og tók hann hriggspennu heldur óþyrmilega; en jafn vel þó að ræninginn brytist um, þá rak Abdala hann niður; síðan tók hann upp kníf mikinn, og rak dólginn svo laglega í gegn, að hann var örendur þegar í stað, og rak eigi upp hljóð.

þá höfðu þau lokið starfa sínum; og þannig drap ein stúlka og einn maður þrjátigi og átta styrkra og vopnfimra manna.

Morguninn eptir leiddi Morgana hússbóndann ofan í garðinn, og mælti: herra, lítið þjer í leðurbelginn að gamni yðar. Leit hann þá ofan í einn þeirra. Þá sá hann hálfbrunnið og afskræmt lík, og mælti fullur ótta og skelfingar: Morgana, hverju sætir slíkt? Verið óhræddur, herra, mælti hún, maðurinn sá mun eigi vega að yður; þannig er og að sjá í hinum belgjunum. Þá mælti Alí: en hvar er kaupmaðurinn, er á þessa hluti? Seg mjer þenna hinn óttalega leyndardóm. Þá leiddi Morgana hann til eldahúss; þar beið Abdala hjá líki ræningjaforingjans, en hún sagði Alí upp alla sögu, og frá þeirri hættu er hann var í staddur, án þess hann grunaði neitt. En Alí kannaðist við ásjónu ræningjaforingjans, er hann hafði sjeð við hamarinn fyrrum. Síðan mælti hann: Morgana og Abdala, það mun mjer aldrei auðið verða, á meðan eg lifi, að endurgjalda ykkur allt það, er þið hafið gjört fyrir mig. Komið, eg vil faðma ykkur, því að hjeðan af skuluð þið eigi lengur vera þjónar mínir, þar sem þið hafið verndað mig og varðveitt; heldur skuluð þið vera börn mín, þar til er eg dey, en eg mun vera faðir ykkar. Grjet hann þá fögrum tárum, og mælti síðan: nú hljótum vjer þegar að jarða líkin, og grafa gryfju mikla, því að enginn má vita af atburði þessum, svo að vjer eigi hljótum illt af. Munum vjer aldrei geta sannað það, að það hafi ræningjar verið, er hjer eru vegnir. Síðan gengu þeir Abdala út í garðinn, og grófu djúpa gröf, og ljetu líkin þar í; var eigi sungið yfir þeim. En eykirnir voru seldir í laumi.

Síðan lifði Alí ásamt með Abdala og Morgönu farsællega í mörg ár: og er hann dó, þá sagði hann þeim frá hamrinum Sesam, og frá því er þar væri að finna. Síðan andaðist Alí, og blessaði þau, er svo mikillega höfðu unnt honum.

En Abdala og Morgana hörmuðu lát hans sárlega og lengi. Og er tíminn hafði ljett harmi þeirra, þá giptust þau; og er þau vantaði fje, þá söðlaði Abdala í hvert sinn eyk sinn, reið að hamrinum, og kallaði: Sesam! Sesam! opnist þú; En hamarinn opnaðist þegar, og var þar nógur auður fyrir. Svo lýkur þessari sögu.

---

Lesari góður, þú sem hefur lesið þessar sögur, þú munt nú loka aptur bók þessari. En í hvert sinn, er þú vilt, þá mun hún opnast fyrir þjer, eins og Sesam opnaðist áður; og þó að bókin eigi veiti þjer slíkan auð, sem sá var, er Sesam veitti sínum herrum, þá mun hún samt veita þjer andlegan og ljómandi auð úr hugmyndanna ríki. Það eru blikandi blóm, sem glóa á landi dimmra drauma, eins og hinir fögru ávextir, er Aladín eignaðist undir jörðunni niðri. Auðurinn er ekki alltjend innifalinn í gulli og silfri; en hann er opt geymdur undir ljómandi blæjum fegurðarinnar, og gleður andann með sætum ilm og blikandi ljóma. — Og þegar þú villt ljúka bókinni aptur, þá mun hún lokast, og geyma auð fegurðarinnar handa þjer, hvenær sem þú villt sjá hann aptur, eins og kletturinn, sem sagt var við forðum: Sesam, Sesam! lokist þú.

---

